

# Biblia

## Þad Er/ Øll Heilög Ritning/ vtlögd a Norrænu.



Med Formalum Doct. Martini. Lutheri.



Prentad a Holum/ Af Jone Jons Syne
M D LXXXIIII.



VI Friderich thend Anden met Guds Naade / Danmarckis / Norgis / Wendis oc Gottis Konning / Hertug vdi Slesuig / Holsten / Stormarn oc Dytmersken / Greffue vdi Oldenborg oc Delmenhorst. Göre alle vitterligt / At effter som oss Elskelige hederlig och höylærdt Mand H. Gudbrand Torlakssön / Superintendent vdi Hole Stigt paa vort Land Island / vnderdanigste haffuer giffuit oss til kiende / huorledis hand haffuer sig faaretaget / Gud Almectigste til Loff oc ære / oc Menigheden paa Island boendis til gaffn oc gode / At ville lade Bibelen vdgaa i Tryck paa Islands Maall / huor paa ther will anuendis en stor Bekostning. Tha haffue wj aff vor synderlig gunst oc Naade beuilget oc thilladt / oc nu met thette vort obne Breff beuilge oc tillade / At for$^{ne}$ H. Gudbrander Thorlakssön maa lade for$^{ne}$ Biblia paa Islands maall prenthe oc j Tröck vdgaa / Dog hand skal were forplictig met störste Flijd och Vindskibelighed for$^{ne}$ Biblia paa samme Islands maall at vertere oc vdsette / oc aff hans högiste Forstand thend tilforn at corrigere oc igennemse. Och paa thet hand saa mögitt thess bedre maa komme til for$^{ne}$ Arbeide at fulldriffue / Haffue wj naadigst wndt och beuilget hanom / at maa bekomme oc lade opbere en Daller eller oc en Dallers werdt / aff huer Kirckes indkompst offuer alt vort Land Island / Foruden huess hielp wj hanom sielff hellers ther til Naadigst giffuit haffue. Och skal her met strengeligen oc alffuorligen were forbudet Alle oc huer / for$^{ne}$ Biblia paa Islandske effter thenne Dag hanom at lade effter tröcke. Bedendis oc biudendis Kirckeuergerne til huer Kircke / paa for$^{ne}$ Island / Attj fornöiger for$^{ne}$ H. Gudbrand en Daller / eller oc en Dallers werdt aff huer Kirckes indkompst thet offuer alt Landet / oc ingen Hinder eller forfang ther paa giörer honum. Giffuit paa wort Slott Friderichs Borg / thend xix. dag Aprilis / Aar etct. M. D. lxxix. vnder vort Signet

Friderich



J Friderich thend Anden met Guds Naade/ Danmarckis/ Norgis/ Wendis oc Gottis Konning/ Hertug vdi Slesuig/ Holsten/ Stormarn oc Dytmersken/ Greffue vdi Oldenborg oc Delmenhorst. Göre alle vitterligt/ At effter som oss Elskelige hederlig och höylærdt Mand H. Gudbrand Torlakssön/ Superintendent vdi Hole Stigt paa wort Land Island/ haffuer sig forethaget/ Gud Almectigste til Loff oc Ære/ oc hans Fæderne Land til gaffn oc gode/ At wille lade thend hellige Biblia paa Islendske Thungemaall vdi Thröck vd gaa/ huor paa will wendis en stor Bekostning. Tha haffue wi for gott anseet/ At naar samme Biblia bliffuer Prenthed/ och althingest ther met fulldreffuit/ At til huer Kircke ther offuer alt Landet skal kiöbis en aff for[ne] Biblia/ och vdi Kirkerne indleggis. Bedendis ther fore och strengeligen biudendis/ alle Kirckeuergerne offuer alt for[ne] wort Land Island/ Atti retter ether effter/ for Kirckens Pendinge och Inkomst at kiöbe en Bibel til huert Sogne Kircke/ ther offuer alt Landet/ och thenom wel foruaret vdi Kirckerne lader indlegge/ at the althid kunde were ther til stede/ Ther met skeer wor wilge och Befalning/ thi lader thet ingelunde. Giffuit paa wort Slott Friderichs Borg/ thend xxij. dag Aprilis/ Aar etct. M. D. Lxxix. vnder vort Signet

Friderich

):( ij.

Vak þu minn Jesu vak þu i mier
vaka lattu mig eins i þier
salinn vaki þa sofnar lijf
sie hun æ tid i þinni hlijf

BIBLIAN
KOSTAR FIM
RIKSDALE
KURANT

# Formale yfer hid

## Gamla Testamanted

D. Mart. Luth.

*Huern Dom ad sumer Meñ leggia a þat gamla Testamted*



F þui gamla Testamentenu hallda sumer Meñ lÿted/ So sm̃ at sie þad at eins giefed Gydinga Folke/ z hafe nu enda/ z ad þat hallde ecke annad eñ vmlidna Giørninga/ Meinande ad þeim nægest þad Nyia Testamented/ z vpp leita Allegorias/ þad er añdligar meiningar i þui gamla Testamentenu/ Hueria Meining ad haft hefur Origenes/ Jeronimus z fleire adrer merkeliger Meñ. Eñ Christus seig' Joh. 5. Ransaked Ritningena/ þuiad hun ber Vitnisburd vm mig. Og S. Pall bydur Timotheo/ Ad hñ skule vera jdinn i lesningu Ritningarinnar. Og til Rom. 1. Hrosar hñ ad Euangelium sie af Gude i Ritninguñe fyrer heited. Og 1. Cor. 15. seiger hñ so/ ad Christr sie komeñ af Blode Dauidz epter Ritninguñe/ z sie daiñ z af Dauda vpp aptr riseñ. J sama mæta vÿsar oss S. Petur optar eñ eitt siñ aptur til Ritningariñar.

*Christus og Postularner Pall og Petur þeir vÿsa oss i gamla Testamented*

*Gamla Testamented skal ei fyrerlÿtast helldur wandliga lesast*

Og þta giøra þr þar fyrer/ at þr vilia kieña oss/ ad vier ecke skulū fyrerlÿta Ritning þss gāla Testamtes/ helldur lesa hana vandliga/ med þui ad þeir sialfer þad nyia Testamented so stadfastliga grundualla og bi uÿsa mz þui gamla Testamtenu/ z skiota sijnu Mæle til þss. So sem þat S. Lucas skrifar Act. 17. Ad þeir i Tessaloniu Borg hafe dagliga ransakad Ritningañar/ huert þær hiellde suo s̃ S. Pall hñ kiende. So sm̃ nu þ ecke somer i nockurn mæta ad fyrerlÿta Grunduøll og biuÿsaner þess nyia Testamtesiñs/ so dyrmætt og verdugt a þat gamla Testamted hallded ad vera. Og huad er nyia Testamted añad/ eñ ein opinberlig Predikun og bodan vt af Christo/ framsett mz Greinum hins gamla Testamentis/ og fyrer Christum vppfylld og framkomeñ?

*Nyia Testamentum*

*Eigiñ hneyksl est a einfalldre og obreyttre Rædu Ritningarinnar*

Enn vppa þad/ at þeir sem Fafroder eru og sialfer ecke betur kuña mætte nockra Jñleiding og vnderuÿssun fa huernen þeir meige þar jñe lesa þeim til Nytsemdar z gagns/ þa hef eg þeñañ Formæla samsett epter mÿnum litlum formætte sem Gud hefur mier giefed. Bidiande og aminnande huern og eirn Gudhræddann fromañ Christeñ Mañ/ ad hann læte ecke hneycksla sig þ obreytta Mæl z þær einfølldu Frasagner sem opt og osialldan kuña fram ad koma fyrer hñ. Helldur sie þess oefadur/ huersu obreytt og einfalldligt sm̃ þad er a ad sia/ þa er þ allt saman ecke añat eñ Ord/ Verk/ Domar z Giørning' þrar haleitu Guds Gud domligrar Dyrdar/ Maktar z Vÿsdoms. Þuiad þetta er su Ritningen sm̃ alla Spekinga z Vÿsendameñ ad Þussum giører/ Og stendur alleina opiñ fyrer Smæbørnum z þeim ofrodu/ so sem Christur sialfur seiger Math. 11. Þar fyrer legg fra þier þinn Þotta og þÿna Meining/ z hof z hallt þessa Ritning fyrer þañ allra ædsta/ besta og helgasta Helgedom/ z fyr' þa alira rÿkustu Gulls Vppsprettu/ huer ed alldrei kañ vppauseñ ad verda/ i hūre alleina þu mætt fiña Gudōdliga Speke z Visku/ hueria Gud hier so einfalldliga z obreytt framsetur/ til þess ad læcka z nidurleggia allañ Metnad Mañlegrar Visku z Speke. Hier mættu fiña þa Reifana z þa Jøtuna huar ed Christus liggur j/ Huørt ed Eingilleñ vÿsar Hirdsørunum. Þesser Reifar eru ad vÿsu einfallder z litelmotliger/ Eñ sa Fiesiodureñ/ Christur/ sem þar i þeim vafiñ er/ hñ er dyrmætare enn fra meige seigia.

*Ritningen giører þa Hygnu ad Þussum/ og stendur open fyrer einfølldū*

*Gamla Testamented er ein Løgmals Bok*

*Nyia Testamented er ein Nadarbok*

*Løgmæl og Bodord er i nyia Testamtenu*

*Fyrerheit i þui gamla Testamentenu*

So skalltu nu vita/ ad þÿse Bok er ein Løgmæls Bok/ huer ed kieñer huad Meñ skulu giora z ecke giøra/ Og jafnframt þssu framsetr hū dæme z giørninga/ huernen þta Løgmal hefur hallded vered/ edur broted. Alÿka s̃ þad Nyia Testamted er Euangelium edr ein Nædar Bok/ kiennañde/ huar Meñ skulu þad fa z ødlast/ ad þeir giete Løgmæled vppfyllt. Eñ so sem i nyia Testamtenu/ jafnframt Nædariñar Lærdome verda og adrar Kieñingar framsettar/ huoriar ad eru Løgmæl og Bodord/ Holldenu til apturhallds/ þuiad i þessu Lÿfe verdr Andeñ ecke algiørdur/ og ei helldur kañ Næden einsømul ad Rÿkia. Suo eru z eirnen i þui gamla Testamtenu/ jafnframt z mz Løgmælenu/ nockur Fyrerheit z Greiner vt af Nædiñe/ med hueriu þeir Heiløgu Fedur og Spameñ/ vnder Løgmælenu/ hafa i Truñe a Christum/ lÿka sem vier/ Sæluholpner ordet. Þo suo sem ad eigenligur høfud Lærdomur hins Nyia Testamtis er þta/ ad boda z til seigia Næd z Frid/ fyrer Syndaña fyrergiefning i Christo/

So

So er þtta eigenligꝛ høfud Lærdomꝛ hins Gamla Testamtes/ad kieña ⁊ framsetia Løgma- I
led/syna Mønnum Syndena/og heimta god Verken. Þessa skalltu vænta i þui Gamla
Testamtenu.

Og ad vier fyrst tølum vm Moses Bækur/Þa kienner hñ i þeirre fyrstu Bokinne/huern en allar Skiepnur sie skapadar/Og(huad ad er hellst søk og efne hñs skriftar)huadan Synden sie komen ⁊ Dauden̄/einkum/ fyrer fall Adams vt af hreckuꝭse Diøfulsiñs. Eñ strax þar epter/ adꝛ eñ Moses Løgmal kiemꝛ/ þa kieñer hñ/ huadan su Hialp skule koma/til ad burtdrijfa Syndena ⁊ Daudañ/einkū sm̄ er/ecke fyr Løgmaled/edur eigenlig Verk(mz þui þa var eckert Løgmal)/ Helldur fyrer Sæde Kuiñuñar/Christū/huer ed Adam ⁊ Abraham var fyrerheiten. Vppa þad ad TRVEN yrde/ i fra Vpphafe Ritningariñar/ ⁊ i heñe allre vt til enda prijsud fram yfer øll verk/ Løgmal ⁊ Verdskulldan. So er nu naliga fyrsta Bok Moses ecke añad enn Epterdæme Truariñar og Vantruariñar/synande hueria Ausxtu Truen ⁊ Vantruen af sier leide/⁊ er ad mestu ejn Euangelisk Bok.

Huad Moses kienner i fyrstu Bokinne
Huadā Synd og Daude er komen
Hialp i mote Synd og Dauda
Fyrerheited er fyrr eñ Løgmaled

Þui næst i annare Bokinne/þa Mañkyned var fiølgad/⁊ Heimurenn var fullur/ og var so socken̄ i Myrkred ad eingen̄ visse vpp fra þui nalega huad Synden være/edꝛ huadan Dauden̄ komen̄ være/Þa leider Gud Mosen fram mz Løgmaled/Og tekur til sijn sierdeilis Folk/ til þess ad vpplysa þar mz ad nyiu Heimeñ/ og at straffa Syndena fyrer Løgmaled ⁊ hana ad opinbera. Suo vmgirder hñ þetta Folk med allra handa Løgmale/⁊ skilur þad fra øllū ødrum Þiodum. Hñ bydur þeim ad vppbyggia eina Tialldbwd/ og skickar þeim sierdeilis Þionustugiørder/Setur til Høfdingia og adra Embættismeñ/ og forsorgar so sitt Folk med Lagasetningum og Moñum/hid agiætligasta/so ad þeir hefde hina fegurstu Stiornan/ bæde holldliga fyrer Heimenū/ ⁊ so andliga fyre Gude. II

Gydinga þiod Gudz Folk

J þridiu Bok verdur sierdeilis jnnskickadur Kieñemañskapurenn mz sijnum Lagasetningum ⁊ Ceremonijs/ huar epter Kieñemeñerner skylldu sier Hegda/⁊ kieña ⁊ vnderuijsa Folkenu. Hier ma sia/ad þetta Kieñemannliga Embætte er alleinasta vegna Syndarinnar jnnsett og skickad/ad hun skule Folkenu kuñ og opinber verda/og fyrer Gude verda forlijkt/So at allt Kiennemañsins Embætte er þad/ad vmgangast mz Syndunū ⁊ þeim Syndabrots mønunum. Þar fyrer var ⁊ Kieñemønnunum eckert Fastagotz til eignar giefed/eigi helldur Veralldlig Rijkis stiorn boden nie fyrerheiten/Helldur þad alleina/ad þeir skylldu añast þad synduga Folked. III

Huar til Kennemannligt Embætte er nytsamligt

J fiordu Bok/þegar Løgmaled var nu giefed/ Kieñemeñerner ⁊ Høfdiñgiarner tilsetter/ og Tiallbwden og Þionustugiørden vppreist/ og þa allt var tilbwed/þad sem Gudz Folke til heyrde/Þa hofst vpp Verked sialft og tijdkan þeirra hluta sem tilskickader voru/ ⁊ var giørd reynsla til/huern framgang slijkar skickaner hafa villdu. Þar fyrer skrifar su sama Bok vt af suo mørgum Dæmum Ohlydneñar og Plagu þessa Folks/Þar mz vida nockrar Lagasetningar vidauknar ⁊ vtskyrdar. Þuiad so skiedꝛ hueruetna/ad auduelldligt er ad vtgiefa nockurt Løgmal/ Eñ þegar þad skal halldast ⁊ hafa framgang/þa koma meir eñ nogar hindraner/suo þad vill ecke framgang fa suo sem Løgmaled krefur. Suo ad þesse Bok er eitt merkeligt epterdæme/huersu ad ølldungis til einskis er/ad vilia mz Løgmalenu giøra Meñ froma og Riettlata/ Helldur so sm̄ S. Pall seiger/at Løgmaled verke ecke vtan Synd og Reide. IIII

Løgmal er hægt ad setia/ Enn ad hallda þad er toruelldt

Ad vilia giøra Menn med Løgmalenu riettlata og froma

J fimtu Bokiñe/Þa ed Folked fieck Refsing vegna siñar Ohlydne/og Gud hafde nockud lijtt lockat þad med Velgiørningum/þa ed hñ gaf þeim þau tuø Kongarijken/so ad þeir þess helldꝛ hiellde hñs Løgmal mz Alhuga og elsku/Þa tok Moses vpp aptꝛ giøruallt Løgmaled/med øllu þui sem til hafde bored(ad frateknu þui sem Kieñemañskapnum tilheyrde)og vtleggur og skyrer so allt ad nyiu þad sem ahrærer bæde þad Andliga og Veralldliga Vallded Folksins. Med þessum hætte fullnægiu giører Moses hueruetna sijnu Embætte/ suo sem añar algiørdur Løgsetninga Madur/og setur ecke ad eins Løgmaled/helldur er hñ þar nælægur/⁊ helldur Moñum til ad vardueita þad/Og ef brestꝛ er a nockru/ þa vtskyrer hñ þad og endurbæter. Enn þesse vtskyring Løgmalsiñs i fimtu Bokiñe/ hefur ecke añad sierligt jnne ad hallda/vtan Truna til Gudz og Kiærleikann til Naungans/Þui þangad heyra allar Lagasetningar Gudz. Þar fyrer mæter Moses med sinne gloseran og vtleggingu øllu þui sem Truna til Gudz ma nidurbriota(og þetta giører hñ)allt til hins tuttugasta Cap. Sijdan vpp fra þui mæter hñ þui sem Kiærleikañ hindrar/allt til enda Bokariñar. V

J fimtu Bok tekur Moses Løgmaled allt vpp aptur

Jñehalld vtskyringar Løgmalsinns

Hier er fyrst athyggiāda/ad Moses bindꝛ Folked so granduarliga mz sijnū Lagasetningū/ so at hñ giefꝛ ei mañligre Skynseme nockurt Rwm/ad vtuelia nockud verk/edꝛ nockurskonar

Huar fyrer Moses so fast



eigen

bindr Gydinga folk med Lagasetningum

eigenliga Gudz Þionustu vpp ad dickta. Þuiad hn̄ kieñer ecke alleinasta at ottast Gud/ hm̄ at trua z elska hn̄/ Helldr framsetur hn̄ og so marga hættu Gudligrar Þionustugiørdar/ mz Fornfæringum/ Heitum/ Føstum/ Bindinde et ct. suo ad einge Þørf er nockud nytt vt at velia. Nu kienner z so eirnen huernen Meñ skulu planta/ vppbyggia/ kuongast/ beriast/ Børnum og Niuum styra/ selia/ kaupa/ til læns ad taka/ aptur ad leysa/ og allt huad hid ytra og jñra er Þørf ad giøra/ So nakuæmliga/ ad sumer setningar synast ad mestu ad vera Þussliger z onaudsynliger.

Verken good af Mønnum sialfum vtualen þocknast Gude ecke

Enn eg spyr/ Huar fyrer giører Gud Þetta?/ Vissulega fyrer Þa Grein/ ad med Þui hann hefur teked Þetta Folk sier til eignar/ ad Þat skyllde vera hn̄s eiged Folk/ og ad hn̄ skyllde vera Þeirra Gud/ Þa villde hn̄ so mz Þessum hætte stiorna Þeim og styra/ so ad i øllum Þeirra verkum være Þeir fulluisser vppa Þad/ ad Þau sie og være riett fyrer Gude. Þuiad huer s̄ hellst ad giører nockurt verk/ huert ad ei er boded i Gudz Orde/ þ sama verk stodar eckert fyrer Gude helldur er Þad til onytis. Þuiad hn̄ fyrerbydur i hinum 4. og 13. Cap. Þeirrar fimtu Bokar/ at auka nockru vid sitt Løgmæl. Og i 12. Cap. seiger hañ/ ad Þeir skule ecke giøra huad Þeim sialfum riett synest. Og Psaltarinn og aller Spamennerner kalla vpp vm Þetta/ ad Folked giøre god Verken Þau sem þr hafa sialfer vtualed/ z af Gude voru ecke boden. Þui ad Gud vill ei nie kann ad lijda/ ad Þeir sem hn̄s eru dirfest nockut at giøra Þad sem hn̄ hefur ecke boded og bifalat/ huersu gott sem Þad synest at vera. Þuiad Hlydnen er Gøfugust og agiætust allra verka/ hun sem ad helldur sier vid Gudz Ord.

J Þssu Lijfe meiga Meñ ecke missa Þeirrar ytre Gudz Þionustugiørdar

Enn af Þui ad Þetta Lijf ma ecke vera an ytre Gudz Þionustugiørdar og Setninga/ Þa hefur hn̄ suo marghættada Setninga framsett fyrer Þa/ og mz sijnu Bode Þa stadfest/ Vpp a Þad/ ef at Þeir yrde eda villdu giøra Gude nockra ytre Þionustugiørd/ Þa mættu Þeir hafa einhueria af Þessum/ og ecke vtuelia neitt epter Þeirra eigenligre giedÞeckne. So at Þeir være Þess fulluisser/ og oefader vm Þad/ ad Þad Verk være giort epter Gudz Orde / og i Hlydne vid hn̄. J Þennañ mæta var Þeim a allar sijdur varnad og bañad/ siñe eigenligre skynseme z sialfrædis vilia epter ad fylgia/ ad giøra god Verken z Rietteliga ad lifa. Og høfdu Þo ædred nog Rwm/ stad/ tijd/ Personur/ verk og skickaner Þeim sialfum fyrerlagt og sett/ suo Þeir Þurftu ei a ad telia vm nockurn hlut/ ad Þeir yrde ad epterfylgia Dæmum añarligrar Gudz Þionustugiørdar/ vegna Þess Þeir hefde ei Þionustugiørder nie skickaner so margar s̄ Þyrfte.

Þriggia han da Løgmæl

Løgmal stūdligra Audæfa

J annare Grein er merkianda/ ad Løgmæled er med Þrennu mote. Sumt Løgmæl talar ecke vtan vm stundlig Audæfe/ Suo sem i hia oss eru Keisararietturen̄ z Landzløgen. Þetta Løgmæl er af Gude giefed og sett/ einkum vegna Þeirra hreckuisu/ so ad Þeir giøre ecke verra/ Þar fyrer er Þad Løgmæl helldur fyrerbiodande og varnande Løgmæl / helldur eñ Lærdoms Løgmæl/ So sem Þa Moses bydur ad skilia vid Eigenkonuna/ at giefeñe skilnadar skræ/ Itm̄ ad Madr mætte naudga Eigenkonuñe til vandlætingar offurs/ z eiga marg^r Kuiñur/ Slijkt allt er Veralldligt Løgmæl.

Kirkiuþionustugiørdar Løgmæl

Añat Løgmæl er Þad/ huert ed talar vm Þa ytre Gudz Þionustugiord/ suo sem hier ædur fyrre sagt er.

Yfer Þetta huertueggia Løgmæl geingur nu Þad Løgmæled vt af Truñe og Kiærleikanum/ Suo ad allt añat Løgmæl hlytur ad hafa sinn skamt og Mæler epter Truñe og Kiærleikanum/ so ad Þat skal Þa at eins gillda/ Þa Þeirra Verk eru ecke i mote Truñe og Kiærleikanum. Enn sie Þau i mote Truñe og Kiærleikanum/ Þa skal þ Løgmæl aftakast mz øllu.

Løgmæl vt af Trunne og Kiærleikanum

Hiedan kiemur Þad sem vier lesum/ ad Dauid lijfliet ecke Þann Mañdræpara Joab/ Þar hn̄ hafde Þo i tuær reisur til Dauda vñed. Og 2. Reg. 14. lofar hn̄ Konuñe af Thekoa/ ad hennar Sonur skule Lijfe hallda/ huer ed dreped hafde Brodur sinn. Eige drap hañ helldur Absalom. Itm̄/ Dauid sialfur neytte af Þm heiløgu Fornar braudum sem Kieñemønnum einum tilheyrde. Itm̄/ Thamar hugde ad hun munde mz Kongsiñs leyfe meiga eiga sinn samfedra Brodur Ammon. Vt af Þessum og ødrum Þuilijkum tilfellum og Dæmum mæ

Truen og Kiærleikurenn Þau ræda øllu Løgmæle

liosliga sia og merkia/ ad Konungar/ Kieñemenn og Høfdingiar hafa optsiñis viked af Løgmælenu/ Þa Þegar ad Trunne z Kiærleikanum hefur Þott Þess Þørf vera/ Huar vt af ad auglioft er/ ad Truen z Kiærleikuren̄ Þau eiga ad ræda fram̄ yfer allt Løgmæl/ og hafa Þad vnder sijnu Vallde. Þuiad med Þui ad allt Løgmæl einkum fram̄fylger Truñe og Kiærleikanum/ Þa skal eckert Þeirra framarmeir gillda fyrer neitt Løgmæl/ ef ad þ bydur nockut i mote Trunne og Kiærleikanum.

Gydingar vnderstanda ecke

Þar fyrer fara Gydingar miøg villt eñ nu a Þessū Deige/ ad þr so streingeliga hallda sumt af Moses Løgmæle/ so þr læta fyrr Frid z Kiærleika falla i Gruñ/ eñ þ þr ete z drecke med

ke mz oss/edr giøre an̄ad þuilijkt/Og þan̄en alŋta þeir ecke riettа meining Løgmalsin̄s/Þuiad þetta er øllum nytsamligt ad hafa þennan skilning a Løgmalenu/ecke alleinasta Gydingum/helldur øllum ødrum þeim sem vnder Løgmalenu lifa. Þuiad suo seiger Christur Math. 12/ad leyfeligt sie ad briota Þuottdagen̄/ef ad Vxe fellur i Brun̄en̄ / og draga hann vpp/Huad þo var stundlig Naudsyn og Tion/Huad myklu framar og helldur er þa leyfeligt ad briota allskyns Løgmal/ef ad Lijfshaske vid liggur/suo framt sem þat skiedur ecke mote Trun̄e og Kiærleikanum/Suo sem Christus seiger/ ad Dauid hafe giørt/þa ed han̄ at þau Heiløgu Brauden/Marc. 3.

Løgmalsins Meining

En̄ huad hefur þad ad merkia/ ad Moses samanblandar og sleynger sijnum Lagasetningum?/Huar fyrer setur hn̄ ecke veralldligt Løgmal sier i lage/og Andligt Løgmal sier i lagie/og so eirnen Truna og Kiærleikan̄ sier i lage?/Nu ad auk tuitekur hn̄ stundum hid sama Løgmal/og hefur suo opt þau sømu Ord/so þad er ad mestu leidenligt ad lesa þad og heyra? Andsuar/Moses skrifar epter þui sem þad tilgeingur/Suo ad hn̄s Bok er ein fyrermyndan og Epterdæme/huernen þat tilgeingur i Veralldligre Valldstiorn og i þessu Lijfe/Þuiad suo geingur þat til/þegar nockur hlutur skal framgang hafa/ad stundum hlytur þetta verk at skie stundu̅ eitt an̄ad. Og eige er møguligt nøckru̅ Man̄e at gieta hegdad sijnu Lijfe med þui jafnadargiede(ef þad skal an̄ars Gudlegt vera)ad hn̄ jdke a einum Deige ecke vtan andligt Løgmal/og annan̄ Dagen̄ ecke vtan veralldligt Løgmal/Helldur hefur Gud so samanmeingad og sleiged øllum Lagasetningum til saman̄s/þuilijkast sem Stiørnum a Himnenum og Blomstrum a Akrenum/Suo ad Madur ma allar stunder vera reidubuen̄ til sierhuers verks huert sem fyrst ad Høndum kiemur/Suo er og Moses Bok skrifud an nockrar sierligrar skipanar/og er þui einu blandad vid hid an̄ad.

Moses Løgmale er samansleyngt

Enn þat/at hn̄ suo fast framfylger/og tuitekur opt hid sama/Þar mz audsyner hn̄ Art ⁊ edle sijns Embættis. Þuiad huer hn̄ vill stiorna Folke mz nockru Løgmale/ hn̄ hlytur þui fram̄ ad fylgia med jafnade/og naudga Møn̄um til hlydnen̄ar/ei olijkt og Asnanum til Erfidis naudgat er. Þuiat eckert Løgmals verk veitest af sialfkrafa ast og Elsku/ þat er allt Naudu̅g ⁊ Þuingan. Nu mz þui at Moses er eirn Løgmals Lærari/þa hlytur hn̄ med sijnum Løgmals Aøninge og jafnligu adhallde at audsyna þad/ huersu Løgmals Verken eru so sem ønnur Naudu̅gar verk/⁊ mæda ⁊ þreyta Folked/So leinge ⁊ þar til/at þat mz geingur sinn Siukdom ⁊ leida Løgmalsin̄s/og flyr til Nadarinnar/so sem nu skal sagt verda.

Huar fyrer Moses tuitekur so opt hid sama Løgmal

Løgmalsins Verk eru naudungar verk

I þridiu Grein/er þetta su rietta Meining og astundan Moses/ at han̄ fyrer Løgmaled opinbere Syndena/og ad vanuirdu giøre allt Offstæke man̄ligs Megns og Mattar. Hier fyrer nefner S. Pall hn̄ Gal. 2. Þionustuman̄ Syndarinnar/og hn̄s Embætte kallar hn̄ Daudans Embætte 2. Cor. 3. Og til Rom. 3. ⁊ 7. seiger hn̄/Fyrer Løgmaled kiemur ecke an̄ad vtan þad/at Menn þeckia Syndena/og til Rom. 3. Fyrer Løgmalsin̄s Verk verdur eingen̄ Riettlatur fyrer Gude. Þuiat Moses gietur ecke neitt framar giørt mz sijnu Løgmale/vtan þad/at syna huad Men̄ eiga ad giøra og ecke giøra/En̄ krapt og Matt til ad giøra þad sama/eda lata þat ogiørt/veiter hn̄ ecke nie giefur neinum/ og skilst so þar vid oss nidursockna i Syndernar. Og sem ad vier nu so erum i Syndena nidursøckter/þa kemur Dauden̄ jafnsnart ⁊ fellur yfer oss/so sem Hefnd og Refsing Syndan̄a. Hier fyrer kallar S. Pall Syndena Brodd Dauda̅s/Af þui ad fyre Syndena hefr Dauden̄ sin̄ allan̄ Riett/Magt og Valld yfer oss/En̄ ef ad Løgmaled være ecke/þa være ⁊ eingen Synden. Þar fyre hefr Moses Embætte alla skulldena/hn̄ vppuekr ⁊ straffar Syndena fyre Løgmaled/jafnsnart þar a epter kemur Dauden̄ mz allre Magt/so ad Moses Embætte er mz Riettu af S. Pale kallat Embætte Syndarin̄ar og Daudans/Þuiat hn̄s Løgmal aflar oss einskis an̄ars vtan Syndarinnar og Daudans/ Enn allt ad einu þa er þetta Embætte Syndarinnar og Daudans gott og miøg naudsynligt/ Þuiad huar ecke er Gudz Løgmal/ þar er giøruoll mannlig skynseme so blindut/ad hun kann ecke ad þeckia Syndena. Þuiad eingen mannlig skynseme veit nie skyniar þat/ ad Vantru og Aruilnan sie Synd/Ja / hun veit ecke af þui þar/at Menn eiga Gude ad treysta og trua/Geingur suo fram̄ steinblind/ ⁊ athugalaus og verdur alldrei vør vid slijkar Synder/enn giører þo jafnframe mz nockur god verk/og lifer sidsamliga fyrer Man̄a Augum/Þa hyggur hun sig a riettre gøtu ganga/og ad hun hafe þa fulla nægiu giørt sinne kallan. So sem vier siaum a Dæmum Heidin̄a Man̄a ⁊ Hræsnaran̄a/þa þeir hyggiast at lifa sem heilagligast. Item̄/Skynsemen hun veit ecke at girnd Holldsin̄s og Natur til sinna Auina sie Synd/Helldur med þui hun sier og formerker at aller

Løgmalit openberar Syndina

Embætte Moses

Synda Embætte er gott og naudsynlegt

Forhertur blindleike Man̄ligrar Skynseme



Menn

Meñ eru so sinnader/ þa helldur hun slijkt ad vera Nꝏtturligann og godañ hlut/ og hyggur þad nægiast ef Madur gietur spornad vid þeim ytre Glæpum/ Og suo geingur hun fram̃ athugalaus/ og virder Veykleik sinn fyrer Styrk/ Synd sijna fyrer Riettlæte/ Illsku sijna fyrer Godsemd/ og kiemst ecke leingra afram̃.

Moses Embætte er gott og naudsynligt

Sia/ þeñañ Blindleika/ og slijkt hardudugt Offstæke burt ad drijfa/ þa er Moses Embætte ꝛ Þionusta miøg nytsamlig/ Nu kañ hñ ecke ad burtdrijfa þeñan offstækis Blindleika/ nema þuiad eins hñ giøre hñ mꝫ fyrr kuñañ ꝛ opinberañ/ Þetta giører hñ mz Løgmalenu ꝛ fyrer Løgmaled/ þa hñ kienner/ ad Meñ skule ottast Gud/ treysta honum og trua/ og elska hañ yfer alla hlute/ þar mz ad hafa ongua vonda Girnd/ nie Natur a nockrum Mañe. Nær nꝏtturlig Skynseme heyrer nu þetta rietteliga/ þa hlytur hun ad skielfast/ Þuiad hun fiñur med sialfre sier huerke Tru nie Traust til Gudz og eige helldur otta nie Elsku Gudz/ ecke Kiærlei kann nie hreinferdugleik Hiartans til Naungans/ Helldur Vantru/ Efaseme/ Fyrerlitning ꝛ Natur til Gudz/ og illañ vilia ꝛ Neiptar hug til Naungans/ Nær ed nꝏtturlig skynseme fiñur slijkt/ þa er Daudeñ þar þegar fyrer Augum/ og vill suelgia slijkann Syndara/ ꝛ fleyia honum ofan i Heluijte.

Løgmalsins Lærdomur

Sia þu/ þetta kallast/ at Daudeñ veite oss Armꝏ og yferfall fyrer Syndena/ og deyde oss fyrer Syndena/ Þetta er og þad ad vppuekia Syndena fyrer Løgmꝏled/ og setia hana oss fyrer Sioner/ og allt vort oftraust ꝛ Offstæke at giøra at Nrædslu/ Skieluing ꝛ Vruilnan/ So

Jon. 2.
Psal. 30.

Madureñ kañ eckert añad eñ at kalla vpp mz Spamañenū/ Eg em burtkastadur fra þijnum Augum/ Edur suo sem Meñ plaga ad seigia/ Eg em Diøfulsiñs/ Eg kañ alldrei Sꝏluholpenn ad verda. Slijkt kallast mz riettu ad vera leiddꝛ til Heluijtes. Þetta meinar S. Pall mz fꝏm Ordum þar hñ seiger 1. Cor. 15. Broddur Daudans er Synden/ Eñ Løgmaled er Kraptur Syndarinnar. Sẽ villde hñ suo seigia/ þad Daudinn stingur oss ꝛ drepur/ þad giører Synden su sem med oss funden verdur/ hun giører oss seka Daudans/ Enn þad ad Synden verdꝛ med oss funden/ ꝛ so krøptugliga giefꝛ oss Daudanū j valld/ þui velldꝛ Løgmꝏled/ huert ed opinberar oss Syndena/ og lærer oss ad þeckia hana/ vier sem ꝏdur fyrre þecktum hana ecke/ og lifdum athugalauser.

Synden er Daudans Broddur
Løgmaled er Syndarinnar Kraptur.

Sia þu nu huersu hardliga og streingeliga ad Moses hñ framfylger slijku sijnu Embætte/ Þuiad vppa þad/ at hñ sem allra mest skam̃e og at Vanuirdu giøre nꝏtturliga Skynseme/ þa setur hñ ecke ad eins slijkt Løgmꝏl/ sem talar vm þa hlute huerier i sañre raun og af Nꝏtturunne til eru Synd/ sem ad eru þau x. Bodorden/ helldur giører hñ þar Synd s raunar eingen Synd er/ þreyngiande so og nidurþryckiande hana mz offaþungre Syndabyrde. Þuiad Vantruan og vond Girnd er af sier sialfu til Synd/ og Daudans verdugt/ Enn ad eta surt Braud vm Paskahꝏtijdena/ ꝛ ad eta nockurt Dyr ohreint/ ad giøra nockurt teikn a sijnu Hollde/ og allt þad añad sem sa Leuitaña Kieñemañskapur helldur fyrer Synd/ þat er ecke af Nꝏtturuñe Synd nie illt/ helldur verdur þad Synd alleinasta þess vegna/ af þui ad þad er fyrer Løgmaled fyrerboded/ huert Løgmꝏl vel ma afteked verda. Eñ þau x. Bodord en meiga ecke so aftakast/ Þuiad þo þau være ecke til/ edur þo Meñ vijsse ecke af þm/ þa er þ þo samt Synd. So sem þetta/ Heidinna mañа Vantru er Synd/ þo þeir vite ecke þar af nie skeyte þar vm ad þad sie Synd.

Sumt Moses Løgmal giører þar Synd sem eingin Synd er i sialfu sier

Bodorden verda ecke afmꝏd

Suo siaum vier nu ad slijkt og so margfalldt Løgmꝏl Moses er ecke ad eins þar fyrer vtgiefed/ at eingenn skule þurfa ad vtuelia nockud gott verk og ad lifa vel/ suo sem fyrr er vm talad/ Helldur myklu framar fyrer þa skulld/ ad Syndernar skylldu verda þess fleire/ og saman hrꝏgast sem mest/ til þess ad þyngia Samuiskuna/ So ed þad forblindada Offstæke yrde ad þeckia sig sialft/ og fiña sialfs sijns eigenligañ veykleika og Vanmꝏtt til hins gooda/ Og at þui yrde suo þreyngt og naudgat til ad leita epter þui sem frekara er helldur eñ Løgmꝏled og eigenliger Kraptar/ einkū sẽ er/ epter Gudz Nꝏd su sem fyrerheiten er i Christo þm ed koma skyllde. Þuiad allt Løgmꝏl Gudz er gott og riett/ iafnuel þo ad þad skipade ad bera Myke eda taka vpp Grasstrꝏ/ Enn sa kann ecke ad vera fromur og godhiartadur/ huer ed slijkt suo agiætligt Løgmꝏl ecke helldur/ edur þad helldur naudugur. So megnar nu vor Nꝏttura eckert annad eñ ad hlyda naudug/ Þar fyrer hlytur hun af Gudz godu Løgmꝏle ad þeckia og vidurkienna Illsku sijna/ og ad lꝏta sig af Hiartans Anduarpan epterlāga og leita ad hialp Guddomligrar Nꝏdar i Christo.

Huar fyrer so marghattad Løgmal er giefed

Gudz Løgmal er riett og gott

Nꝏtturuñe er omøguligt ad hallda Gudz Løgmal

Þar fyrer/ þegar Christur nu kiemur/ þar linner Løgmꝏlenu/ sierdeilis þui Leuitiska Løgmale/ huert ed þar giører Synd sem annars eingen Synd er/ so sem vier ꝏdur søgdū. Þar

Þegar Christur kiemur þa

hafa

hafa z so þau x. Bodorden enda/ Eige so/ ad Meñ skule ei hallda þau z vppfylla þau/ hell liker Embætte Moses
dr hefr Moses Embætte i þm eirn enda/ so ad þ eykur ecke þadan i fra/ fyrer Bodorden/ magt
Syndarinar/ z Synden er þa ecke leingr Broddr Daudans. Þuiat Synden er fyrer Christum fyrergiefen/ og Madur er sættur vid Gud/ og Hiartat tekur til ad hafa æst a Løgmalenu/ so ad Moses Embætte kan ecke vpp þadan ad straffa Hiartad nie auñsta þad vm Synd
ena/ so sm ad hefde þ ecke Løgmaled hallded/ z ste þar fyrer Dauda verdugt/ So sm þ giørde fyrer Nadena/ og adr eñ Christus kom.

Þetta kienner S. Pall 2. Cor. 3. Þar hñ seiger/ ad Biartleikenn Asionuñar Mosi hafe enda/ fyrer søkum Biartleika Asionuñar Jesu Christi/ Þat er/ Embætted Mosis huert ed oss giører ad Synd og skøm/ mz biartleik vidurkienningar vorrar eigenligrar Illsku z hreckuisse/ þad giører oss ecke framar neina Kuøl/ og skielfer oss ecke leingur mz Daudans Grimd. Christi biartleike burtdryfur Moses biartleika
Þuiad vier høfum nu biartleikann i Asionuñe Christi/ Þad er/ Embætte Nadarinnar/ fyrer huert vier þeckium Christum/ med huers Riettlæte Lijfe og Styrk vier vppfyllum Løgmaaled og yferuinnum Daudan og Heluijte. So sein og eirnen þeir þrijr Postular a Fiallenu Thabor sau Mosen z Eliam/ eñ hræddust þa þo ecke/ vegna þess æstudliga biartleika i Andlitenu Christi/ Eñ Exod. 34. Cap. Þa Christur var ecke nalægur/ þar gætu Israels syner ecke lided biartleik Asionuñar Mosis/ þar fyrer hlaut hñ ad læta huldu fyrer hana.

Þuiad Løgmalsiñs Lærefueinar eru med þremur hættum/ Þeir fyrstu eru þeir sm at Løgmaled heyra enn fyrerlijta þat og forsmaa/ og lifa athugalauser og Ogudliga/ Til þessara kemur Løgmaaled ecke/ Og þesser merkiast fyrer þa dyrkunar Meñ Gullkalfsiñs i Eydemørkinne/ huerra vegna Moses braut Steintøflurnar i sundur/ og bar ecke Løgmaaled til þeirra. Þriggia handa Lærefueinar Løgmalsins I

Þeir eru adrer/ sm at bera sig ad at vppfylla Løgmaaled af eigenligum Krapte og mætte/ Þesser merkiast fyrer þa sem ecke gætu lited i Asionu Moses/ þa hñ kom aptur i añad siñ mz Tøflurnar. Til þessara kiemur ad vijsu Løgmaled/ eñ þeir fa þad ecke lidet/ Þar fyrer læta þeir huldu fyrer þad/ og lifa sm Hræsnarar/ epter ytre verkum Løgmalsiñs/ Huad allt saman at Løgmaled giører þo til Syndar og fordæmer þat/ þegar huldan verdur frateken/ Þui ad Løgmaled biuñsar þat/ at vor Mattur og Megn vort er einskis vert z eckert/ aan Nadarinnar Christi. II

Þeir þridiu eru þeir/ sem klærliga sia Mosen vnder Augun. Þad eru þeir sem vnder stada meining Løgmalsiñs/ huersu ad þat krefur omøguligra Hluta/ Hier hefur Synden siñ Krapt/ hier er Daudeñ megtugur/ hier er Goliatz Spiotskapt so stort sem Vefiar rifur/ z hñs Spiots falur vegur sex hundrut Ciclos/ suo ad aller Syner Israels flyia og hrædast hañ/ Ad frateknum einasta David/ Christo DROTTNI vorum/ hañ frelsar oss fra øllu þessu. III Goliathz Spiot
Þuiad nema so sie ad Christi biartleike lyse jafnframt biartleika Moses/ þa feinge eingenn lided þessa Løgmalsiñs birte nie skielfing Syndarinnar og Daudans. Þesser falla aller fra verkunum/ og þeirra metnadar offtæke/ og læra ecke añad af Løgmaalenu eñ ad þeckia og vidurkieña sijna Synd/ og Anduarpa og læta sig langa epter Christo/ Huad hid sama at er eigenligt Embætte Mosis/ og Løgmalsins Art z Edle. Moses Embætte warer allt til Cristum

So hefur og Moses sialfur auñsad/ ad sitt Embætte og sijn Kienning skyllde vara allt til Christum/ z hafa þa eirn enda/ þar hñ seiger Deut. 18. **Eirn Spamann mun DROTTEN þinn Gud vppuekia þier/ vt af Brædrum þijnum/ suo sem mig/ honum skallt þu hlyda** etc. Þetta er þad allra agiætasta Ord/ og sañliga Mergur og Kiarne vr øllu Bokum Moses/ huern ed Postularner mijkels virt hafa/ og hafa þ frambored so sm añan øflugan Vitnisburd/ til styrkingar Euangelio/ og at aftaka Løgmaaled þar mz/ Og aller Spameñerner hafa miøg mykla Speke af þssare Grein teked. Þuiad mz þui/ ad hñ fyrerheiter hier ødrum Spamañe/ huerium þeir skulu hlyda/ þa epter fylger þad oefad/ ad hñ hlytur añan Lærdom ad kieña eñ sem Moses hefur kient/ fyrer huerium Moses hlytur ad vijkia/ og hm gefa siñ Rett/ so ad hiñ añar Spamadr skule heyrast. Nu kañ sa Spamadur ecke ad kieña Løgmaled/ Þuiat þad hefur Moses algiørliga giørt/ so þar er einge þørf a þui/ vegna Løgmalsins neiñ añan Spamañ vpp ad vekia/ Þar fyrer talar þesse Grein vissuliga vm Nadariñar Lærdom z vm Christum.

Þar fyrer kallar S. Pall Moses Løgmal Gamla Testamtu/ so giørde og Christus/ þa ed hñ jnsette þ nyia Testamtum. Og er fyrer þa grein eitt Testamentum/ at Gud fyrerhiet þar jñe ad giefa sijnu Folke Israel Landed Canaan/ ef ad þr hiellde hñs Testamtum/ og hñ Løgmaled er þad gamla Testamented

gaf

*Gamla Testamentid hlytur ad taka*

gaf þeim þad Land/ og þta Testamtum styrktest z stadfestest med Blode Sauda z Nafra. Eñ af þui ad slijkt Testamtum var ecke komet vnder Nad Gudz/ helldur vnder verkū Mañaña/ þa hlaut þ at fyrnast z enda at taka/ og þ fyrerheitna Land vard at missast aptur/ Þuiad Løgmaled kañ ecke fyrer Verken vpp ad fyllast. Þar fyrer lá magt a/ ad þar kiæme eitt

*Nyia Testamentid varer eilijflega*

añad Testamtum/ huert ed ecke yrde gamallt/ og ecke være komed vnder vorū Verkum/ helldr vnder Gudz Orde/ vppa þad ad þad mætte vara eilijfliga/ Þar fyrer er þ stadfest fyrer Dauda z Blod eirnrar eilijfrar Personu/ z eitt eilijft Land fyrerheited og giefed. Þetta læt eg talad vera vm Bækur og Embætte Moses.

*Huad i hia Spamønnunum og i ødrum Bokum hins gamla Testamentis i stuttu male kient verdur*

Huad eru nu þa hinar adrᵘ Bækur Spamañaña z Frasagnañaᐩ Andsuar/ Eckert añad eñ þad Moses sialfur er/ Þuiad aller hafa þeir og framfylgia sama Embætte z Moses/ stāda i mote Falsprophetū/ so þr leide ecke Folked til Verkaña/ helldr læte þ blijfa vid Mosis rietta Embætte z Vidurkeñingu Løgmalsins. Og þui fylgia þeir fast fram / at þeir fyrer riettañ skilning z vnderstødu Løgmalsins fae Mønum hallded i Vidurkeñingu þeirra eigen ligs veykleika/ og reka þa til Christū/ so s̄ z eirnen Moses giører. Þar fyrer vtskyra þr eñ framar allt þ s̄ Moses hefr kent vt af Christo/ z framsetia huorutueggia Dæme/ bæde þra s̄ Mosen hafa retteliga/ z hiña s̄ hñ hafa ecke retteliga/ z huorutuegiu þra Laun z Refsingar. So ad Spameñerner eru ecke añad eñ Þienarar z Vitnismeñ Mosis z hñs Embættis/ suo ad þr fae leidt alla Meñ til Christum fyrer Løgmæled.

*Allegoriae Andligar vtþydingar*

*Moses Vppsprettu Bruñur allrar Speke*

J sijdasta mæta/ þa ætta eg ad auijsa nockut vm þær Allegorias/ þad er/ Andligar Vtþydingar/ þær ed framsettar eru fyrer þad Leuitiska Løgmæl z Keñemañskap Mosis/ Eñ þ vill vera oflangt Mæl/ þ allt saman ad skrifa/ þ vill og hafa tijma/ z verdur betur mz lifande Raust vtskyrt. Þuiad sañliga er Moses eirn Vppsprettu bruñur allrar Speke z skilnings af huerium vpp er sprotted allt þ s̄ Spameñerner hafa vitad z kent/ Þar ad auk þa er þad Nyia Testamtid þadan vppruñed z i þm sama Vppsprettu Bruñe grunduallad/ so s̄ vier nu heyrt høfū. Eñ so at eg eina litla z stutta Auijsan giefe þeim sem Gæfu og skilning hafa þar til/ ad hyra þar betur og frekar epter/ þa vil eg nu ad sinne suo mijked seigia.

*Christur er sa sannarlige og yppaste Kieñemadur*

Ef þu villt vel og Ohræddur fara mz þær Allegorias/ z vtleggia þta/ Þa tak Christum þier fyrer hendr/ þuiad hñ er sa Madureñ/ hūtium þta allt samā z ølldunges tilheyrer. Þar fyrer læt þañ ædsta Keñemañ Aaron onguañ añañ merkia vtan alleinasta Christū/ suo sem Þistilleñ til Ebreos giører/ hū ed naliga eiñsamall fullnæger allar Allegorias z Figurur Mosis vt ad þyda. So er og þ vissuliga vijst/ ad Christus sialfur hñ er Fornen/ hñ er Alltaret/ hū ed sig sialfañ mz sijnu Blode fornfærde/ So s̄ sa same Þistell vmtalar. So s̄ at nu þesse ædstur Leuitiske Keñemadur fyrer slijkar Fornfæringar burt tok z forlijkte þær Giørdarsyn der/ s̄ af siñe Nætturu til voru ecke Synder/ So hefur vor ædste Kieñemadur Christur fyrer sialfs sijns Offur z Fornfæring sijns Blodz þa sañarligu Synd/ huer ed af Nætturu er ein

*Syner Hæsta Kieñemansins Vtþyding Slatrunarstarþ sins og Fornþæringa i gamla Testamentinu*

hrædelig Synd/ hana hefr hñ burt teked/ Og er eitt siñe jñ vm Fortialldet/ i þ Sancta Sanctorum/ jñ fyrᵉ Gud geingen/ at fridþægia z forlijka oss. Mz þessū hætte skalltu allt þ s̄ skrifad er vm þañ hæsta Kieñemañ/ vtleggia z þyda vppa Christi Personu/ og vppa onguañ añañ. Eñ Syner þss hæsta Kieñemañs/ þeir ed vmgeinguſt mz þær dagligu fornfæringar/ þa skalltu læta merkia oss Kristna/ vier sem ad sitium fyrer vorum Fødur Christo i Himnenū/ enn buum hier a Jørdu med Lijkamanum/ og erum ecke enn þangad komner til hñs/ vtan med Trunne Andliga. Þeirra Embætte/ ad slætra og offra/ þat merker eckert ann ad eñ at predika Euangelium/ Fyrer hūt ad sa gamle Madureñ deydest/ z fornfærest Gude/ og verdur fyrer Kiærleiksiñs Elld/ i Heiløgum Anda/ steiktur z vppbrendur/ til eins sætleiks Jlms fyrer Gude/ þ er/ Euāgeliū verkar eina goda hreina ohrædda samuisku fyre Gude. Til þessarar vtleggingar meinar S. Pall. Rom. 12. þar ed hñ kienner oss at fornfæra Lijkame vora Gude/ til eins lifanda Heilags z þægeligs offurs/ Huad hid sama vier giørum (suo sem sagt er) med jafnadarsamre Jdkan Euangelij bæde med Predikan og suo eirnen med Trunne. Þesse stutt tiluijsan z Auiising ma nu ad siñe nægiast/ huernen epter Christo og Euangelio leita skal i þui hinu Gamla Testamtenu

# Bækur hins Gamla
## Testamentesins. xxiiij.

| | | |
|---|---|---|
| i | Fyrsta Moses Bok. | Genesis. |
| ij | Aunnur Moses Bok. | Exodus. |
| iij | Þridia Moses Bok. | Leuiticus. |
| iiij | Fiorda Moses Bok. | Numeri. |
| v | Fimta Moses Bok. | Deuterono: |
| vj | Josua. | |
| vij | Domara Boken. | Judicum. |
| viij | Ruth. | |
| ix | Samuel. | Regum j. ij. |
| x | Kongabækurnar. | Regum. iij. iiij |
| xj | Kronickubækurnar. | Paraltpo: j. ij. |
| xij | Bok Esdre. | |
| xiij | Bok Nehemie. | |
| xiiij | Esther. | |
| xv | Job. | |
| xvj | Psaltaren. | |
| xvij | Salomons Ordzkuider. | Prouerbia. |
| xviij | Salomons Predikan. | Ecclesiastes. |
| xix | Salomons Lofkuæde. | Canticũ Cãti: |
| xx | Esaias. | |
| xxj | Jeremias. | |
| xxij | Ezechiel. | |
| xxiij | Daniel. | |
| xxiiij | Þeir xij smærre Spamenn. | |

Nøfn þra xij. smærre Spamaña

j Hoseas.
ij Joel.
iij Amos.
iiij Abdias.
v Jonas.
vj Micheas.
vij Nahum.
viij Habacuk.
ix Zophonias.
x Haggeus.
xj Sacharias.
xij Malachias.

Apocrypha.

Þessar Bækur eru ecki i þre Ebresku Bibliuñe

Judith.
Boken Spekiñar.
Tobias.
Jesus Syrach.
Baruch.
Maccabeorum.
Partur af Esther og Daniel.

# I.

A 

Upphafe skapade Gud Himen Joh. 1
og Jørd. Og Jørden var eyde og tom/og Coloss. 1
Myrkur var yfer Underdiupinu/ Og Gudz Sa fyrste
Ande færdist yfer Vøtnen. Og Gud sagde/ Dagur
Verde Lios/Og þar vard Lios. Og Gud sa Lios
ad Liosit var gott/ Þa skilde Gud Liosit fra
Myrkrunū/ꝛ kallade Liosid/ Dag/eñ Myr
krid/ Nott/Þa vard af Kuellde ꝛ Morne sa
fyrste Dagur.

Og Gud sagde/Þar verde ein Festing a II
mille Vatnaña/s̄ j suñdr skal skilia Vøtnen Dagr
huor fra ødrum. Þa giørde Gud eina Fest-
ing/og skilde Vøtnen sm̄ voru vnder Festin- Festingen
guñe/fra þeim Vøtnum sm̄ voru yfer Fest-
inguñe. Og þad skiede so. Og Gud kalla- Himeneñ
de Festingena Himen/ Þa vard vt af Kue-
llde og Morne sa añar Dagr.

Og Gud sagde/Samansafnist Vøtnen vnder Himnenū j eirn stad/ so ad siast meigi þurt III
B Land. Og þad skiedi so. Og Gud kallade Þurrlendit Jørd/ꝛ samansafnan Vatnaña kall- Dagur
ade hn̄ Sio. Og Gud sa ad þat var gott.

Og Gud sagde/Læte Jørden af sier vppvaxa græn Grøs ꝛ Jurter/hafande Sæde i sier/ Jørden
ꝛ auaxtasøm Trie/so ad huert bere Auøxt epter siñe tegund/ꝛ hafe sitt eigit Sæde j sier sial- Sioriñ
fu a Jørduñe. Og þad skiede so. Og Jørden framleidde af sier græn Grøs og Jurter/haf- Grøs
ande Sæde huert epter siñe Tegund/ꝛ auaxtarsøm Trie/hafande sin eiginsæde m̄z sialfum Jurter
sier/huert eitt epter siñe tegund. Og Gud sa ad þ var gott. Þa vard vt af Kuellde ꝛ Morne Trie
sa þridie Dagur.

Og Gud sagde/Verde Lios a Festingu Himinsins/so þau skilie Dagen fra Nottuñe/ og IIII
gefe Teikn a Tijma/Daga ꝛ Aar/ꝛ lyse a Festingarhimne so þau vpplyse Jørdina. Og þ Dagr
skiede so. Og Gud giørde tuø stor Lios/Þad stærra Liosit ad stiorna Deigenum/ꝛ þad miña
Liosit ad stiorna Nottiñe/þar ad auk Stiørnur. Og Gud sette þær a Festingar himinen/suo a (Tijma)
ad þær skyllde skijna a Jørdina/ꝛ stiorna Deigenum ꝛ Nottinne/ ꝛ ad sundurgreina Lio sid ꝛ Vor
Myrkred. Og Gud sa ad þad var gott. Og þar vard af Kuellde og Morne sa fiorde Sumar
Dagur. Haust
Vetur

C Og Gud sagde/Vøtnen framleide af sier hræranlig ꝛ lifande Kuikinde/ ꝛ Fugla s̄ fliu- V
ga sku a Jørduñe vnder Himinsins festingu. Og Gud skapade stora Hualfiska/ꝛ allzhatt- Dagr
ud hræranlig ꝛ lifande Kuikinde/sm̄ Vøtnen gæfu af sier/sierhuort epter siñe tegund/ꝛ alls Fiskar
kyns fiadrada Fugla/sierhuøria epter siñe tegund. Og Gud sa ad þad var gott. Og Gud Fuglar
blezade þa ꝛ sagde/Aukist ꝛ margfalldist/og vppfyllit Vøtnen Siafarins / Og Fuglarner
margfalldist a Jørduñe. Þa vard af Kuellde og Morne sa fimte Dagr.

Og Gud sagde/Jørden framleide lifande Kuikinde / sierhuert epter siñe tegund / Fienad/ VI
Skridkuikinde og skogdyr Jardar/huert epter siñe tegūd. Og þ skiede so. Og Gud skapade Dagr
skogdyr Jardariñar hūt epter siñe tegūd/ꝛ so Fenadiñ epter siñe tegūd/ꝛ allskyns Skridkuik- Kuikfienadur
inde Jardar/epter siñe tegund. Og Gud sa ad þ var gott. Villudyr

Og Gud sagde/Vier vilium giøra Mañen/epter Mynd og Lijking vorre/huer ed drottna Skridkuik-
skal yfer Fiskum Siafarins/og yfer Fuglum Loptsins/og yfer Fenadenum/ꝛ yfer allre Jør- inde
duñe/og yfer øllum Skridkuikindum sm̄ hrærast a Jørdunne.

D Og Gud skapade Mañiñ epter siñe Mynd/ept' Gudz Mynd skapade hn̄ hn̄/Og hn̄ ska-
pade þau Karlmañ og Kuiñu. Og Gud blezade þau/ ꝛ sagde til þeirra/Aukist þid ꝛ marg- Manneskian
falldist/ꝛ vppfylled Jørdena/ ꝛ giøred hana ydr vndergefna/ꝛ Drottnid yfer Fiskum Sia-
farins/og yfer Fuglum Loptsins/og yfer øllum Dyrū sem hræraст a Jørduñe.

Og Gud sagde/Siaed/ Allshattadar Jurter s̄ giefa Sæde af sier a allre Jørdunne/og

allra handa auaxtarsøm Trie sem giefa Sæde af sier/ gief eg ydur til fædslu/ ⁊ øllum Dyrū
Jardarinnar/ og øllum Fuglum Loptsins/ og øllum Skridkuikindum sem lifa a Jørdu/ ad
Fædsla mañ-añā og Dyrañā þau ete allskyns grænar Jurter. Og þad skiede so. Og Gud sa alla hlute þa sm̄ hañ hafde
giørt/ Og sia/ þeir voru harla goder. Og þar vard af Kuellde og Morne sa siette Dagur.

## II.



† øll þra Pryde Annen algiørdist nu Himen ⁊ Jørd/ og allur þra † Her. Og so fullkom- A
nade Gud a þeim siøunda Deige sijn Verk/ sm̄ hn̄ giørde. Og hūīldist þañ
siøunda Dag/ af øllu sinu Verke sm̄ hn̄ giørt hafde. Og hn̄ blezade þann
Gud helgar Þuottdagiñ siøunda Dag/ og Helgade hn̄/ af þui ad hn̄ hūīldist a þeim sama Deige af
øllum sinum Verkum/ sem Gud skapade ⁊ giørde.
Ebre. 4 Þañen vard nu Himinen og Jørden/ þa þau voru skøpud/ A þeim Tij-
Exo. 20 ma/ þa Gud DROTTJN giørde Jordena ⁊ Himinen/ og allra handa Trie a Mørkiñe
sem ecke voru ądur fyrre a Jørduñe/ Og allra handa Jurter a Akrenū sm̄ ecki vxu ądꝛ fyr-
re. Þuiad DROTTEN Gud hafde þa eñ ecke lætid rigna a Jørdena/ og þar var eingen
Madur sem Jørdena Ꝼrgade mꝫ sinu Erfide. Eñ þar gieck vpp ein Þoka af Jørdunne/ og
vøkuade alla Jørdena.
Adam Og Gud DROTTJN giørde Mañiñ af Jardar leire/ og blies einum lifande Anda j B
1 Cor. 15. hn̄s Asionu/ Og so vard Maduriñ ein lifande Sæl.
Og Gud DROTTJN plantade eirn Alldingard j Eden/ a mote Austre/ ⁊ sette mañen
Paradis þangad/ huern hn̄ hafde skapad. Og Gud DROTTJN liet vppvaxa af Jørduñe allra
handa Trie/ sem føgur voru ad sia/ ⁊ lystelig at eta/ og Lijfsins Trie j midium Alldingarden-
um/ ⁊ þ Skilningstrie gods ⁊ jlls.
Og þar rañ ein mykel Vppspretta vt af Eden til ad vøkua Alldingarden/ ⁊ su Vppspre-
tta skiptist þadan j fiøgur stor Vatzføll. Þad fyrsta heiter Pison/ þad fellur vm allt Landid
Pison Heuila/ og þar finst Gull/ og Gullit þess Landz er forkostuligt/ og þar finst Bedellium og
Gimsteirnen Onyx. Þad annad Vatsfallid heiter Gihon/ þad fellꝛ vm allt Blaland. Hid C
Gihon þridia Vatsfallid heiter Hidekel/ þad fellur fram hia Assyria. Þad fiorda Vatsfallid er
Hidekel Euphrates.
Euphrates Og DROTTJN Gud tok Mañen/ og sette hn̄ j þann Alldingard Eden/ ad hn̄ skyllde
yrkia hn̄ og vardueita. Og Gud DROTTJN baud Mañenum ⁊ sagde/ Þu skallt eta af
Gudz Bod allra handa Triam j Alldingardinum/ eñ af þui Skilnings trie godz og jlls skalltu ecke eta/
Adam giefid Þuiad a huerium Deigi s̄ þu etur af þui/ þa skalltu Dauda deyia.
Og DROTTJN Gud sagde/ Þad er ei gott ad Maduriñ sie eirnsaman/ Eg vil giøra
honum eina Medhialp/ þa sm̄ vera ma hia honum. Þuiad þa Gud DROTTJN hafde
skapad af Jørduñe allra handa Dyr a Mørkinne/ og allskyns Fugla vnder Himnenum/ þa
leidde hn̄ þau til Adams/ so ad hn̄ sæe huad hn̄ villde nefna þau/ Þuiad huad hellst nafn sem
Maduriñ giæfe øllū lifande Kuikindum/ þa skylldu þau so heita/ So gaf Adam allra han- D
da Fienade/ ⁊ Fuglum Loptsins/ og suo allra handa Dyrum a Jørduñe/ sierhueriu sitt nafn.
Eñ þar fanst eingen Medhialp fyrer mañen/ sem vera mætte hia honū.
Þa liet Gud DROTTJN fastañ Suefn falla yfer mañen/ og þa hn̄ suaf/ tok hn̄ eitt
Eua af hn̄s Rifium/ ⁊ byrgde aptꝛ mꝫ Hollde. Og Gud DROTTinn vppbygde eina Kuiñu af
Rifbeine þui sem hn̄ tok af Mañenum/ ⁊ leidde hana til hn̄s. Þa sagde Madurinn/ Þetta
Hiuskapar er Bein af minum Beinum/ ⁊ Holld af minu Hollde/ þar fyrer skal hun Karliña kallast/ af
bandz stietten þui hun er af Karlmañe tekin. Og þess vegna skal Maduriñ yfergiefa Fødur siñ og Modꝛ
Math. 19 sina/ og hallda sier vid sijna Eiginkonu/ og þau tuø skulu vera eitt Holld. Og þau voru bæ-
Ephe. 5. de naken Adam ⁊ hn̄s Kuiña/ ⁊ skømmudust sijn ecke.
1 Cor. 6.

## III.



Høggormur-inn suijkur Euam G Høggormurinn var slægare helldur eñ øll ønnur Kuikinde a Jørduñe/ sem
Gud DROTTJN hafde skapad/ Og hn̄ sagde til Kuiñunnar/ Ja/ Skyll- A
de Gud hafa sagt/ Þid skulut ecki eta af allskyns Triam j Alldingardinum?
Þa sagde Konan til Høggormsins/ Vid etū af Auexte Triaña j Alldingar-
denum/ Eñ vm Auoxt þess Tries sm̄ stendur j midium Alldingardinum þa

sagde Gud/Etid ecke þar af/og komid ecke vid þad/so ad þid deyid ecke. Þa sagde Nøggorm-
urinn til Kuinnuñar/J ønguan mata munu þid Dauda deyia/helldur veit Gud þad/ad a hü-
ium deige sem þid etid þar af/þa munu yckar Augu opnast/ꝛ þid munud vera lijka sē Gud/
og vita skyn godz og jllz.

Og Kuiñan sa ad Tried var gott ad eta af/ꝛ fagurt ad sia/ꝛ eitt girneligt Trie til Frod-
leiks. Og hun tok af Auextinum og aat/ og gaf sinū mañe þar af/ Og hñ aat. Þa vppluk-
ust beggia þra Augu/ og formerktu þau ad þau voru naken/ Og þau festu saman Fijkiu
vidar blød/og giørdu sier af Laufkyrtla.

Fall Euu og Adams
1 Tim. 2

B Og þa er þau heyrdu Gudz DROTTINS Rødd ō gieck vm kring j Alldingardinū/
þa Dagurinñ var ordinn kalldur/þa falde Adam sig og hñs Kuiña fyrer auglite Gudz DR-
OTTINS/a mille Triaña j Alldingardinum. Og Gud DROTTIN kallade a A-
dam og sagde til hñs/Nuar ertu? Hñ suarade/Eg heyrde þina Rødd j Alldingardinum/ꝛ eg
hræddunst/ þui eg var nakiñ/Og af þui falda eg mig. Og hñ sagde/Nuer sagde þier ad þu
værer nakiñ? Nema hafer þu etid af þui Trie/sem eg bannade þier ad eta af. Þa suarade
Adam/Kuinnan su sē þu gafst mier til samlags/ hun gaf mier af Trenu /og eg aat. Þa
sagde Gud DROTTIN til Kuiñuñar/Þui giørder þu þad? Kuiñan suarade/ Nøggor-
mureñ sueik mig/ so ad eg aat.

Adam ꝛ Eua fordast Gud
Gene. 2.

Þa sagde Gud DROTTIN til Nøggormsins/Af þui ad þu giørder þta/ þa vert þu
C bøluadur a medal allra Kuikinda/og a medal allra Dyra a Jørdu/þu skallt ganga a þinum
Kuide/ꝛ eta Molld Jardar alla þina Lijfdaga. Og eg vil setia ouinskap a mille þin ꝛ Kuiñ-
uñar/ꝛ a mille þins Sædis og heñar Sædis/Þad sama sk j sūdur meria þitt Høfud/Og þu
skallt bijta hñ j hælen.

Gud bøluar Hoggormenum
Christus er fyrerheitiñ

Og hñ sagde til Kuiñunnar/Eg vil fiølga Eymder þinar / þegar þu verdur Olieett / þa
skalltu fæda þin Børn mz Sott/og þinn vilie skal vera þinum mañe vndergiefiñ/ ꝛ hañ skal
vera þinn Herra.

Hirtingar Kross yfer Adam og Euu

Og til Adams sagde hñ/Søkum þess þu hlydder Røddu Konu þiñar/ꝛ aatst af þui Tre
af hueriu eg baud þier/ad þu skyllder ecke eta af/þa sk Jorden va Bøluud fyrer þina skulld/
D mz erfuide skalltu þig af heñe næra alla þina lijfdaga/Þyrna ꝛ Klungur skal hun bera þier/
og þu skallt eta grøs Jardariñar. J þins Andlits sueita skalltu neyta þins Braudz/ þan-
gad til þu verdur ad Jordu aptur/af huerre þu ert tekiñ /Þuiad þu ert Jord / ꝛ þu skallt ad
Jørdu aptur verda.

Og Adam nefnde sina Kuiñu Heua/þuiad hñ er allra lifendra Moder. Og Gud DRO
TTIN giørde Adam ꝛ hñs Kuiñu Skiñkyrtla/ ꝛ j klædde þau þeim.

Og Gud DROTTIN sagde/Siaed/Adam er ordin so ō eirn af oss/ꝛ veit bæde gott og
jllt. Eñ vppa þad hñ ecke skal vtrietta sina hønd/ og taka af þui Lijfsins Trie/ ꝛ eta/ꝛ lifa
eilijfliga.

Þa liet Gud DROTTIN hñ burt vr þeim Alldingarde Eden/suo ad hañ skyllde eria
Jørdena/af huerre hñ var tekinn. Hñ rak Adam burt/og sette Cherubin fyrer Alldingardiñ
Eden/med eitt nakid sueipanda Suerd/til ad geyma veigen(sē liggꝛ)til Lijfsins tries.

Adam ꝛ Eua rekast burt vr Paradys

## IIII.

A OG Adam kiende siñar Kuiñu Euu/Og hñ vard olieett/og fædde Kain/ ꝛ sag
de/ Eg hefe ødlast þañ mañ DROTTENN. Og hun vard olieett j añ-
ad siñ/ ꝛ fædde hñs Brodur Abel. Og Abel vard Saudahirder/ Enn Kain
vard eirn Akurmadꝛ.

Kain
Abel

Og þad skiede so epter stunder lidnar / ad Kain færde DROTTNE
Forner af Auøxtum Jardar/Abel bar ꝛ fram af Frumburde siñar Hiardar
og af þeirra Feite. Og DROTTIN leit nadarsamliga til Abels og til hñs Fornar/Eñ
til Kains og hñs Fornar leit hñ ecki Nadarsamliga. Þa vard Kain afar Reidur/so ad hñs
yferbragd afmyndadist. Og DROTtiñ sagde til Kains/Þui ertu so reidur? Og huar fy-
rer afmyndast so þitt yferbragd? Er ecke so? Ef þu ert fromꝛ þa ertu þacknæmur/eñ siert þu
ecke Fromur/þa huijlist Synden fyrer dyrū/eñ laat þu hana ecke hafa siñ vilia/helldꝛ Drott-
na yfer heñe. Þa talade Kain vid Brodꝛ siñ Abel.

Kain slo Abel
Hel

B Og þad skiede so/þa þeir voru til samans a Akrenum / ad Kain reis vpp i mote sinum

Math. 23. Broder Abel/⁊ slo hñ j hel. Pa mællte DROTTIN til Kain/Huar er þiñ Broder Abel?
1 Ioh. 1. Hñ suarade/Eg veit ecke/Eda a eg ad vakta miñ Brodur? Og hañ sagde/Huad hefur þu
Sap. 10. giört? Rødden þins Brodurs blodz hrop til mijn af Iørduñe/Og bøluadr siertu nu a Iør-
Bøluan yfer duñe/sm̄ vpplauk siñu muñe/ ⁊ tok þins Brodurs Blod af þiñe hende. Nær þu eriar Ior-
Kain dena/þa skal hun ecke hier epter giefa þier af † sinum Groda/rafande og Landflotta skallt
† siñe For- þu vera a Iørduñe.
megan Þa sagde Kain til DROTTINS/Mijn Synd er stærre eñ þad hun meigi mier fyrer
giefast/ Sia: Þu vtskufar mier j Dag af Landinu/og eg hlyt ad fela mig fyrer þinu Aug
lite/og vera so rafande Landflotta madr a Iørdu/þa vill þad mijn verda/ ad huer mig fiñur C
hñ mun sla mig j Hel. Eñ DROTTIN sagde til hñs/Þad skal ecke skie/ helldur huer sm̄
Kain j Hel slær/þ skal hefnt vóda siøfalldliga. Og DROTTIN sette eitt einkienningar
mark a Kain/ad enginn skyllde sla hñ j Hel/huer sm̄ hñ fynde. So gieck Kain vt fra Augli-
te DROTTINS/og bio j Landenu Nod/fyrer austan Eden.
Kains Kyn- Og Kain kiende sinnar Kuiñu/og hun vard oliett/⁊ fædde Henoch. Og hñ vppbygde eina
kuysl Borg/og kallade hana epter sins Sonar nafne Henoch. Og Henoch gat Irad/ Irad gat
Mahuiael/Mahuiael gat Matusael/Matusael gat Lamech.
Lamech Enn Lamech tok sier tuær Eigenkonur/ein þeirra hiet Ada/eñ øñur Zilla. Og Ada fæd-
Ada de Iabal/Af honū eru þr kōmner sem buggu j Landtiølldum ⁊ voru Fiarhirdarar/ Og hñs D
Zilla Broder hiet Iubal/Nu̅ hof fyrstur maña Nørpuslætt og Organs leik. Og Zilla vard oliett
og fædde Tubalkain/hñ var hagleiksmadur j allra handa Koparsmijde ⁊ Iarnsmijde/ Tu-
balkains Syster hiet Naema.
Og Lamech sagde til siña Kuenna Ada ⁊ Zilla/Þid Lamechs Kuiñur heyrid mijn ord/og
giefit gaum ad þui eg seige/Eg hefi j Hel sleigit eirn mañ mier til Auerka/ ⁊ eitt Vngmeñe
mier til Særsauka/ Kains skal siø sinnum hefnt verda/eñ Lamechs siøtijgesiñum siø siñum.
Og Adam kiende siñar kuiñu ad nyiu/og hun fædde eirn son/þañ kallade hun Seth/Þui
Seth Gud hefur(sagde hun)sied mig/og giefit mier nu añad Sæde j staden Abels sem Kain slo j
Hel. Og Set atte eirn Son/þañ kallade hñ Enos. Og a þeim tijma hofu meñ ad predi-
ka vt af nafne DROTTINS.

## V.

A



Esse er Kynkuijslabokin Mañsins. Þa Gud skapade Mañiñ/þa giørde hñ
Gen. 1. 9 hñ epter Gudz Mynd. Og hñ ~~kallade~~ þau Karlmañ ⁊ Kueñmann/⁊ blez skapade
Supra 2. ade þau/ ⁊ kallade þau Mañeskiur/a þeim tijma þa þau voru skøpud.
Syra. 17. Og Adam var Hundrad og þriatijge ára gamall/ og hañ gat eirn Son
Linea Christi epter Mynd og Lijking siñe/og kallade hñ Seth. Og hñ lifde vpp fra þui
ætta hundrud Aara/og atte Sonu ⁊ Dætur. So ad allur hñs Alldur vard
Adam lifde Niu hūdrud ⁊ þriatijger ára/Og hñ andadist.
930 ár Seth var Hūdrad ⁊ fim̄ ára gamall þa hñ gat Enos. Og hñ lifde vpp fra þui ætta hū-
Seth drud og sio Aar/⁊ atte Sonu ⁊ Dætur/So ad hñs allur alldur vard Niu hundrud ⁊ tolf ár
912 ár Og hñ andadist. B
Enos var niutijger ára gamall/⁊ gat Kenan/ Og hñ lifde vpp fra þui ætta Hundrud ⁊
Enos 905. fimtan ár/⁊ atte Sonu ⁊ Dætur/So ad hñs allur alldur vard Niu hundrud ⁊ fim̄ ár/Og
hñ andadist.
Kenan var siøtijg ára/⁊ gat Mahalaleel. Og hñ lifde vpp fra þui ættahūdrud ⁊ fioru-
tijger ára/⁊ atte Sonu ⁊ Dætur/ So ad hñs Allur alldur vard Niuhundrud ⁊ tiu ár/Og
Kenan 910 hñ andadist
Mahalaleel Mahalaleel var fim̄ og Sextijger ára/og gat Iared. Og hñ lifde vpp fra þui ættahū-
895 drud og þriatijger ára/og atte Sonu og Dætur/ So ad hñs allur Alldur vard ættahundrut
fim̄ og niutiu ár/ Og hñ andadist C
Iared 962 Iared var Hundrad Sextijger og tueggia ára gamall/og gat Enoch. Og hañ lifde vpp
fra þui ætta hundrud ár/⁊ atte Sonu ⁊ Dætur/ So ad hñs allr Alldr vard Niuhūdrud sex-
tijger og tuo Aar/Og hñ andadist.
Enoch tok Enoch hafde fim̄ vm Sextugt/og gat Matusala. Og ē hñ hafde gietid Matusala/lifdi
Gud i burt/ þa hñ Gudligu Lijferne þriu hundrud ár/og atte Sonu og Dætur/ Og hñs allur Alldur vard
þriu

þriuhundrud fim̄ og sextÿger ár. Og fyrer søkum þess ad hn̄ lifde so Gudligann Lifnad/ þa nam Gud hn̄ j burt/og hn̄ vard ecke meir siedur. war ccclxv ára gamall

D Matusala var hundrad siø ⁊ attatÿger ára gamall þa hn̄ gat Lamech. Og hn̄ lifde þa- dan j fra siø Hundrud attatÿger og tuø ár/og átte Sonu ⁊ Dætur/ So ad hn̄s allur alldur vard Niu hundrud niu og sextÿger ár/⁊ hn̄ andadist Matusala 969 andadist a þui Aare þa Flodid kom

Lamech hafde Hundrad tuø ⁊ Attatÿger ára/og gat eirn Son/og nefnde hn̄ Noa/⁊ sag de/Þesse skal hugga oss j vorre Armædu og erfide a Jørduñe huerre DROTTIN Bølua- de. Sÿdan þar epter lifde hn̄ Fim̄hundrud niutÿger ⁊ fim̄ ár/⁊ átte Sonu og Dætur/ So ad hn̄s allur Alldur vard Siø hundrud siøtiu og siø Aar/og hn̄ andadist. Lamech 777.

Noe var fim̄ hundrud ára gamall/og gat Sem/ Cham/ ⁊ Japhet. Noa

# VI.

A OG þa ed Meñena tok ad fiølga a Jørdu/ og þr gátu Dætur/Þa sau Gudz Børn mañaña Dætur/ad þær voru frÿdar/og þeir geingu ad eiga hueriar sem þeir villdu. Þa sagde DROTTIN/ Manneskian vill ecke láta sig straffa framar meir af minum Anda/þuiad hun er holld. Eg vil eñ nu giefa þm frest vm̄ hundrad ár ⁊ tuttugu. 120 ára frest giefiñ til Jdranar

A þeim tima voru Risar a Jørdu. Þuiad þa Gudz Børn løgdust med Dætrum mañanna/ og gátu Børn mz þeim/ þa jukust þar af Vollduger og nafnkuñug- er meñ a Jørdunne. Gen. 5

Enn þa ed DROTTIN sa þad/ ad mañaña Illska var mÿkel a Jørduñe/og ad øll þeirra hiartans hugsan og asetningur var ætÿd til Ills hneigdur. Þa jdradist Gud þad hn̄

B hafde mañen skapad a Jørdu/og þad angrade hn̄ j sinu hiarta/⁊ hn̄ sagde/Eg vil afma af Jørdu þa Mañeskiu sem eg hefe skapad/bæde meñ ⁊ Fienad/Skridkuikindi ⁊ Fugla Lopt sins/þuiad eg jdrast ad eg skapade þ. Eñ Noe fañ Nád hia DROTTNE.

Þesse er ættkuÿsl Noa. Noe var eirn riettlatur ⁊ ostraffanligur madr/⁊ lifde Gudræke- liga j siñe tÿd. Hann gat þria sonu/ Sem/Cham/Japheth. Eñ Jørden var fordiørfud fyrer Gudz Auglite/og full Ranglætis. Þa leit Gud a Jørdena/og sia þu: Hun var fordiør fud/Þuiad allt Holld hafde fordiarfad sina vegu a Jørduñe. Þa mællte Gud vid Noa/En- Syner Noa

C ding allz holldz er komin fyrer mier/þuiad Jørden er full Ranglætis af þeim/ Sia þu. Eg vil fordiarfa þa asamt mz Jørduñe.

Giør þier eina Ørk af Greneuidar triam/⁊ giør sma hws j heñe/og bræd hana mz Bik vtan og jñan. Og giør hana so: Hun skal vera Þriuhundrud álna a leingd/Fimtÿger Al- na a breidd/og Þriatÿger Alna a hæd. Þu skallt ⁊ giøra eirn glugg ofan a Ørkiñe/eirnrar Alnar hæfan. Dyrnar skalltu setia vtan a hennar Sÿdu. Og hun sk hafa þriu Lopt/eitt nedst/añad j midiu/og þredia efst. Þuiad sia þu: Eg vil láta koma eitt Flood Vatna yfer Jørdena/til ad deyda allt Holld þad sem lÿfs Anda hefur medur sier vnder Himnenum / allt þ sem a Jørduñe er skal fyrerfarast. Noa Ørk Vatna flodid

D Enn vid þig vil eg giøra eitt Sattmal. Og þu skallt ganga j Ørkina/asamt mz þinum Sonum/þÿn Kuiña og þinar Sonarkuiñur. Og þu skallt jñláta j Ørkena allra handa Dyr/af øllu hollde/ja eitt par/Kallkyns og Kueñkyns / ad þau hallde Lÿfenu mz þier. Af Fuglunum epter þeirra Kyne/af Fienadenum epter hn̄s Kyne/og af allzhattudū Skridkuik- indum Jardar/epter þeirra Kyne. Af þessu øllu skal eitt par fara jnn til þin j Ørkina / suo þad meigi hallda lÿfenu. Og þu skallt taka allzhattadar Fædslur med þier/ sm̄ etande eru/ og safna þeim jñ til þÿn/so þad meigi vera þier og þeim til atuiñu. Og Noe giørde alla hlu te so s̄ Gud baud honū.

# VII.

A OG DROTTIN sagde til Noa/Gack jñ j Ørkina/þu ⁊ allt þitt † Hws/ þuiad eg hefe sied þig Riettlatan fyrer mier a þessum tÿma. Tak jñ til þin af allzhattudum hreinum Kuikindum/siø ⁊ siø/ Kallkyns ⁊ Kueñkyns/Enn af ohreinum Kuikindum ei meira eñ eitt par/ Kallkyns og Kueñkyns. Lÿka so af Fuglum Loptsins siø ⁊ siø/ Kallkyns ⁊ Kueñkyns/so ad Sæde blÿfe lif- † Heimkyñe 1. Pet. 2.


ande a

ande a allre Jørdu. Þuiad epter siø daga vil eg læta Rigna a Jørdena/j fiorutijger daga ꝛ
fiorutijger Nætur/og afma af Jørduñe allt þad s̄ nockra veru hefur/ꝛ eg hefe giørt.
Noe geingr Og Noe giørde alla hlute so sm̄ DROTTJN baud honum. Noe var Sex hundrud æ- B
i Ørkina ra gamall/þegar Vatzflodit kom yfer Jørdina. Og hñ jñgieck j Ørkina ꝛ hñs Syner/hñs
Math. 24. Kuiña og hñs Sonarkuiñur/ fyrer Vatzflodid. Suo og geingu jnn j Ørkina til Noa af
Luc. 17 hreinum og ohreinum Kuikindum/af Fuglum ꝛ allzhættudum Skridkuikindum/ sem voru a
1 Pet. 3. Jørdu/ pørum saman/Kallkyns ꝛ Kueñkyns/epter þui sm̄ Gud DROTTJN hafde bod-
id honum. Og þa þeir siø Dagar voru lidner/ þa kom Vatzflodid yfer Jørdina.
Þa Noe var sex Hundrud æra gamall/a þeim seytianda deige j ødrum Manude/A þeim
† Himna Deige vppspruttu aller Vppsprettu bruñar hins mykla Vnderdiups/ og † Himnaraufarnar
gluggarner opnudust/og þar rignde a Jørdena j fiørutijger Daga og fiorutijger Natta
Riett a þm̄ sama Deigi gieck Noe jnn j Ørkina mz sinum Sonum/ Sem/ Cham/ Ja- C
pheth/og mz siñe Kuinnu ꝛ sinum þremur Sonar Kuiñum/ Þar mz allra handa Dyr/huert
epter sinu Kyne/og allra handa Skridkuikinde Jardar/og allra handa Fienadur epter sijnu
Kyne/og allrahanda fuglar epter þeirra kyne/ allt þad sm̄ floget gat og vænge hafde/þetta
gieck allt jñ j Ørkina til Noa/pørum saman af øllu holllde/ j hueriu ad Lijfs ande var. Og
þad var Kallkyns og Kueñkyns/af allskyns Holllde/sem jñgieck j Ørkina/so sem Gud hafde
Vatzflodit kō bodid hm̄. Og DROTTJN liet aptur epter hm̄.
xxvij dag Junij Og Vatzflodit kom yfer Jørdina j fiørutijger Daga/ Og Vatnid oox og vpplypte Ør- D
Epter Heim- kiñe/hatt yfer Jørdina. So vxu nu Vøtnen og geingu yfer allt a Jørduñe/suo ad Ørken
sins sköpun flaut a Vatnenu. Og Vøtnen geingu yfer alla Jørdena/og vrdu so mykel/ad øll stor Fiøll
mdclvi Ar vnder øllum Himnenū voru j kafe. Fimtan ælnum gieck Vatnid hærra yfer Fiøllen þau s̄
Fyrer Christi j kafe voru. Þa fyrerforst allt Holld þad sem hrærdist a Jørdunne af Fuglum og Fienade/
hingadburd Skogdyrum og af øllum Skridkuikindum Jardariñar/og aller meñ. Og allt þad sem haf-
MM cccvi Ar de lifande Anda a þurru/þad drapst. Þañen vard afmæd allt þad sem a Jørduñe var/bæde
1 Pet. 3 Menn og Fienadur/Skridkuikinde ꝛ Fuglar Loptsins/þad vard alltsaman afmæd af Jørd-
unne. Noe alleina vard epter/og þad huad j ørkiñe var medur honum. Og Vatnid stod yfer
Jørduñe j Hundrad ꝛ fimtijger daga.

## VIII.

NA minntist Gud a Noa/ꝛ a øll Dyr/og a øll þau Kuikinde s̄ voru mz hm̄ j A
Ørkinne. Og hñ liet Vind koma a Jørdena/Og Vøtnen minkudu. Og
Vppsprettur vnderdiupaña luktust aptur/ sømuleidis † Himnaraufarnar/
† Himna og Regnenu af Himnū var hamlad. Og Vatnid minkade a Jørduñe meir
gluggarner og meir/og þuerrade epter Hundrad ꝛ fimtijger Daga.
A þeim seytianda deige þess siøunda Manadar nam Ørken stadar a
Fiallenu † Ararat. Og Vatnid minkade og þuerrade allt til hins tiunda Manadar. A
† Armenie fyrsta Deigi hins tiunda Manadar skaut vpp þm̄ hæstu Fiallatindum.
Og fiørutijger Døgum þar epter/lauk Noe vpp Glugganum a Ørkinne sem hañ hafde B
Hrafnen giørt/og liet eirn Hrafn vtfliuga/ꝛ hñ flo j sijfellu aptur ꝛ fram/þar til ad Vatnid minkadi
af Jørduñe. Epter þad liet hñ eina Dwfu vtfliuga fra sier/til ad vita huert Vatnid mink-
ade ecke a Jørduñe. Og sm̄ Dwfan fañ ecki so nockurn þurran stad/ad hū mætte huijla siñ
Dwfā Fot vppa/kom hun til hñs aptur j Ørkina/þuiad Vatnid var þa enn yfer allre Jørduñe.
So vtriette hñ sijna Hønd/ꝛ tok hana til sijn jñ aptur j Ørkina.
Og hñ beid þa eñ j adra siø Daga / og ad þeim lidnum/liet hañ Dwfuna fliuga j añad
siñ af Ørkinne. Og hun kom aptur til hñs ad Kuellde. Og Siadu: Hun hafde j Munne
sier eirn Kuist af a Vidsmiørstrie/grænan og Laufe vaxin. Þa skilde Noe ad Vatnid var
a Vidsmiörswid þuerrad a Jørdiñe. Enn hñ beid þa enn adra siø Daga/og liet þa eñ Dwfuna vtfliuga/ꝛ
arlaufz/merker kom hū þa ecke til hñs aptur.
Euangelium Og þa Noe var Sexhundrud æra gamall og eins ærs betur/ a þañ fyrsta dag hins fyr- C
huert Heilagur sta Manadar/burt þornade Vatnid a Jørdiñe. Og þa tok Noe yferriafrid af Ørkiñe/ leit
Ande lætur vt/og sa ad Jørden var orden þurr. Og so var Jørden øllungis þurr/a þm̄ siøunda ꝛ tutt-
predikast ugasta Deige j þm̄ ødrum Manude.
Þa talade Gud mz Noa/ꝛ sagde/Far þu vt af Ørkiñe/þu og þin Kuiña/þiner Syner og
þijnar

þijnar Sonar konr/mz þier. Allzhættud Kuikinde sm̄ eru hia þier/af øllu Hollde/ af Fuglū
z Fienade/z af allra handa Skridkuikindum Jardarin̄ar skulu fara vt mz þier/z hrærid ydr
D a Jørdunne/vaxid og margfalldist a Jørdun̄e. So gieck Noe vt mz sinum Sonum / og med
sinne Kuin̄u/og mz sinum Sonar konum/So og allra handa Dyr/z allra handa Skridkuik-
inde/allra handa Fuglar/og allt þad sm̄ a Jørdin̄e hræріst/þad gieck vt af Ørkin̄e/huert til
sins lijka.

Og Noe bygde DROTTNE eitt Alltare/og tok af allzhættudum hreinum Kuikindum/ Esa. 45.
z af allra handa hreinū Fuglum/og offrade Bren̄e offur a Alltarit. Og DROTTINN Gen. 6.
lycktade þann sætleiks Ilm. Og sagde j sinu hiarta.

Eg vil nu ecke hier epter bølua Jørdun̄e fyrer Man̄sins skulld/Þuiad † Hugskot Mann † Sin̄e
ligs hiarta er jllt j fra Vngdome. Og hier epter vil eg ecke meir sla allt þad sm̄ lifer/ so sem
eg hefe nu giørt. Og so leinge sem Jørden stendur/ þa skal ecke þriota Sæd og Kornskurd/
Frost og Hita/ Sumar og Vetur/Dag z Nott.

# IX

A



G Gud blezade Noa og hn̄s Sonu/z sagde til þeirra/Vaxid z margfalldist
og vppfylld Jørdena. Ydar Otte og Ogn skal vera yfer øllum Dyrum a Gud blezar Noa
Jørdun̄e/og yfer øllum Fuglum Loptsins/z yfer øllū Skridkuikindū a Jørd-
unne/og aller Fiskar j Sionum skulu vera giefner j ydar Hendur. Allt þad
sem hræріst og lifer skal vera ydar Matur/so sem grænar Jurter hefe eg gie-
fed ydr alla hlute.

Alleinasta etid ecke þad Kiøt sem en̄ nu lifer j sinu Blode. Þui eg vil hefna ydar Lijfs
Blods/z eg vil hefna þss a øllum Dyrum. Og eg vil hefna Man̄sins lijfs a huerium man̄e/
so s̄ a þm/s̄ ad er hn̄s Broder.

Og hu̇ sm̄ vthellir Man̄sins Blode/hn̄s Blod sk z so vthellast fyrer Man̄en. Þui Gud Þad Veralld liga Suerdit
hefur skapad man̄en epter sin̄e Mynd/ Vaxid z margfalldist/z hrærid ydur a Jørdun̄e/so ad
þier meigit verda marger a hen̄e

B Og Gud sagde til Noa og til hn̄s Sona mz honum/Siaid: Eg vppset ein̄ Sattmala vid Gudz Sattmale/epter flod id wid Noa
ydur/og vid ydart Sæde epter ydur/og vid lifande Dyr hia ydur/af Fuglum/af Fie/z af øllū
Dyrum a Jørdunne hia ydur/af øllu þui sm̄ gieck vt af Ørkin̄e/ huad hellst Dyr þar eru a
Jørdunne. Og eg vppset so minn Sattmala vid ydur/Ad hier epter skal ecke meir allt holld Esa. 45.
eydeleggiast af Flode Vatna/og þar skal ecke framar koma Vatzflod hier epter/ad fordiarfa
Jørdena.

Og Gud sagde/Þetta er teikn þess Sattmala sem eg hefe sett a millum mijn og ydar/og
allra lifande Dyra hia ydur/hier epter til æfinligrar tijdar. Eg hefe sett minn Boga j Sky-
unum/hn̄ skal vera eitt Teikn/a þeim Sattmala millum mijn og Jardarinnar. Og þegar Regnbogen
C þad skier/ad eg fære Sky yfer Jørdina/þa skulu men̄ sia minn Boga j Skyunum/ og þa vil
eg þeinkia a minn Sattmala millum mijn og ydar / og allra Lifande Dyra/og allshættads
holldz/Ad þar skal ei koma eitt Vatzflod hier epter/ad fordiarfa allt Holld. Þar fyrer skal
minn Boge vera j Skyunum/so eg kun̄e sia a hn̄/og þeinkia a þan̄ eilijfa Sattmala a mille
Gudz og allra lifande Dyra/j øllu Hollde sem er a Jørdunne. Og Gud sagde þad sama til
Noa/Þetta skal vera Teiknid a þeim Sattmala/ sem eg hefe vppreist millum mijn og allz
Holldz a Jørdunne.

Þesser eru Noa Syner sem geingu vt af Ørkin̄e/Sem/ Cham/ Japheth / En̄ Cham er
Canaans Fader. Þesser eru þr þrijr Syner Noa/af huerium øll Lønd bygdust Syner Noa
D Enn Noe tok til ad yrkia Jørdena med sijnu Erfide/og plantade Vijngarda. Og sm̄ hn̄
drack af Vijne/vard hn̄ druckinn/og la Nakin̄ i sinne Tialldbwd. Og sem Cham Canaans Noe vard druckenn
Fader sa sins Fødurs Leyndar Lim/þa sagde hn̄ þad bædum sinum Brædrum / sm̄ vte stodu.
Enn þeir Sem og Japheth toku eitt Klæde/z logdu vppa sinar bædar herdar/z geingu a bak
aptur/þar til/ad þeir huldu þeirra Fødurs smæn. Og þeir sneru sijnum andlitum þar fra/so
ad þeir sæu ei þeirra Fødurs blygdan.

Enn sem Noe vaknade af sinu Vijne/og fieck ad vita huad han̄s yngste Son hafde giørt
honum/þa sagde hn̄/ Bøluadur verde Canaan/ hn̄ skal vera Þræll allra Þræla medal Bøluan yfer Canaan
sinna Brædra. Og enn sagde hn̄ framar meir/Lofadur verde DROTTIN Seims Gud/

og Canaan ſkal vera hans Þræll. Gud vtbreide Japhet/ og late hañ bua j Sems Tialld
budum / og Canaan ſkal vera hans Þræll.
*Alldur Noa* Og Noe lifde epter vatzflodid/ Þriuhundrud ⁊ fimtijgu Ar/ So ad hñs allr alldr va:d Niu
*950 ar* hundrud og fimtiu Ar/ og hañ andadiſt.

## X.



*Japheths ætt kuiſt 1 Par. 10* Etta er ættkuijſl Þra Noa ſona/ Sem/ Cham/ Japhet/ og þeir gætu Børn A
epter Floodit. Þeſſe eru Japhetz Børn/ Gomer Magog/ Madai/ Jauan/
Thubal/ Meſech ⁊ Thiras. Eñ Þſſe eru Gomers Børn/ Aſenas/ Riphat/
og Thogorma. Þeſſe eru Jauans Børn/ Eliſa/ Tharſis Chitim/ og Do-
danim/ Af þeſſum eru allar Neidingiaña Eyiar vtſkiptar j þeirra Løndum/
huer epter ſinu Tungumale/ ætt ⁊ Folke.
*Chams ætt-* Þeſſe eru Chams Børn/ Chus/ Mizraim/ Put/ ⁊ Canaan. Þeſſe eru Chus Børn/ Se-
*kuiſt* ba/ Neuila/ Sabtha/ Raema og Sabthecha. Og þeſſe eru Rahema børn/ Scheba og De-
*Nimrod* dan. Eñ Chus gat Nimrod/ Nñ tok til ad verda eirn mikilshæittar Nerra a Jørduñe/ ⁊ var B
eirn volldugur Veidemadur fyrer DROTTNE. Þar fyrer er þad Mælltæke vppkomid/
*Babel* Nñ er eirn volldugr Veide madr fyrer DROTTNE ſo ſẽ Nimrod. Og Babel var vpphaf
*Aſſur* hñs Rijkis/ Erech/ Acad ⁊ Calne j Lande Sinear. Af þui Lande er Aſſur ſijdan kominn/ og
*Niniue* hann vppbygde Niniue og Rehoboth/ Jr og Calah/ og þar til Reſſen millum Niniue og
Calah/ ⁊ er þad eirn ſtor ſtadur. Mizraim gat Ludin/ Ananin/ Leabim/ Napthuhim/ Pa-
turſim/ og Chaſluhim. Af þeſſum eru komner Philiſtei ⁊ Chaptorim.
Enn Canaan gat Zidon ſiñ fyrſta Son/ og Heth / Jebuſi/ Emori/ Girgoſi/ Niui/ Archi/ C
Sini/ Aruadi/ Semari ⁊ Namathi. Af þeſſum eru þær Chananita ætter vtkomnar/ Og
*Cananei* þeirra Landsæalfur taka fra Zidon/ j giegnum Gierar/ jnn til Gaſa/ þar til ad meñ koma til
*Sodoma* Sodoma/ Gomorra/ Adama/ Zeboim/ ⁊ allt til Laſa. Þeſſer eru Chams Syner/ þeirra ætt
Tungumæl/ Lønd ⁊ Lyder.
*Sems ætt-* Enn Sem Japheths ellſte Broder/ gat og ſo Børn/ Nann er allra Barna Fader af Eber
*kuiſt* og þeſſer eru hñs Syner/ Elam/ Aſſur/ Arphachſad/ Lud og Aaram. Syner Aaram eru þe-
*1 Par. 1* ſſer/ Vz/ Nul/ Gether/ og Mas. Arphachſad gat Salah/ Salah gat Eber/ Eber gat tuo D
Sonu/ eiñ hiet Pieleg/ þuiad Verollden var ſkipt i hñs tijd/ hñs Broder hiet Jachetan. Og
Jaketan gat Almodad/ Nazarmapheth/ Jarah/ Nadorã/ Vſal/ Dikela/ Obal/ Abimel/ Se-
ba/ Ophir/ Neuila ⁊ Jobab. Þeſſer aller eru Jaketans Syner. Og þeirra Bygdarløg voru
fra Meſa/ þar til komit var til Sophar/ til þeſſ Fialls mot Auſtre. Þeſſer eru Sems ſyner/
epter þra ætt/ Tungumalũ/ Lande ⁊ Lydũ. Þeſſe er nu ætthringur Noaſona/ j þra ættkuijſlũ
og Folke. Af þeim eru Þiodernar vtkomnar a Jørdena/ epter Vatzflodit.

## XI.



*Sinear* Erøllden øll hafde eitt Tal og Tungumal. Og ſem þr foru mote Auſtre/ A
*Turnen* fundu þeir þar eitt Sliettlende j Sinear Lande/ og biuggu þar. Og huer
*Babel* ſagde til annars/ Komid/ giørum oſſ Tigulſteina/ og breñum þa j Ellde.
Og þa toku þeir Tigelſteina til Mwrgriots/ ⁊ Limſtein til Kalks. Og þr
ſøgdu/ Komid/ Vier vilium byggia oſſ eirn Stad og Turn / huers Nœd ad
take vpp j Niminen/ og giørum oſſ ſo eitt Nafn/ adur eñ vier vtſkiptunſt vm
øll Lønd.
Þa for DROTTJN ofan/ ad ſia þann Stad og Turn ſem Mañanna ſyner vppbyg-
du. Og DROTTJN ſagde/ Sie: Þetta er ein Þiod/ og þeir hafa aller eitt Tungumæl/
⁊ þeir hafa vppbyriad ad giøra ſoddan/ og ecke munu þeir læta af/ ad giøra allt þad ſem þr
hafa fyrer ſig tekid. Komid/ lætum oſſ fara ofan og villa þeirra Tungumal/ ad eingen ſkilie
huad annar ſeiger. So ſundurdreifde DROTTJN þeim/ ⁊ þeir foru þadan til allra Lã- B
*Tũgumalin* da/ ſo ad þr vrdu af ad lata ad byggia þañ Stad. Þui kallaſt hñs nafn Babel/ þui DRO-
*ſkiptaſt* TTJN villte þar allra Landa Tungumæl / Og hañ ſundurdreifde þeim þadan til allra
Landa.
*Sems Kyn-* Þetta er Sems ættkuijſl. Sem var Nũdrad Aara gamall/ ⁊ atte Arphachſad/ tueimr Aar
*kuiſt* um epter Floodid. Og hñ lifde ſijdan Fimhundrud Aara/ ⁊ gat Sonu og Dætur.

Enn

B Eñ Arphachsad var Fimtan z tuttugu Aara gamall/ z gat Salah/ z hñ lifde sijdã Fiogr hundrud z þriu Ar/ Og gat Sonu z Dætur. Arphachsad lif de cccc xxx viij

Salah var Þriatijger Aara gamall/ þa gat hñ Eber. Og hñ lifde sijdan Fiøgur hũdrud og þriu Aar/ Og gat Sonu og Dætur. Salah 433

Eber var Fiortan og tuttugu Aara gamall/ gat z Pieleg/ Og hñ lifde sijdan Fiogr hundrud z þriatijgu Aar/ Og gat Sonu z Dætur. Eber 464

Peleg var Þrijtugur ad alldre/ z gat Regu. Og lifde sijdan tuohundrud z Niu Aar/ Og gat Sonu z Dætur. Peleg 239

C Regu var tolf og tuttugu Aara gamall/ og gat Serug/ Og lifde sijdan tuo hundrud z sio Aar/ Og gat Sonu z Dætur. Regu 239

Serug var þrijtugur ad alldre/ z gat Nahor/ z lifde þar epter tuo hundrud Aara/ Og gat Sonu og Dætur. Serug 230

Nahor var niu og tuttugu Aara gamall/ og gat Tharah / Og lifde sijdan Hundrad og nitian Aar/ Og gat Sonu z Dætur. Nahor 148

Thara var Siøtugur ad Alldre/ og gat Abram/ Nahor z Haram. Thara

Þesse er Tharah ættkuijsl/ Tharah gat Abram/ Nahor z Harã. Eñ Harã gat Lot. Eñ Thare ætt-
D Haram andadist fyrr eñ Fader hñs Tharah/ j sijnu Fødurlande/ j þm Stad Vr j Caldea kuijsl
Lande. Enn Abram og Nahor Kuongudust. Abrams Hustru hiet Sarai. Enn Nahors Lot
Kuiña hiet Milka/ Harams dotter/ sem var Fader þeirra Milka og Jisca. Eñ Sarai var Abram
Obyrta/ Og gat eingen Børn. Sarai

Sijdan tok Tharah sinn Son Abram/ og Lot siñ Sonarson Harams Son/ z Sarai sijna Sonarkonu Abrams kuiñu/ og vtleidde þau fra Vr j Chaldea/ ad hñ fære j Landid Canaan. Og þeir komu til Haran/ og biuggu þar. Og Tharah vard tuø hundrud z fim̃ ara gamall/ z andadist j Haran. Tharah alldr ccv ar

# XII.

A DROTTIN sagde til Abram/ Gack vt af þinu Fosturlande/ og fra þinu Frændlicᵉ/ og vt af þins Fødurs hwsi/ til þess Landz sem eg mun vijsa þier. Og eg vil giøra þig ad mikille Þiod/ z blessa þig / og giøra þier eitt stort nafn/ og þu skallt vera blessadur. Eg vil blessa þañ sem þier blessar/ z so Bolua þeim sem þier bølua. Og j þier skulu blessast allar ættkuijsler a Jordunne. Act. 7 Ebre. 11 Fyrerheite vm Christo

So ferdadist Abram burt so sm̃ DROTTEN hafde bodid honum/ Og Lot for m z hm̃. Abram var siøtijger og fim̃ Aara gamall/ þa hñ for vr Haran. Og Abram tok sina Hustru Sarai/ og Lot siñ Brodur son/ og alla þeirra Fiarhlute sem þeim hafde aflast/ z so þær Sa-
B ler sem þeir høfdu gietid j Haran/ og foru vt ad reisa j Landed Canaan. Og sem þeir voru komner j þad sama Land/ for Abram i giegnum Landid/ allt til þss Stadar edheiter Sichem. Og til † Dalsins More. Eñ Chananei biuggu i þañ tijma i Landinu. † Landsins

Þa birtist DROTTIN Abram/ og sagde: Þijnu Sæde vil eg giefa þetta Land. Og hñ bygde DROTTNI eitt Alltare/ j þeim stad/ sm̃ hñ opinberadist honum. Epter þ ferdadist hñ þadã til eins Fialls/ s la fyrer austan Bethel/ z reiste þar vpp sitt Landtialld/ z hafde Bethel a Vestre sijdu/ eñ Ai a eystre. Og hñ bygde DROTTNI þʳ eitt Alltare/ z predikade vm DROTtins Nafn. Þar epter ferdadist Abram fram leingra/ z for j Sudr att. Fyrsta Fyrerheit wm Canaans Land Bethel Deut. 34

C Og þar vard mikid Hallære i Landinu. Og Abram ferdadist ofan til Egiptalandz/ og villde hallda sig þar sem eirn framande Madur/ Þuiad miøg mikid Hallære var i Landenu. Og sem hñ var kominn hart nær i Egiptaland/ þa sagde hñ til sinnar Kuiñu Sarai/ Siadu/ Eg veit ad þu ert Harla frijd Kona/ og þegar þeir Egiptisku sia þig / þa munu þeir seigia/ Þad er hñs Eiginkona/ so munu þeir sla mig i Hel/ enn hallda þier epter/ Þui bid eg þig/ ad þu seiger/ ad þu siert Syster mijn/ so eg meige niota þijn/ z ad eg meige hallda Lijfe fyrer þijna skulld. Hallære a døgum Abrams Abram fer j Egiptaland Gen. 20

Enn sm̃ Abram kom i Egiptaland/ þa sau þeir Egipsku meñ Kuiñuna/ ad hũ var harla væn. Og Pharaonis Høfdingiar sau hana/ og søgdu honum mikid af heñar Pryde. Og
D hun var høfd i Pharaonis Hws. Eñ hñ giørde Abram til goda fyrer heñar skulld. Abram atte Naut/ Saude/ z Asna/ Þræla og Ambætter/ ØSnur og Vlfallda. Enn DROTT-

JNN plaagade Pharaonem mz mikille Plagu/ z hn̄s Hus/vegna Sarai Abrams Kuiṅu.
Þa kallade Pharao Abram til sijn/og sagde til hans / Þui hefur þu giørt mier soddan?
Þui sagder þu mier ecke/ad hun være þijn Eiginkona? Þui sagder þu ad hū være þijn Sy-
ster? So ad eg tæke hana mier til Eiginkuiṅu. So/tak nu þijna Eiginkuiṅu og far j burt.
Og Pharao baud sijnu Folke/ad þad skyllde fylgia honum a veg/og hn̄s Kuiṅu / z øllu þui
sem hm̄ tilheyrde.

## XIII.



O for Abram af Egiptalande/med sinne Kuiṅu/og øllu sijnu Føruneyte/j A
Abram fer burt af Egipta lande i Canaans land — sudur ætt/og Lot var mz honum. Og Abram var stor audigur/ad Kuikfie/
so og lijka af Silfre og Gulle. Og haṅ for aptur sama veg fra Sudre ad
Bethel/til þess Stadar sm̄ hn̄s Tialldbwd var fyrr/j millum Bethel z Ai
i þeim sama stad sem hn̄ hafde adur giørt Alltarid/ og predikad vm Nafn
DROTTINS.
Lot — Eṅ Lot/sem for mz Abram/hafde bæde Naut z Saude/z so Tialldbwder/ Og Lādid var B
Gen. 36 — þraungt fyrer þa bæda ad bua saman/þui þeir høfdu fiølda Kuikfiar/so þeir mættu ecke ve-
Cananei — ra j Sambyle. Þar fyrer vard osamþycke a millum Fiærhirdara Abrams/og j millū Fiar-
Pheresei — hirdara Lotz. J þaṅ tijma biuggu Cananei/z so Pherisei i þui Lande.
Þa mællte Abram vid Lot/ Kiære/ Latum ecke vera nockra þrætu millum þijn og mijn/ og
ecke helldur j millum minna og þiṅa Fiarhirdara/þui vid erum Brædur. Stendur ecki allt
Landit opid fyrer þier? Þar fyrer skil þig vid mig/ Vilier þu vijkia til Vinstre handar / þa
skal eg fara til hægre/eda vilier þu fara til hægre handar/þa skal eg vijkia til Vinstre. Þa C
vpphof Lot sin Augu/og leit Landzælfu alla/hia Jordan/Þui ædur eṅ DROTTIN vm-
turnade Sodoma og Gomorra/þa vokuadist hun giøruøll/allt ad Zoar / lijka sem Paradijs
Jordanar Hierad — DROTTINS/ lijka s̄ Egiptaland.
So kiøre Lot sier allt þad Nierad/sem la hia Jordan/og for so burt vr Austre. So skild-
ust þesser Brædur ad/ huor fra ødrum. Og Abram bio i Canaan lande/eṅ Lot i stødum þss
Sodoma borgarmenn — sama Nieradz/vid Jordan/ og setti sinn Bustad j Sodoma. Enn meṅ i Sodoma voru jller
z Syndgudust miøg i mote DROTTNI.
Og sem Lot var nu skilinn vid Abram/þa mællte DROTTIN vid Abram/Vpplyptu D
Aṅad Fyrerheit vm Canaans Land — þinum Augum/ z lijt þu fra þessum stad sem þu byr/til Nordurs/Sudurs/Austurs/z Vest-
urs. Þuiad allt þad Land/sem þu sier/vil eg giefa þier og þinu Sæde æfinliga. Og eg vil
Gen 12 15 26 — margfallda þitt Sæd sem Dupt a Jørdu/ Getur nockur talid Dupt Jardarinnar / sa skal
Rom. 4 — telia þitt Sæd. Þar fyrer tak þig vpp/ z far i giegnum Landit/bæde a leingd þess/ z breidd/
† Lundenum — þui eg vil giefa þier þ. So tok Abram sijna Tialldbwd vpp/ kom z bio i † Dalnum Mam-
re/huer ed liggur i Hebron/ og bygde DROTTNI þar eitt Alltare

## XIIII



G þad skiede a Døgum Amraphel Kongs af Sinear/og Arioth Kongs i E- A
laza/ z Kedorlaomor Kongs i Elam/ z Thideal/ s̄ var Heidingiaṅa Kongr/
ad þeir børdust i mot Bera Kongenum af Sodoma og mot Birsa Kongenum
af Gomorra/og i mot Sinear Kongenum af Adama/og Semeber Kongenū
af Zeboim/ z i mot Kongenum af Bela/ s̄ kallast Zoar.
Þesser mættust i Dalnum Siddim/ sem nu er sa sallte Sioren. Þui þeir
høfdu verid Lydskyllder i tolf ær vnder Kongenum Kedarlaomor/ Enn fiellu fra honum a
þui þrettanda ære. Og þar fyrer kom Kedarlaomor og þeir kongar sem voru mz honum/a
Risinn — þui fiortanda Aare/og slou þa Risa sem voru Jiastaroth/Charnaim/ og Susim/ j Ham og
Susim — Emin/a þui Sliettlende Kiriathaim/þeir slou z so Horeos/a Fiallenu Seir/allt til þess sliett
Emim — lendis Pharan/sem liggr vid Eydemerkur.
Horite — Epter þad sneru þeir sier aptur/ og komu til þeirrar Vppsprettu Mispat/ þad er Kades/ B
og slou allt Land þeirra Amalechitharum/ Amorheorum/ s̄ biuggu j Hazezon Thamar.
Þa reiste Konguriṅ af Sodoma vt/ Konguriṅ af Gomorra/ Kongurinn af Adama/ Kong
uriṅ af Zeboim/og Konguriṅ af Bela sem kallast Zoar/og biuggust til Bardaga i Dalnum
Siddim/a mote Kedorlaomor Kongenum af Elam/ z i mot Thideal Heidigia Kōge/z i mo-
te Amraphel

te Amraphel Kongenum af Sinear/og j mot Arioth Kongenum af Elazar / fiorer Kongar j
mote fim̄. Og þar voru margar Leirgrafer j þessum Dal Siddim.
Enn Konguriñ af Sodoma ⁊ Gomorra/vrdu þar slegner a flotta og vid velle lagder/ enn
þeir s̄ epter voru/flwdu til Fialla. So toku þeir alla þa fiarhlute sem voru i Sodoma ⁊ Go-
morra/og allt þad sem ætt var/og drogu þar fra. Þeir toku og so lijka Lot Abrams Brodur
son/og hñs allan Fiarhlut/þt hñ bio i Sodoma/og so drogu þeir þar fra. Þa kom eirn sm̄ i
C burt hafde komist/og sagde þad Abram vtlendska/þeim sem þa bio i † Dalnum Mamre A-
morrhei/s̄ var Broder þra Eskol og Aner/þesser voru Samlagsmeñ Abrams. Og s̄ Abram
heyrde þad hñs Broder var Nertekenn/ vopnade hñ þriuhundrud ⁊ atian sijna Nwskarla/
s̄ Odalborner voru i hñs hwsi/ og hñ for epter þm allt til Dan. Þar skipte hañ siinum Lidz-
monnum/og fiell a Nattarþele yfer sijna Ouine/og fellde þa/og rak Flottan allt til Hoba/
huer ed ligg: vestur fra Damasco. Hañ hafde aptur mz sier alla Fiarhlute/⁊ so Lot siñ Bro-
der/og allan hñs Fiarhlut/so ⁊ Kuiñur ⁊ Kalla.

Lot Nertekiñ
† Lundenum
Escol
Aner
Abram feller
þiora Konga

Enn sem hñ kom aptur/fra þessu Slage sem hñ hafde veitt Kongenum Kedorlaomor/ og
þeim odrum Kongum sem mz honum voru / Þa gieck Konguriñ af Sodoma vt j mot hm̄/a
þañ Voll sm̄ kallast Konga dalur.
D Eñ Melchisedek Konguriñ af Salim/bar fram Braud ⁊ Vijn/ Og hñ var Kieñemadr
hins hæsta Gudz/og blessade hañ/og sagde/ Blessadur vertu Abram fyrer þeim allra hæsta
Gude/sem ad styrer Himne ⁊ Iordu/ Og blessadur sie sa allra hæste Gud/ sem gaf þijna O-
uine i þijnar Hendur. Og Abram gaf honum Tiunder af ollum hlutum.

Melchisedech
er Sem huer ed
lifde þm̄ og
þriatyger Aar
leingur enn A-
bram

Þa sagde Konungurinn af Sodoma til Abrams/Gef mier Meñina/eñ haf þu Fiarhlu-
te alla. Abram suarade Sodoma Konge/Eg a vpphef mijnar hendur til DROTTINS
þess allra hæsta Gudz sem stiornar bæde Himne og Iordu/ad eg vil ecke taka so mikid s̄ eirn
Þrad/eda Skoþueing/af ollu þui Gotzi sm̄ þier tilheyrer/so þu skallt ecke seigia/ad þu ha-
fer giort Abram Rijkann/Vtan þad sem þeir vngu meñ hafa neytt/⁊ þeir meñ/Aner/Escol
⁊ Mamre/þeir sem reistu medur mier/þa lattu taka sitt hlutskipte.

a (Vpphef) þ. Þad er, Eg suer

## XV.

A Epter þessa atburde/bar so til/ad Ord DROTTINS skiede til Abram/j
eirne Syn/⁊ sagde/Ottast þu ecke Abram/Eg er þijn vernd / og þijn miog
stor Laun. Eñ Abram suarade. DROTtiñ DROttiñ/ Huad villt þu ge-
fa mier? Eg fer hiedan Barnlaus / eñ minn Verkstiore Eliasser af Da-
masco a eiñ Son. Og Abram sagde fraarmeir/ Mier hefur þu eckert Sæ-
de giefed/⁊ siadu: ad Sonur mijns þienara/skal vera miñ Erfinge.
B Og sia þu/DROTTIN sagde til hñs/Ecke skal hñ vera þinn Erfuinge/ Helldur sa s̄
kiemur af þinu Lijfe/sa same skal vera þiñ Erfuinge. Og hñ baud honum ad ganga vt/ og
sagde/Lijttu a Himinen/og tel Stiornurnar ef þu giefur. Og hañ sagde til hañs/so skal þitt
Sæde verda/Abram trwde DROTTNI/ ⁊ þad reiknade hñ honum til Riettlætis.

Gud lofar
Abram Syne
Gen. 17
Rom. 4
Gal. 3

Og hñ sagde til hñs/Eg er DROTTIN sem vtleidde þig fra Vr i Chaldea lande/ad
eg giæfe þier þta Land til eignar. Þa sagde Abram/ DROTTiñ/DROTTiñ/Huada
C merke skal eg hafa til þess ad eg skule þ eignast? Og hñ sagde til hñs/ a Tak mier eina Ku
þreuetra/og eina Geit þreuetra/⁊ eirn Hrwt þreuetran/eina Turtildwfu/⁊ eina vnga Dw-
fu. Og hñ bar allt þetta fram fyrer hñ/og skipte þui mitt j tuo hlute/og lagde partana hűn
giegnt odrum/ eñ Fuglenũ skipte hñ ecke. Og Fuglarner flugu vppa Hræen/eñ Abram rak
þa i burtu. Eñ sem Solin var nu vndergeingen / fiell þungur Suefnhoggue yfer Abram.
Og sia þu/ ad Otta miklum ⁊ Myrkre slo yfer hñ.

Þridia Fyrer
heit vm Landid
Canaan
(a) Þad er/eg þorn-
þær

D Þa sagde hñ til Abram/Þad skalltu vita/ad þitt Sæde skal verda framande a añarligre
Iordu/sem ad ecke heyrer þeim til/og þar munu meñ þia þad mz Þrældome/og plaga þad i
fiogurhundrud Aara. Enn eg vil dæma þad Folk/sem þeir verda ad þiona. Enn þar epter
munu þeir fara a burt þadan mz myklum audæfum. Enn þu skallt fara mz Fride til þinna
Forfedra/grepftradur j godre Elle. Enn þeir skulu koma hier aptur ad lidnum fiorum mañs
olldrum/ Þuiad Ranglæte Amoritharum er eñ ecke fullkomnad. Og sem Solin var vnder
geingen/so ad Myrkt var ordit/Sia þu/ Þa rauk eirn Ofn/⁊ eirn Elldz Loge leid fram̄ a mz
al Styckiaña.

Vtþyding
Oþþursins
Sattmal vid
Abram/og Fyr-
erheit vm Ca-
naans Land/i
þiorda sinni

A þm

A þeim Deigi giørde DROTTIN eirn Sattmala vid Abram/og sagde/Þijnu Sæde
vil eg giefa þetta Land/fra Vatzfallenu j Egiptalande/z til þess stora Vatzfalls Euphra-
Jñbyggendz Canaans Lāds Gen. 12
tes/þa Chenita og Chinisita/Kadmonita/Nethita/Pheresita/og Risana/ Amorita/Cha-
nanita/Gergesita/Jebusita.

## XVI.



a (Tillukt) Þad er/hũ hefðz ecke giefid mier edle til Barn eignar
b (Vppbyggiast) Þad er/Børn ad þær

Arai Abrams Kuinna atte eckert Barn/ Eñ hũ hafde eina Egiptska Am- A
batt/sũ hiet Agar. Og Sara sagde til Abram/ Sia þu/ DROTTIN
hefur a tillukt mig/so eg ma eigi Børn eiga/Legg hia þier Ambatt mijna/
so eg meige/ef skie mætte/b vppbyggiast af henne. Abram hlydde Raust
Sarai. So tok Sarai Abrams Kuiña þa Egiptsku Ambatt Agar/z gaf
hana sinum Mañe Abram til Kuiñu/þa þau høfdu buid tiu ar j Chana-
ans Lande.
Og hũ gieck jñ til Agar/z hũ vard Oliett. Og þ hũ sa ad hũ var oliett/virte hũ lijtils sij
na Hussfru hia sier. Þa sagde Sarai til Abram/ Þu giører mier Oriett/Eg lagda mijna B
Ambatt hia þier/Enn nu hun sier/ad hun hefur Gietnad feingid/fyrerlijtur hun mig. Dæmi
Agar flyr fra Sarai
Gud i millũ þijn og mijn. Þa sagde Abram til Sarai/Sia þu/Þijn Ambatt er vnder þijnu
vallde/ giør vid hana slijkt þu villt.
Og sem Sarai villde þia hana/ þa flyde Agar i burt fra henne. Enn Eingill DRO-
TTINS fañ hana hia einum Bruñe/i Eydemorkinne/sũ ad liggz hia þeirre Vppsprett-
tu/sũ er a veigenum til Sur/Hũ sagde til hennar/Agar Sarai Ambatt/Huadan kemz þu?
Og huert villtu fara? Hun sagde/Eg flyde fra minne Hussfru Sarai. Og Eingill DRO-
TTINS sagde til heñar/Far heim aptur til þinnar Hussfrur/ z audmyk þu þig vnder he- C
ñar hende.
Og Eingill DROTTINS sagde til heñar/Eg vil margfallda þitt Sædi/so þat skal
Jsmael kallast/Gud Bæn heyrer
eigen kuña ad telia fyrer fiølda saker. Og Eingill DROttins sagde framar meir til heñar/
Sia/Þu ert oliett orden/z þu mũt Son fæda/ hũs nafn skt þu kalla Jsmael/ Þui DRO-
TTIN hefur heyrt þinn Motgang. Hũ mũ vera eirn grimmur Madur/ og hũs hønd skal
vera j mote huerium mañe/og huers mans hønd j mote honum/og hũ mun bua gagnuart øl-
lum sinum Brædrum
Og hun kallade Nerrans nafn sem talade vid hana/Þu Gud sem sæst mig/Þui hun sag- D
de/Sannarliga hefe eg sied hier þann / sem mig sier hier epter. Þui kallade hun þann
Brunn/Bruñ þess lifanda og mig siaanda/huer Brunnur ad liggur a millum Kades z Ba-
Jsmael fæddist a lxxxvi are Abrahams
red.
Og Agar fædde Abram eirn Son/og Abram kallade þañ Son sem Agar fædde honum
Jsmael. Og Abram hafde sex vm attrætt/þa Agar fæddi honum Jsmael.

## XVII.



A Abram var Niũ og niutijger ara gamall/birtist DROTTIN honum/ A
og sagde til hũs/Eg er Almattugur Gud/gack fyrer mier/z vertu algiørdz.
Eg vil giora miñ Sattmala i millum mijn z þijn/og eg vil margfallda þig
harla miøg. Þa fiell Abram fram a sitt andlit.
Og Gud talade framar meir vid hũ/og sagde/Sia þu/Eg em hũ/og eg
Abram kallast hæz Fader/eñ Abraham Fader Fiølmeñis
vil setia mitt Sattmal vid þig/z þu skallt verda margra þioda Fader. Þar
fyrer skalltu ecke leingur heita Abram/helldur skal þitt nafn kallast Abraham / þui eg hefe
giort þig ad Fødz margra þioda. Og eg vil giora þig miøg margfalldligan/ z eg vil læta
koma fiølda Folks af þier/ þar skulu z eirnen Kongar koma af þier.
Sattmale Gudz vid Abraham
Og eg vil vppreisa minn Sattmala/i millum mijn og þijn/og þijns Sædis epter þig/hia
þeirra epterkomendum/med einum eilijfum Sattmala/ Ad eg sie þiñ Gud/ og þijns Sædis/
epter þig. Og eg vil giefa þier og þinu Sæde epter þig/ þad Land/j hueriu þu ert framan- B
de/Sem er þad allt Landit Chanaan/til eirnrar eilijfrar eignar/Og eg vil vera þeirra Gud.
Vmskurdarskirnen war iñsett
Og Gud sagde til Abrahams/So hallt nu mitt Sattmal/þu og þitt Sæde epter þig/hia
þeirra epterkomendum. Þetta er mitt Sattmal/sem þier skulud hallda/mille mijn og ydar/og
þijns Sædis epter þig. Allt Kallkyns sem er a medal ydar/skal vmskerast/Og þier skulut vm
skiera

skiera Yferhwd yduars Holldz. Þad skal vera Sattmals teikn/a millum mijn ⁊ ydar. Þier skulud vmskiera huert Sueinbarn/þa þad er ætta Daga gamallt/hia ydar epterkomendum/ Lijka og eirnen huern heimafæddan Þræl/eda tilkeyptan/af huers kyns Vtlendinge/sem ecke eru af ydar Sæde. So skal min̄ Sattmale vera a ydar hollde til eins eilijfs Sattmala. Og huørt þad Sueinbarn sem ecke er vmskorid a Yferhwd sins Holldz/þess Sal skal afmast fra hans folke/þuiad han̄ forliet min̄ Sattmala.

MMxlvij áru epter heims sköpun/þyrer hingat burdin MCMXV/a þui are aþ madist Sodom og Gomorra/þakom Isaac til are seirna

E Og Gud sagde j an̄at sin̄ til Abrahams/Þijna Kuin̄u Sarai skalltu ecke hiedan af kalla Sarai/helldur skal hen̄ar nafn vera Sara. Þui eg vil blessa hana/ og af hen̄e vil eg giefa þier eirn Son/Þui eg vil blessa hana / og þar skulu koma Þioder af henne/og suo Koningar margra Þioda. Þa fiell Abraham fram̄ a sitt Andlit/⁊ broste/seigiande i sijnu Hiarta/Skal eg eiga Barn Hundrad ára gamall? og skal Sara nijræd Barn fæda?

Sara Gen. 18. 12

Arca Noe



Þesse Figura á ad standa i hinum vij Cap. Genesis

Og Abraham sagde til DROTTINS/ Eg villde Ismael mætte lifa fyrer þier. Þa sagde Gud/Ad vijsu/ Sara þin Kuinna skal fæda þier eirn Son/ þan̄ skalltu kalla Isaac/ Þui vid han̄ vil eg vppreisa min̄ Eilijfan̄ Sattmala/og vid hans Sæde epter han̄. Þar mz he-

D fe eg ⁊ bænheyrt þig vm Ismael/Sia þu/Eg hefe blessad han̄/og eg vil auka han̄/og giøra han̄ miøg margfalldan. Hann̄ skal gieta tolf Høfdingia/og eg vil giøra han̄ ad eirne mikille Þiod. En̄ min̄ Sattmala vil eg vppreisa vid Isaac/ huern Sara skal fæda þier/i þetta mund a ødru are. Og han̄ liet af ad tala vid han̄/og Gud for vpp fra Abraham.

Þa tok Abraham sinn Son Ismael/⁊ alla þa Þienara/sem fædder voru i hans Hwsi/⁊ alla þa ē til voru keypter/og alla adra sem voru Kallkyns i hans Hwse/ ⁊ vmskar Yferhwd a þra Hollde/strax a þeim sama deige sem Gud hafde bodid honum. Og Abraham var niu og niu tijger Ara gamall/ þa han̄ vmskar Yferhudena a sinu hollde/enn Ismael var þrettan ára gamall/þa hans Hollds Yferhwd var vmskorin/A einum Deige voru þeir aller vmskorner/ Abraham/hans Son Ismael/og allt Kallkyns sem var i hans hwsi/heimafædder og an̄arliger þr voru aller vmskorner mz honum.

Abraham og Ismael taka vmskurdar skirn

# XVIII.

A 

OG DROTTIN birtist honum i þeim † Dal Mamre/þa han̄ sat j sijnum Tialldbwdardyrum/og Dagurin var sem heitastur. Og er han̄ vpplypte sijnum Augum/sa han̄ ad þar stodu þrijr men̄ gagnuart honum. Og sem han̄ leit þa/rann han̄ i mot þeim vr sinum Tialldbwdardyrum / og fiell fram̄ til Jardar/og sagde/Herra/Hafe eg fundit Næd fyrer þinu auglite / þa gack ecke fram̄ hia þinum Þienara. Eg skal sækia lijtid Vatn ad þuo ydar fætur/og huijlid ydur vnder Trienu. Eg vil bera ydur lijtid Braud/ so þier meigid styrkia ydart Hiarta/sijdan farid ydar Leid/Þui þar fyrer eru þier komner hingad til yduars Þienara. Þeir suørudu / Giør þu sem þu mællter.

† Lund

Abraham hliop i Tialldbwdena til Saru /og sagde / Flyt þier og meinga þria Mæler Huite miøls/hnoda þu og baka Køkur. Og han̄ hliop til/og tok eirn godan feitan Kalb/ og fieck Þienaranum/han̄ flytte sier og til reidde han̄. Og han̄ bar fram̄ Smiør ⁊ Miolk/⁊ af þm Kalbe sem han̄ hafde tilreitt/⁊ sette þ fram̄ fyrer þa/⁊ han̄ stod hia þm vnder Trienu/Og þeir neyttu.

Þa sogdu þeir til hans/Huar er þijn Kuin̄a Sara? Han̄ suarade/ hun er j Tialldbwdinne. Þa sagde han̄/eg vil koma til þijn aptur/ad mier lifanda/sia þu / Þa skal Sara þin Kuinna

hafa eirn Son. Þetta heyrde Sara a bak vid Tialldbwdar dyrnar. Enn Abraham og B
Sara voru bæde gomul/og hnÿgen a efra alldur/so ad Kuennliger edlis hætter voru horfner
fra Saru. Þar fyrer broste hun mz sier sialfre/og sagde/Skal eg nu stunda epter Lysting/
þar s̃ eg er gømul orden/z miñ herra hnÿgen ad alldre?
Þa sagde DROTTIN til Abrahams/Þui hlær Sara þar ad? Og seiger/Mun þad
4 Reg. 4 satt ad eg skule Barn fæda suo gomul? Er nockut DROTTNI neirn hlutur omøguligr?
Eg vil koma til þÿn aptur a þessum tÿma/ ad mier lifanda / og skal Sara hafa eirn Son.
Þa þrætte Sara og sagde/Eg hlo ecke/þui hun var hrædd. Eñ hñ sagde/Þad er ecke so/þu
hloost.
Þa stodu meñerner vpp þadan/ og sneru sier til Sodoma. Og Abraham gieck a leid
med þeim/og fylgde þeim a veg. Þa sagde DROTTIN/ Ma eg dylia fyrer Abraham
þui s̃ eg vil giøra? Med þui hñ skal verda ad einu myklu z mektugu Folke/og allar Þioder
Christus a Jørduñe skulu blessast i honum. Þuiad eg veit/ad hñ mun bioda sinum Bornum/og sijnu
Gen. 12 Hwsi epter sig/ad vardueita vegu DROTTINS/z giøra þad sem riett og gott er/So ad
DROTTIN late þad koma yfer Abraham/ sem hñ hefur heitid hm̃.
Ezech. 16 Og DROTTIN sagde/Hroop þeirra j Sodoma z Gomorra er mykid/z þeirra Syn- C
der eru miøg þũgar. Þar fyrer vil eg fara ofan/og vita huort þeir hafa giørt allt epter þui
Hroope/sem komid er fyrer mig/Eda sie þad ecke/so ad eg meigi þat vita. Og meñerner sne-
ru sijnu auglite þar fra/z geingu til Sodoma.
Og Abraham var standande epter fyrer DROTTNE/ z gieck fram̃ fyrer hñ z sagde/
Abraham Villtu liflata þañ Riettlæta mz þeim Ogudliga? Ma vera þar fiñist fimtÿgu Riettlater j
bidur fyrer þm Stadnum/Villtu þa liflata þa/og þyrma ecke Stadnum/fyrer søkum þeirra fimtÿge Rett-
i Sodoma læta maña/ef þeir være þar? Fiarlægt sie þier þad/ad þu skuler þad giøra/ ad drepa þann
Riettlæta mz þeim Ogudliga/ad sa hiñ Riettlate verde lÿkur þeim Ogudliga/ Þad sie langt
fra þier/þu sem ert allrar Veralldariñar Domare/i onguan mata dæmer þu suo. Þa sagde
DROTTIN/Ef eg fiñ fimtÿge Riettlatra maña i þeim Stad Sodoma / þa vil eg fyrer
þeirra Skulld fyrergiefa þeim øllum Stødum.
Abraham suarade z sagde/Af þui eg hefe vm siñ vppbyriad ad tala vid DROTTIN/ D
þar sem eg er þo Dupt og Aska. Skie ma þar sieu fim̃ midur enn fimtÿger Riettlatra/villd-
er þu þa afma allan Stadin/vegna þeirra fim̃? Hñ sagde/Ef eg fiñ þar fim̃ og fiorutÿge/
þa mun eg ecke afma Stadiñ. Og hñ talade framar meir vid hñ/og sagde/Eñ ef þar fiñast
Fiorutÿger. Eñ hñ suarade/Eg vil eckert giøra þeim vegna þeirra Fiorutÿge Riettlætra.
Þa sagde Abraham/Reidst mier ecke DROTTIN þo eg tale eñ meira/ Eñ ef þar fiñ-
ast þriatÿge Riettlætra. Hñ suarade/ Ef eg fiñ þar þriatÿgu/þa vil eg eckert giøra þeim.
Og hñ sagde/Af þui eg hefe eitt sinn til tekid/þa vil eg tala vid DROTTIN. Eñ ef þar
fiñast tuttugu/Hñ suarade/Eg vil ei fordiarfa þa vegna þra Tuttugu. Og hñ sagde/Her-
ra/Reidst ecke þo eg tale enn eitt siñ/Eñ ef þar verda fundner tÿu. Og hñ suarade/Eg vil ec-
ke afma þa vegna þeirra Tiu. Og DROTTIN gieck j burt/ epter þessar Vidrædur vid
Abraham. Og Abraham for aptur til sijns Stadar.

## XIX.

AD Aptne komu tueir Einglar til Sodoma/Lot sat i Borgar hlide. Og er A
hñ leit þa/þa stod hñ vpp i mote þeim/og fiell fram̃ fyrer þeim til Jardar/z
sagde/Siaed/ Eg bid/Herrar/Komid jñ med mier i hws ydars Þienara/og
verid hier i Nott/z lætid þuo ydar fætur/so meige þid vera arla vppe/ z fer-
dast yckarn veg. Þeir søgdu/Nei/helldur vilium vid vera vte a Strætũ j nott
Ebre. 13 Þa neydde hñ þa miøg þar til/so þeir geingu jñ mz honum/og komu i hañ
Hws. Og hñ giørde þeim eina Maltÿd/og bakade osyrdar Køkur/ z þeir neyttu.
Enn fyrr eñ þeir føre i Sængur/þa komu Borgarmeñ Sodoma stadar/Vnger z Gam-
Synd og O- ler/allur Lydur af øllum ættum/og slou Hrÿng vm husid/vtkølludu Lot/ og søgdu til hans/
hæfu werk So- Huar eru þeir meñ sem komu til þÿn i Kuelld? Leid þa vt til vor/so vier meigum kieña þeirra.
domita Lot gieck vt fyrer Dyrnar til þeirra/og liet aptur Dyrnar epter sier/og sagde/Kiær bræ- B
dur/ giørid ecke suoddan Glæp. Sia/ Eg hefe tuær Dætur sem enn nu hafa ecke mann
þydst/eg vil leida þær vt til ydar/giørid vid þær huad ydur lyster. Med þui ad þier giørid



Num. 21. Deut. 3. HEsser eru þeir Konungar Landsins sem Israels syner slou/ og eignudust A
þeirra Lønd/ hinumeigen Jordanar i mot Austre/ fra þui Vatne Arnon/
og til Fiallsins Hermon/ z allt þat Vijdlendit i mot Austre. Sihon Kongr
Sihon Jabok þeirra Amoritarum sem bygde i Hesbon / huers Rijke ed var fra Aroer/ sem
liggur hia Arnon vats Backa/ z mitt i Vatned/ z yfer halft Gilead allt til
Vatsins Jabok/ sm er Landamerke Amon sona/ z yfer þat slietta Landed jn̄
til Sioar Cin̄eroth/ þar Austur/ z yfer þat slietta Lād til þess sallta Hafs i Austur/ a þn̄ veg
til BetJesimoth/ z fra Sudre til Lækiana Fiallsins Pisga. B

Og Num. 21. Deut. 3. Josu. 13. So og Kongsins Og Landamerke j Basan/ sem epter var af þm̄ storu Risū/ z bio i Asta
roth z Edrei/ og rijkte yfer Fiallit Hermon/ yfer Salka/ z yfer alla Basan jnn til fra Lands
merkia Gesuri z Maachati/ og Helftarin̄ar Gilead/ sm̄ var Sihon Kongsins af Hesbon Lā-
damerke. Moses Þienare DROTTens/ z Israels syner slou þa/ Og Moses Gudz þienare
gaf þra Land til eignar þm̄ sonū Ruben/ z sonū Gad/ z halfū Manasses Kijnþætte.

Ellefu og tuttugu Kongar slegner af Josua. Enn þesser eru Landsins Kongar sem Josua z Israels syner slou/ hinumeigin̄ Jordanar i C
mot Vestri/ fra Baalgad/ til Libani Fialls sliettu/ z til þess Fialls sem i sundurskilur Landit
vppi mot Seir/ z Josua gaf Israels ættkuijslū þ til eignar/ hueriū sin̄ part/ af þui sem var a
Fiollunum/ i Dolunum z so/ z a Morkinne/ hia Lækiunum/ z þa Eydemork i mote Sudre/
(þessar Þioder) Hethiter/ Amoriter/ Cananiter/ Phereseiter/ Heuiter og Jebusiter.

Kongurinn af Jericho/ Kongurin̄ af Ai sem liggur a hina sijdu Bethel/ Kongurin̄ af Je
rusalem/ Kongurinn af Hebron/ Kongurinn af Jarmuth/ Kongurinn af Lachis/ Kongurinn
af Eglon/ Kongurinn af Geser/ Kongurin̄ af Debir/ Kongurin̄ af Geder/ Kongurin̄ af Har D
ma/ Kongurinn af Arad/ Kongurin̄ af Libna/ Kongurinn af Adullam/ Kongurin̄ af Make-
da/ Kongurin̄ af Bethel/ Kongurin̄ af Thapua/ Kongurin̄ af Hepher/ Kongurin̄ af Aphek/
Kongurin̄ af Lasaron/ Kongurinn af Madon/ Kongurinn af Hazor/ Kongurin̄ af Simron
Meron/ Kongurin̄ af Achsaph/ Kongurin̄ af Taenach/ Kongurin̄ af Megiddo/ Kongurin̄ af
Kedes/ Kongurin̄ af Jachneam hia Charmel/ Kongurin̄ af Naphot Dor/ Kongurin̄ af Gil-
gal sm̄ var Kongur Heidingiana/ Kongurin̄ af Tirsa/ Og þ eru ellefu og tuttugu Kongar.

## XIII.



SEm Josua var gamall/ z miog a efra Alldr komin̄/ þa sagde DROTTenn A
til hn̄s/ Þu ert nu gamall/ og hnijgen̄ ad Alldre/ enn miøg mikid er epter af
Landenu ounned/ sem er/ allt Philisteis Land/ Galilea og allt Gesuri/ fra
Philister Siuor sem fellur fram̄ hia Egyptalande til Ebron Landamerkia/ mot Nord
re/ sem tilreiknast þeim Cananeis/ þeir sim̄ Høfdingiar Philistinorum/
sem er/ af Gasa/ Asdodt/ Ascalon/ Geth/ Echron/ og þr Auiter. En̄ Sudan
til er allt Land Cananeorum/ z Meara/ sm̄ heyrer til þeim Zidoniter jn̄ til Aphek/ til þeirra
Amoriters Landamerkia. Og þar til Land þeirra Gibliter/ og allt Libanon mot Austre/ fra
Baalgad nedan vpp at Fiallenu Hermon/ allt til Hamath. Aller þeir sem bwa a Fiollunū
fra Libanon/ z allt at þui varma Vatne/ z aller Zidoniter/ Þessa vil eg vtdrijfa fyre Israelis
Sonū/ En̄ þu legg a hlute/ z skipt þui a millū Israelis Sona/ so sem eg baud þier. B

Suo skipt þu nu þessu Lande til Erfdar a millum þeirra niju Kynkuijsla/ og a millū half
Skipte Landsins rar Manasse ættar/ Þui þr af Ruben z Gad hafa medteked þeirra Part/ med þeim ødrum
hælfum Kynþætte af Manasse/ sem Moses gaf þeim hinumeigin Jordanar j mot Austre/ lij-
Num. 32. ka sem Moses Herrans Þienare gaf þeim/ fra Aroer sem liggur hia Arnon Vats bockum/ z
Deut. 3. fra þeim Stad mitt i Vatnenu/ z øll Endemørk Medba/ allt til Dibon/ z allar Borger Si-
Josu. 22. hon Amoritis Kongs sem sat i Hesbon/ jn̄ til Landamerkia Amon sona. Þar til mz Gilead
og Gesur/ og Maachat Landamerki/ og allt Fialled Hermon/ z so allt Basan/ jn̄ til Salcha.
Allt Rijke Og i Basan sem stiornade i Astaroth/ og i Edrei/ sem nu var epter af Risunum.
Og Moses slo þa z i burt dreif þa.

Arfskipte þra sona Leui Num. 8. Jos. 12. 14. Enn Israels syner vtrymdu ecke þa Gessur og Maachata/ helldur þa biuggu þeir bæder C
Gessur og Maachat a medal Israels sona/ allt til þessa Dags. Enn Leuitunum gaf han̄
onguan̄ Arf/ þuiat DROTTENS Israels Gudz Forner var þra Arfleifd/ so sem hn̄ sag
de til þeirra.

Suo

Suo gaf Moses Ruben sona slekte/epter þeirra ættkuijslum/so ad þra Lãdamerke skylldu Arfskipte
vera fra Aroer/sem liggur a Amons Vatsbøckum/og þann stad mitt i Vatnenu/ med allre Sona Ruben
þeirre sliettu Mørk jñ til Medba/Nesbon z allar Borger s̄ liggia a þui sliettlende/Dibon/
Bamoth Baal/z Beth Baalmeon/Jachza/Kedemoth/Mephaath/Kiriathaim/Sibma/Ze
reth/ Sahar/a Fiollunũ j Bet Peor dal/z þa læke hia Pisga/z Beth Jesimoth/z alla Sta-
de a þeirre sliettu. Og allt Rijke Sihon þess Amorita Kongs/sem sat i Nesbon/sem Moses
slo/ mz þm Høfdingiũ af Madian/ Eui/Rekem/Zur/Hur z Rebæ/ Kong Sihon yppustu Balaam slei-
menn/sem biuggu i Laudenu. Og Balaam Spamann Beor son/ sem Jsraels syner slogu i gen i Hel
Hel mz Suerde/mz þeim ødrum sem slegner voru. Og Jordan var Ruben sona Landamer-
ke. Og þetta er Ruben sona Arfur/a millum þeirra Kynþætta/ Borger og Kauptun.
D Moses gaf Gad sona ætt/a medal þeirra Kynkuijsla Jaeser og allar Borger i Gilead/
og halfañ Part af Amon sona Lande/ allt til Aroer/sm̄ liggur i mot Rabbath. Og fra Nes Gad
bon allt til Ramath Mizpe/og Bethonim/ og fra Mahanaim allt til Debir Landamerkia.
Eñ i Dalnũ Betharam Bethnimra/Suchoth z Saphon/s̄ epter var af Kong Sihons Rij- Manasses
ke af Nesbon/ Og Jordã var þra Landamerke/jñ til Ciñerath Sioar enda/a þessa sijdu Jor Sona hlut
danar mot Austre. Þetta er Gad sona Arfleifd/og þra Kynkuijsla/ Borger þeirra z Kaup- skipte
tun.
Moses gaf halfre Manasses sona ættkuijsl/ epter þra Kynþættum/so at þeirra Landa- Josu. 17.
merke var fra Mahanaim/ allt Basan og allt Kongs Ogs Rijke af Basan/og aller Jairs Paral. 6
Stader sem liggia i Basan/sem eru sextijge Borger/og halfpart af Gilead/Astaroth/ Edrei
Ogs Konga Rijkis stader af Basan/ Þetta gaf hñ Sonum Machir sonar Manasse/ Þad
er Helmingurin̄ af Machir sonum/ epter þra ættkuijsl.
Og þetta er þad sem Moses vtskipte a Moabs Vøllum/ hinumeigen Jordanar / Austur Num. 18.
fra Jericho. Eñ Moses gaf Leui Kynkuijsl onguann Arf/ Þui DROTTEN Jsraelis
Gud er þeirra Arfur/sem hann sagde til þeirra.

## XIIII.

A ENN þetta er þad sem Jsraels syner hafa eignast i Canaans Lande / þat Skipte Land
sem Eleasar Kieñemadur og Josua son Nun/z þeir ædstu Fedur a medal sins mz Jsraels
Jsraelis Sona ættkuijsla vtskiptu a millum þeirra. Og þeir skiptu þui Sonum
mz hlutfalle a millum þeirra/so sem DROTTEN baud þeim fyrer Mo-
sen/at giefa þre halfre tiũdu ættkuijsl. Þui Moses hafde giefed half þrid-
iu Kynkuijsl sijna Arfleifd hinumeigen Jordanar. Enn hñ gaf Leuitunũ
onguañ Arf mz þeim/Þuiad þat voru tuær ættkuijsler/af Josephs sonum/ sem var Manasse
og Ephraim/Þui gæfu þeir Leuitunum onguañ part i Landenu/vtan Borger at bwa i/ og
B Forstade handa þeirra Godze og Fienade. Sem DROTTEN baud Mose/ suo giørdu
Jsraels Syner/z skiptu Landenu.
So geingu Syner Juda fram̄ til Josua i Gilgal/ og Caleb son Jephunne Kenisiter sag Caleb
de til hñs/Þu veist huad DROTTEN sagde til Mosen Gudz Mañs/vegna þijn z mijn Num. 13. 14.
i Kades Barnea. Eg var fiorutie æra gamall þa Moses DROTTENS Þienare vtsen Num. 14.
de mig af Kades Barnea/ad skoda Landed/og eg færda honum suar aptur epter miñe Sam-
uisku. Enn mijner Brædur sem geingu vpp mz mier tøldu ædru i Hiørtu Folksins/ Enn eg
fylgda DROTTNE mijnum Gude truliga.
C Þa soor Moses þañ sama Dag/z sagde/Þad Land sem þu giecksst a mz þijnum Footum/
þat skal vera þijn og þiña barna Erfd æfinliga/ Þui þu epterfylgder Gudi mijnum DROT
TNE truliga. Og sia nu/DROTTEN hefur lætid mig lifa sem hñ sagde. Eñ þat er
nu fim̄ og Fiorutijge Ar sijdan/at DROTTEN sagde þetta til Mosen/ þa Jsrael gieck i
Eydemorkinne. Og sia nu/eg er i Dag fim̄ z attatijge Aara gamall/z em eg a þessũ Dei-
ge so sterkur og hraustur sem eg var a þeim Deige/þa Moses vtsende mig/ Eins lijka og sem
miñ Mañskapr var þa/so er hñ eñ nu samur/til Bardaga/vtgøngu z jñgøngu. Þar fyrer
D gief mier nu þssa Fiallbygd/ s̄ DROTTEN talade vm a þeim Deige/þui þu heyrder þ a
þeim deige. Þui þeir Enachim bwa þar/z þar eru storer z sterker Stader/Ef ad DROT
TEN vill vera mz mier/ so eg meige vtdrijfa þa / so sem DROTTEN hefur sagt.

Hlutskipte Caleb Þa blessade Josua hn̄/og gaf Caleb syne Jephuñe Hebron til Arfs. Og suo vard Heb-
ron eign Caleb sonar Jephunne Kenesiter/allt til þessa Dags/þui hn̄ epterfylgde DROTT
NE Israels Gude mz allre Trygd. Eñ Hebron kalladist fyrr meir KiriathArba/ sem var
eiñ mikill Madr a millum Enachim/og Landit liet af Bardøgū.

# XV.

Hlutfall Juda  Nn hlutur þeirra Juda Sona ⁊ þeira ættkuïsla voru Edom Landsælfur/
til þeirrar Eydemerkur Zin i Sudur/og til endans a þui sydra Lande/Suo A
ad þeirra Landamerke i Sudur voru fra enda þess sallta Hafs / þad er fra
þeirre Tungu sem geingur i Sudurætt/ ⁊ geingur vt þar fra vpp i mote A-
krabbim/ ⁊ geingur i giegnum Zin/og rennur suñan at vpp aptur mot Ka-
des Barnea/og fellur i giegnum Hezron/ ⁊ geingur vpp ad Adar/ og beyger
sig i kriṅg Karkaa/og so i giegnum Asmon/og kiemr so i þañ Læk i Egiptalande/ ⁊ soad Sio
num/Þat eru ydar Landamerde j Sudur.

Eñ ydar Landamerke i Austur/er fra þui sallta Hafe ⁊ til Jordanar enda.

Eñ Landamerke j nordur/er fra Hassins Tungu/sem liggur vid Jordan/og geingur vpp
til Bethagla/og vïkur sier fra Nordre til BetAraba/ og kiemur sijdan vt til Ruben Sona
Steinboga. Og geingur vpp fra Akor Dal/til Debir/ ⁊ fra þeirre nyrdre sijdu mot Gilgal B
sem liggr þar þuert yfer til Adumim/nordanuert vid Vatned. Sijdan geingur þad til
Vatz/sem heiter Ensemes/og kiemur vt ad þeim Bruñe Rogel. Suo geingur þat vpp til
Hiñam Sona Dal/hia þeim Jebusiter/sem bwa j sudur/ þad er Jerusalem/og tekur þadan
vppa Tindana Fiallsins/sem liggur þuert fra Hiñam Dal/ og tekur jn̄ til Raphamis Dal/
j mot Nordre. Og so geingur þat fra sømum Fialls tindum/til Nephtoah Vats Kielldu/
og kiemur vt til þess stadar Fiallssins Ephron/ ⁊ beyger sig til Baala/þad er KiriatJearim.
Og geingur vm kring fra Baala mot Vestre/allt til Fiallsins Seir / og geingur vt mz Je-
arim Fialls sijdu nordan til/þat er Chessalon / og kiemur þar fra ofan til BethSemes/ ⁊
geingr i giegnum Timna/Og hleypur fram̄ hia Ebron sijdu/mot Nordre / ⁊ strecker sig til C
Sichron/og geingr yfer Baala Fiall/og kiemur vt til JabneEl/so ad Siorinn er heñar ende.

Enn þad stora Haf er Landamerke vestur fra. Þesse eru Juda Sonar landamerke/riett
vm kriṅg/i þra Kynkuïsslum.

Caleb Sonar Jephuñe partur var honum giefeñ a medal Juda Sona/ sem DROTT-
EN baud Josua/sem var KiriatArba Fødurs Enach/þat er Hebron. Og Caleb vtdreif þa
Hebron þria Syne Enach þadan/sem var Sesai/Ahimam/ ⁊ Thalmai/fædder af Enach. Og dro
Debir þar fra vpp til þeirra sm̄ biuggu i Debir/Eñ Debir hiet i fordum tijd Kiriat Sepher. Og
Caleb sagde/Huer sem kann at sla ⁊ vinna Kiriat Sepher/þeim vil eg gipta mijna Dotter D
Achsa Achsa. So vañ Athniel son Kenas/ sem var Brodurson Caleb þañ stad/Og sijdan gaf hn̄
Atniel honum sijna Dotter Achsa til Eigenkuiñu.

Eñ sem hun dro þar jn̄/var heñe rædlagt/ad hun skyllde beidast eins Akurlendis af sijnum
Fødur/og hun fiell af Asnanum. Þa sagde Caleb til heñar/Huad skadar þig? Hun sag-
de/Gief mier eina Blessan/þui þu gafst mier eitt Land i sudurætt/ Gief mier ⁊ nockra vpp-
sprettu Bruña. Þa gaf hn̄ heñe Vppsprettur bæde hid efra ⁊ nedra. Þetta er Arfleifd Juda
sona ættar a millū þra Kynkuïssla.

Og þessar voru Borger sona Juda ættar/fra þeim einum enda ⁊ til añars mots vid Edo-
miters Landamerke/i Sudurætt/Kaphseel/Eder/ Jagur/ China/ Dimona/Adada/ Kedes/ E
Hazor/Jtnan/Siph/Telem/Bealoth/HazarHadatha/KiriothHesrom/þ er Hazor/Amam/
Sema/ Molada/ HazarGadda/ Hesmon/ BethPaleth/ HazarSual/ BeerSeba/ BiSio
thJa/Baela/Jim/Azem/Eldolad/Kesil/Harma/Ziklag/Madmaña/San Sanna/ Leba-
oth/Silhim/Ain/Rimon/Þetta eru niu ⁊ tuttugu Borger mz þeirra Þorpum.

Eñ i Dallendinu var Esthaol/Zarea/Asna/ Sanoah/Enganim/Thaphua/Enam/Jar
muth/Adullā/Socho/ Asecha/Saeraim/Adithaim/Gedera/Giderothaim/Þesser eru þr fior
tan Stader ⁊ þra Þorp.

Zenam/Hadasa/Migdalgad/Dilean/Mizpe/Jaktiel/Lachis/ Bazekat/Eglon/Chabō/ F
Lah-

Lachman/Cithlis/Gederoth/ BethDagon/ Naema/Macheda/Þetta eru Sextan Borger/
og þra Þorp.
Libna/Ether/Asan/Jepthah/Asna/Nezib/Kegila/Achsib/Maresa/Þetta eru niu Bor-
ger/z þeirra Þorp. Echron mz hennar Dætrum og Þorpum. Fra Echron z til Hassins/
allt til Asdod/mz heñar Dætrū z Þorpū. Asdod mz heñar Dætrū z Þorpū. Gasa mz heñar
Dætrū z Þorpū/allt til Lækiarins i Egiptalande/Og þad mykla Haf er hēs Landamerke.
Enn a Fiallbygdū var Samir/Jathir/Socho/Daña/CiriathSanna/þat er Debir/A-
nab/Esthemo/Anim/Gosen/Holon/Gilo/Þetta eru ellefu Borger mz þeirra Þorpum.
G Arab/Duma/Esean/Janū/Bethaphua/Apheka/Humta/KiriathArba/þad er Hebron/
Zior/Þetta eru niu Borger z þra Þorp. Maon/ Charmel/Siph/Jutha/Jesreel/ Jakde-
am/ Sanoah/ Cain/ Gibea/Thimna/Þetta eru tiu Borger og þeirra Þorp. Halhul/
Betzur/Gedur/Maarath/Bethamoth/Eltechon/Þetta eru sex Borger z þra Þorp. Kiri-
athBaal/þad er KiriathJearim/Harabba/tuær Borger z þra Þorp.
Eñ i Eydemørku voru BethAraba/ Middin/ Schechacha/ Nibsan og sa Salltstadureñ (Jebusiter) Dauid vtdreiþ
Engeddi/ Þetta eru sex Borger z þra Þorp. þa sidan
Enn þeir Jebusiter biuggu i Jerusalem/og Juda syner gætu ecke vtdrifed þa. Suo biu- 2. Samu. 5
ggu þeir Jebusiter i Jerusalem/mz Juda Sonum/allt til þessa Dags.

## XVI.

A HLutfall Sona Joseph var fra Jordan i mot Jericho / allt til þess Vats sem Arfur Jo-
liggur i Austur fra Jericho/z su Heide sēm geingz vpp fra Jericho/i giegnum sephs Sona
fiallsbygder BethEl/z liggz fra BethEl til Lus/z geingz i giegnū Lādamer
ke Archiatharoth/og geingur so ofan i Vestur til Japhleti landamerkia/allt
B til hins nedsta Betron Landamerkia / og jnn til Gaser/og endast vid Hafed/
Þetta toku Syner Joseph Manasse og Ephraim/j Arfskipte.
Ephraim sona Landamerke/ epter þeirra Kynþættum/ þrar Arfleifdar/ i mot Austre/var Arfur Eph-
AtharotAdar/ allt til hinnar efre BetHoron/z geingur i Vestur fra Mikmethat/ sem liggz raims sona
C i Nordz/z þadan snyr sier þat aptur i Austur/til þess Stadar Taenachsilo / z geingur þar i
giegnum Austur til Janoha/Og liggur fra Janoha til Atharoth/ og Naaratha z liggz
vpp og tekur til Jordanar/og geingur fra Tapuah z vestur til Nahalkana/ og endast vid
Sio.
D Þetta er Arfleifd Ephraim sona Kynkuīslar/epter þeirra Kynþættū. Og allar Ephra
im sona Landamerkia Borger/mz þeirra Þorpum/lau til samans medal Arfs Manasses so-
na ættar. Og þeir rymdu ecke vt þa Cananeos sem biuggu i Gaser/ So voru Cananiter a
medal Ephraim allt til þessa Dags/og voru vnder þa skattgillder

## XVII.

A OG Hlutfalled fiell Manasse ættkuīsl/Þui hā var Joseph fyrste Son/og hlot
nadist Machir/fyrsta syne Manasses/Fødz Gilead/Þui hā var mikill Bar-
dagamadur/þar fyrer fieck hā Gilead og Basan. Þetta hlotnadist og þeim Manasse
ødrū Manasse sonū/ a medal þeirra Kynkuīsla/sem voru syner Abieser/syn- Num. 20.
er Helech/ Syner Asriel/ Syner Sechem/ syner Hepher / og Syner Semi
da/Þesser eru Syner Manasse sonar Joseph/ Kallkyns i þeirra ættkuīslum.
Eñ Zelaphehad Son Hepher/ sonar Gilead/sonar Machir/sonar Manasses/hafde on- Zelaphehad
gua Syne helldur Dætur/og þesse eru þeirra Nøfn/Mahala/Noa/Hagla/Milcha/Thir-
za. Og þær geingu til Eleasar Kiennemañs/og til Josua Sonar Nun/og til Høfdingiaña
og søgdu/DROTTEN baud Mose ad hā skyllde giefa oss Arfleifd a medal vorra Bræd-
B ra. Og þeim var giefen Arftekia a medal siña Fødurbrædra/epter DROTTENS bi-
falningu.
Og þar hlotnudust tiu Mæle vader Manasse/fyre vtan Gilead Lād og Basan/ ē liggz a
hina sijdu Jordanar. Þuiat Manasse Dætur feingu Erfd a millum hēs Sona/z þr adrer
Manasse Syner feingu þ Land Gilead.

Eñ Manasse Landeign var fra Asser til Mikmethat sem liggur fyrer Sethem/ z geingur
vt vpp a hægre sijdu til þeirra sm̄ bwa i Entapuah/ Þuiat Manasse fieck Taphuah Lād/
og er Landamerke a mille Manasses z Ephraim. Sijdan ganga þau i Sudur til Nahal-
Kana/ ad Vats stødunum sem heyra Ephraim til/a millum Manasses Stada. Enn i nor-
dur eru Manasses Landamerke til Lækiarins/og endast vid Sioiñ/So ad Ephraim er i sudr E
og Manasse i Nordur/Og Sioriñ er þra Landamerke/ Og liggr ad þeirre nyrdre sijdu jñ til
Asser/Enn a þa eystre sijdu til Jsaschar.

So hafde nu Manasse a medal Jsaschar z Asser/Betseam Borg/mz hennar Dætrum/
Jeblaam mz hennar Dætrum/og þeir sem biuggu i Dor med heñar Þorpum / og Endor mz
heñar Þorpum/ og þeir i Thahanah mz heñar Þorpum/og þeir i Megiddo med heñar Þor-
pum/og þridie partur af Naphet. Og Manasse Syner gætu ecke jnnteked þessar Borger/
Cananiter Eñ þeir Cananiter toku til ad bwa i þui Lāde. Eñ þa Jsraels Syner vrdu megtuger/ þa
giørdu þeir þa Cananiter skattgillda vnder sig/ z vtrymdu þa ecke.

Þa tøludu syner Joseph til Josua/ z søgdu/ Nuar fyrer hefur þu ecke giefed mier vtan eiñ
hlut og eiñ Erfdarþætt? enn eg er so miøg fiølmennur/so sem DROTTJN hefur blessad D
mig. Þa sagde Josua til þeirra/Fyrst þu ert fiølmeñur/þa far vt i Skogana/ad rydia þa i
Lande þeirra Pheresiter og Risana/fyrst at Ephraim Fiall er þier ofþraungt.
Jud. 1. Þa søgdu Syner Joseph/Vier faum ecke þad Fiall/þuiat aller Cananiter s̄ bwa i læg-
lende Landsins hafa jarnbwna Vagna/i hueriun Betsean og heñar Dætur liggia/og Jez-
rehel i Dølunum. Josua sagde til Josephs Nws til Ephraim/og Manasse / Þu ert eitt
miket og megtugt Folk/ z fyrst þu ert so stor/þa skallt þu ecke hafa eiñ Nlut/ helldr skal Fiall
id heyra þier til/þar Skoguriñ er/høgg þu hñ vpp/ Og þat skal vera ender a þijnu Lāde/þa
þu hefur vtrymt þa Cananiter/þeir sem Jarnbwna Vagna hafa/og eru Megtuger.

## XVIII.



Saktmals Arcken vpp reist i Silo

OG allur Almwge Jsraelis Sona kom til Samans i Silo / og vppreistu þar A
Vitnisburdarins Tialldbwd/og Lādit var þeim vndergiefed. Eñ þar voru
þa eñ siø ætter Jsraelis sona/hueriū þa var onguo til Erfda skipt. Og Josu-
a sagde til Jsraels sona/Þui eru þier so leinge omenskufuller/ad þier farid ei
at eignast Lādit/þ sem DROTTEN ydra Fedra Gud gaf ydur? Vtuel-
ied ydur þria Menn/ af sierhuerre ætt/ so eg meige senda þa þāgad/at þeir
meige tilreida sig at fara i giegnum Landit/og vppskrifa þat epter þeirra Arfleifd/ og koma
so til mijn aptur

Skiptid Landenu i siø parta/Juda skal blijfa i sijnu Takmarke/a þa Sydre sijdu/ z Jo-
Num. 18. sephs Nws skal blijfa i sijnu landamerke i mot Nordre. Eñ þier skulud vppskrifa þa siø par
Deut. 18. ta i Landenu/og færid mier þad Skrif/so vil eg leggia a hlute fyrer DROTTNE vorum
Gude. Þuiad Leuitarner hafa onguañ part a medal ydar / Nelldur er DROTTENS B
Kiennemansskapur þeirra Arfleifd. Gad og Ruben z halfpart af Manasse ætt hafa fein
gid sinn hlut/hinumeigen Jordanar i mot Austre/sem Moses Gudz Þienare gaf þeim.

Epter þetta toku Meñerner sig vpp/ z foru af stad. Og Josua bifalade þm ad fara þā-
gad/og vppskrifa Landit/og sagde/Farid og reised i giegnum Landit/og skrifed þat vpp/ z ko-
mit til mijn aptur/so eg meige hier i Silo kasta ydar hlute fyrer DROTTNE. Sijdann
foru þesser meñ af stad/og geingu i giegnum Landit/og vppskrifudu þad a einu Briefe/i siø
parta epter Borgunū/ z komu aptr til Josua i herbudernar i Silo. Sijdā lagde Josua hlute
millum þeirra fyrer DROTTNE/i Silo/og vtskipte þui Lande a millum Jsraelis Sona
huerium sitt hlutskipte.

Arfskipte BenJamin Sona

Og hlutfall fiell sonū BenJamin ættar/epter þeirra Kynkuijslum/og Landamerke þeirra
hluta gieck a millum Sona Juda/og Josephs Sona. Og þeirra Landamerke voru i Nor-
nid a mot Nordre fra Jordan/ z geingu af Nordre vpp hia Jericho/ z geingr þar fra i Vest-
ur vpp til Fiallaña/ z geingr vt til Eydemerkr BethAuen. Og geingr þar fra til Lus/ z gein C
gr fram hia Lus mot Sudre/ þat er BethEl/ z liggr ofan til AtarothAdar/hia Fiallenu sem
liggur i Sudur vpp til þess Stadarins nedra BetNoron. Sijdan beyger þat sig/ z snyr sier
ad þui Landhorne/sem liggur i Sudur fra Fiallenu/ huert ad liggr i mot sudre/ þuert yfer fra
Beth

BetNoron/ og endast vid KiriatBaal/ þad er/ KiriatJearim/Stadur sona Juda/ Og þ er
þad Vestra Hornit.
Eñ þat Horn mot Sudre er fra KiriathJearim/og geingur j Vestur/ z kiemur vt til Ne-
ptohah Vats vppsprettu. Og geingz nidur til enda Fiallsins/og liggur þuert yfer fra Hi-
ñam sona Dal/ huer ad liggur i Dal Raphaim mot nordre/og geingur þadan i mot Sud-
re/ mitt i giegnum Hinnam Dal hia þeim Jebusitis / og þar fra vt til Brunns Rogel.
Og dregur sig fra Nordre/ z kiemur vt til EnSemes/ og hleypur vt til þeirra Næda/ sem
liggia vpp epter þuert yfer fra Adumim/og geingz nidur til Ruben sona Steinboga. Og
D fellur sijdan suñann vert hia sliettlende sem liggz i nordz. Og kiemz fra þre sliettu Markr
Og geingur vpp mz sijduñe hia Bethagla nordan vert/ z endist hia Tungunne þeirre s skerst
i þañ sallta Sio i Nordur hia Jordan j Sudz ætt/Og þta er þad sydra Landamerke.
Eñ Jordā skal vera ender a þui eystra Lādshorne. Þetta er BenJamin sona Arfleifd/i
þeirra Landamerkium rieff vm kring/ medal þra Slecktis.
Þessar eru Borger BenJamin sona ættar/a mzal þeirra Kynkuñsla/Jericho/Bethagla/ Joh. 2.
Emekkeziz/ BethAraba/Zemaraim/ BethEl/Auin/Hapara/Ophra/KapharAmonai/Ap-
hni/Gaba/Þad eru tolf Borger mz þra Þorpū. Gibeon/Rama/ Beeroth/Mizpe/ Caphi-
ra/Moza/Rechem/Jerpeel/Thareala/Zela/Eleph/og þeir Jebusiter / þad er Jerusalem/ Jerusalem
Gibead/Kiriad/fiortan Borger mz þeirra Þorpum/ Þetta er BenJamin Erfd i þra Kyn-
kuñslum.

# XIX.

A EPter þetta fiell sa annar hlutur ættkuñsl sona Simeon/epter þra Kyn- Arfur Sona Simeon
kuñslum/og þeirra Erfd var mz erfd þeirra Sona Juda. Og þeir feingu
til Erfdar/Beerseba/ SebaMolada/ NazarSual/Bala/ Azem/Elthol-
ad/Bethul/Harma/ Zichlag/ BethMarcaboth/ NazerSussa/ Betleba-
ot/Saruhen/þad eru þrettan Borger og þeirra Þorp. Ain/Rimon/Eth-
er/Asan/þad eru fiorar Borger z þra Þorp. Þar til mz aller þeir Bær s
liggia vm kring þssar Borger jñ til BaalatBeerRamath mot Sudre. Þetta er Arfleifd
sona Simeon j þeirra Kynkuñslum/ Þuiat Simeons sona Arfleifd er a millum Juda sona
Arfleifdar/ Fyrer þui at Juda sona Erfd var þm ofstor/þar fyrer erfdu syner Simeon a mz-
al þeirra Arfleifda
Sa hinn þridie hlutur fiell sonum Sebulon epter þeirra Kynkuñslum/ Og Lādamer- Arfur Sona
ke þeirra Erfdar var til Sared/ z geingz i vestur til Mareala/ z tekur jnn til Dabaset/og til Zebulon
þess Lækiar sem hleypur til Jachneam. Og beyger sig fra Sared mot Austre / jñ til Cyslot
Thabor Landamerkia/og hleypur vt til Dabrat/og vpp til Japhia. Og þar fra i Austur
i giegnum Githa/Hepher/Jtha/Kazin/ z kiemur vt mot RimonMithar og Nea/ Og geingz
Nordan i kring til Nathon/ og endist i JephthaNel Dal/ Nehalal/ Simron/ Jedeala z
B Betlehem/ Þad eru tolf Stader mz þeirra Þorpum. Þetta er Sebulon sona Erfd mz þeirra Bethlehem
Kynslod/ z þra Borgum z Þorpum. i Sebulon
Sa hiñ fiorde Hlutz fiell sonū Jsaschar/epter þra ættkuñslū. Og þeirra Landamerke var/ Arfur Sona
Jesrehel/Kesulloth/Sunem/Hapharaim/ Sion/Anaharat/Rabit/Kiseon/Abes/ Remeth/ Jsaschar
Engañem/Enhada/ Beth Pazez/Og tekur allt til Tabor/Sahamina/Betsemes/og hennar
ender hia Jordan/sextan Stader z þeirra Þorp. Og þetta er Jsaschar Sona Erfd i þra
Kynþættum/ Stader þra og Bær.
Eñ fimte hlutz fiell sonū ættar Asser/ epter þra Kynkuñslū. Og þra Lādamerke var Helk Arfur Sona Assur
ath/Hali/Bethen/Achsaph/Alameleck/Amead/Miseal/ z tekz vt til Carmel hia Hafenu/ z
til SipharLibnath/ og snyr sier i Austur mot BethDagon/og tekur ad Sebulon/ z til Jeph-
thahel Dals mot Nordre/ Bethemech/Negiel/ z geingur ad Chalub/ a þa vinstre sijdu/E-
bron/Rehob/Hamon/Cana til þss stora Stadar Sydon. Og snyr sier vpp mot Rama/til þss Cana
fasta Stadar Zor/ og vendar sier til Hossa/og endast vid Hafed/epter þeim Mæler/til Ach- Zidon
sib/Vma/Apheck/Rehob/tuær og tuttugu Borger/og þeirra Þorp/Og þetta er Asser Sona Zor
Arfskipte/mz þra Kynkuñslū/ Borgum z Þorpum.
C Enn siøtte Hlutur fiell Sonum Nephthalim/og þeirra ættkuñslum/ Og þra Landamerke Arfur Sona
voru fra Heleph/Elon/i giegnū Zaenañim/ AdamiNekeb/ JabneEl/jñ til Lachim/ z endast Nephthali

hia Joran. Og snyr sier mot Vestre/til Asnoth/Thabor/og geingur þar fra/ til Hukoth/
og tekur sudur til Sebulon/ ⁊ til Asser/mot Vestre allt til Juda/hia Jordan mot Austre. Og
hefur þessa fasta stade/ Zidim/Zer/ Hamath/Rakath/Kinnarah/Adama/Rama/Hassor/
Kedes/Edrei/Enhazor/Jereon/Migdalel/Harem/Bethanath/ Betsamet/ nitian Borger ⁊
þeirra Þorp. Og þetta er Nephthali sona Erfd/og þeirra ættar/i þra Kynkuijslū/Stader
og Þorp.

Arfur Sona Dan

Sa siounde Hlutr fiell Sonum Dan/epter þra Kynkuijslum/ Og þra Arfleifdar Landa
merke var/Zarea/Esthaol/Irsametz/Saelabim/Aialon/Jethla/Elon/Thimnata/Ekron/
Eltheke/Gibeton/Baalat/Jehud Bnebarak/Gathrimond/Meiarchon/Rachon/mz þm Lā- D
damerkiū mot Japho/Og þar endast Landamerke Sona Dan. Og Syner Dan drogu vpp
ad strijda i mot Lesem/vnnu hana og slou mz Suerds Eggium/og eignudust Borgena/⁊ biu-
ggu i heñe/og kølludu hana Dan/epter þra Fødurs Nafne/Og þetta er Arfleifd sona Dan
epter þeirra Kynkuijslum/ Borger ⁊ Kauptun.

Hlutskipte Josua

Eñ ẽ þr høfdu vtskipt Landenu/ mz sijnū Vmmerkiū/ þa gæfu Israelis syner Josua sy-
ne Nun eina Erfd a medal þeirra. Og þeir gæfu honum þañ Stad epter Gudz bifalnin-
gu/sē hñ sialfur Girntist/ẽ var ThimnatSerah/a Ephraim Fialle. Þar bygde hñ Borg
og bio þar.

Þesse eru þau Arfskipte sem Eleasar Prestur ⁊ Josua son Nun ⁊ þeir ædstu Fedr a med-
al ættkuijslañа/skiptu mz Hlutfalle a nijal Israels sona/ i Silo/ fyrer DROTTNE/fyre
Tialldbudarinnar Vitnisburdardyrum/ ⁊ so endudust þesse Landsins skipte.

## XX.

Frelsis stader
Num. 25.
Deut. 19.
Exod. 25.

DRottenn talade vid Josua/og sagde/Seig þu til Israelis Sona/Skicked þa A
frelsis Stade i millum ydar/ vm hueria eg talade til ydar fyrer Mosen/
þangad sem eiñ Mañslagare ma flyia /sa sem nockurn slær i hel/oviliande/
og ouitande/so þr meige vera frij a millum ydar fyrer Epternialsmañenū.
Og sa sem flyr til einhuers þeirra Stada/hñ skal standa fyrer vtan Stadar
Portid/ ⁊ opinbera þar sijna Søk/fyrer Alldungunum Stadarins/Sijdan B
skulu þeir taka hñ jnn i Stadinn til sijn/og giefa honum rwm/suo hñ meige bwa hia þeim.
Og þa Blodhefnarinn fer epter honum/ þa skulu þeir ecke framselia þeñan Veganda
i hañs Hendur/fyrst hañ slo sinn Naunga i hel oforuarad/ og var ecke hñs Ouin. Suo hñ
skal bwa i þeim sama stad/þar til at hñ hefur stadit sinn Riett fyr Almuganum/ þar til sa
ædste Kiennemadur Andast/ sem þa er þann sama tijma/ Epter þad skal Vegandeñ ko- C
ma i sijna Borg aptur/⁊ til sijns Hwss/til þess stadar sem hñ ædur fra flwde.

Hebron
Jericho

So helgudu þr Kedes i Galilea/a Fiallbygdū Nephthali/⁊ Sechem a fialle Ephraim/⁊
KiriathArba/sem er Hebron a Fiallenu Juda. Og hinumeigen Jordanar Austur fra Je-
richo/gæfu þeir Bezen i Eydemørku/a sliettlende af kyne Ruben/⁊ Ramoth i Gilead af ætt D
Gad/og Golam i Basan af ætt Manasse.

Þesser voru þeir Stader sem skickader voru fyrer alla Israels sonu/og so fyrer þa Fram-
ande sem biuggu a millum þeirra/ so ad sa skyllde flyia til einhuers af þeim/ ẽ nockurn haf-
de sleiged i hel ofyrersyniu/so hñ skyllde ecke deyia/fyrer Blodhefnaranum/ fyrr enn hañ hefde
stadit fyrer Almuganum

## XXI.

Num. 35.
Deut. 19

EPter þetta geingu þeir ædstur Fedur a medal Leuitanna fram/ til Eleasar A
Kieñemans ⁊ til Josua sonar Nun/⁊ til þra yppustu Fedrana/mzal ættkuij
sla Israels sona/ ⁊ tøludu vid þa i Silo/ i Ladenu Canaā/⁊ søgdu/DRO-
TTIN baud fyre Mosen/ad oss skylldu giefast Borger ad bwa vti/⁊ þra
Forstader fyrer vort Kuikfie. Þa Gæfu Israels Syner Leuitønum af sijnu
Arfskipte/so sem DROTTEN hafde boded/þssar Borger ⁊ þeirra For-
stade.

Kahath

So fiell Hluturinn Kahatiters ætt/og Syner Aaron Kiennemañs af Leuitønum/ feingu
Þrettan borger/mz hlutfalle af Juda ætt/af Simeon ætt ⁊ af BenJamin ætt. Eñ þeir ad-
rer Sy-

rer syner Kahath af sama slekte feingu tuttugu Stade epter hlutfalle af Ephraim ætt/ af ætt
Dan/ z af halfre Manasse ætt
Eñ syner Gerson af sømu Kynkuijsl/ feingu epter hlutfalle/ þrettan Borger/ af Kyni Is= Gerson
aschar/ af kyne Asser/ z af Kyne Nephthali/ og af halfu Kyne Manasse i Basan
Og Merari sona ætt fieck tolf Borger/ af ætt Ruben/ af ætt Gad / og af ætt Sebulon. Merari
So gafu nu Israels syner Leuitønum/ epter hlutfalle þessar Borger/ og þeirra Forstade/
s̄ DROTTEN hafde bodit fyrer Mosen. Af ætt Sona Juda/ og af ætt Sona Simeon
gafu þeir sonum Aaron þessar Borger med nafne/ sem voru Kahathita ættar / af Sonum
Leui/ þuiad sa fyrste hlutur var þeirra. So gæfu þeir þeim KiriathArba/ sem heyrde Fødur
Enak til/ þ er Hebron/ a Fialle Juda/ z heñar Forstade i kring vm hana. Og þr gæfu Ca= Caleb
leb syne Jephunne Akrana/ z þau Þorp i kringum Borgena honum til eignar
B So gæfu þeir sonum Arons Prests þær athuarfs Borger fyrer Mannslagarana/ Hebrō
og heñar Forstade/ Libna z hennar Forstade/ Jathir og hennar Forstade/ Estmoa z heñar For
stade/ Holon z heñar Forstade/ Debir og hennar Forstade/ Ain og heñar Forstade/ Jura og
henngr Forstade/ Betsemes og hennar Forstade/ niu Stade af þessum tueimur ættum. Enn
þr gæfu þm fiorar Borger af BenJamin ætt/ Gibeon z hennar Forstade/ Geba og hennar
Forstade/ Anathot z hennar Forstade/ Geba og heñar Forstade/ Almon og hennar Forstade.
So ad allar Borger sona Aron voru þrettan mz sijnum Forstødum. Kahath
Enn þeir adrer Cahath sona Kynþætter af Leuitunum/ feingu i siñ Hlut fiorar Borger/
af Ephraim ætt/ og þeir gæfu þm frelsis Borgernar Manslagarans/ Sakim og heñar For=
stade/ a Ephraim Fialle/ Geser og heñar Forstade/ Kibzaim og hennar Forstade/ BetHoron
og heñar Forstade. Af ætt Dan fiorar Borger/ Elteki og heñar Forstade/ Gibeon z hennar
Forstade/ Aialon z hennar Forstade/ z Gatrimon z heñar Forstade. Af hælfū parte Ma=
nasses slektis tuær Borger/ Thaenak/ z hennar Forstade/ Gatrimon z heñar Forstade. So
ad allar þær adrar Kahatz sona ættar Borger/ voru tiu mz þra Vnderborgū.
C Og þeir gæfu sonum Gerson af ætt Leui/ tuær Borger af hælfum parte Manasse ættar Gerson
þa athuarfs borg fyrer Mannslagarana/ Golan i Basan og hennar Forstade/ Beesthra og
hennar Forstade. Af Isaschar ætt fiora stade/ Kision og hennar Forstade/ Dabrath og heñ=
ar Forstade/ Jarmuth og hennar Forstade/ eñ Ganim og hennar Forstade. Af ætt Asser
fiora Stade/ Miscal og hennar Forstade/ Afdom og heñar Forstade/ Helkath og hennar For=
stade/ Rehob og heñar Forstade. Af ætt Nephthali þriar Borger/ þa Frelsis borg Kedes/
fyrer Manndraparana/ i Galilea og hennar Forstade/ HatmothDor og hennar Forstade/
Karthan z heñar Forstade. So ad allar þær Gersonita ættar Borger voru þrettan mz sijnū
Vnderborgum.
Eñ þeir adrer Leuitar sem voru af Kyne Merari sona/ þeim voru giefnar fiorar Borger/ Merari
af ætt Sebulon/ Jakneam mz hennar Vnderborgum/ Kartha mz hennar Vnderborgū/ Dim
na med hennar Vnderborgum/ Nahalal med hennar Vnderborgum. Af ætt Ruben fiorar
Borger/ Bezer og heñar Forstader/ Jahza z hennar Forstader/ Kedemoth og hennar Forsta=
der/ Mephaath z heñar Forstader. Af Kyne Gad fiorar Borger/ Mañslagarans athuarfs
D borg/ Ramoth i Gilead/ z hennar Forstader/ Mahanaim og hennar Forstader/ Hesbon z heñ
ar Forstader/ Jaeser og hennar Forstader/ so ad allar Merari sona borger a millum þeirrar
ættar/ af þeim ødrum Leuitum voru tolf/ sem þeir feingu epter þeirra Hlutfalle. Allar Leui 48. Leui=
tanna Borger a medal Israels sona Arfs voru ætta og Fiorutijge mz sijnum Vnderborgū. ta Borger
Og huer af þessum Borgum hafde sinn Forstad vmhuerfes sig/ so eiñ s̄ añar.
So gaf DROTTIN Israel allt þ Lād sem hñ hafde suarid ad giefa þeirra Fedrum/ z Gen. 13.
þeir eignudust þ og bygdu þ. Og DROTTEN gaf þeim huijld allt vm kring fyrer øll= 15. 17. 28.
um/ so sem hñ soor þeirra Forfedrum/ og einginn af þeirra Ouinum gat stadid þeim i mot/ Gud helldur
helldur gaf hñ alla þeirra Ouine i þeirra Hendr. Og þar brast ecke neitt af øllu þui goda/ syn Ord
sem DROTTEN hafde lofad Israels Hwse/ þ kom fram allt saman.

## XXII.

A HA kallade Josua þa sonu Ruben og þa sonu Gad z hælfann Kynþætt Manasse Num. 32.
ættar/ og sagde til þeirra/ Þier hafed halldit allt þad sem Moses Gudz Þienare Deut. 5.
baud ydur/ og hafed hlytt mijnū Ordū/ i øllu þui s̄ eg hefe bodid ydur. Þier hafed Josu. 12.

og ecke yfergiefed ydar Brædr j lāgañ tijma/allt til þessa Dags/ og hafed skickad ydur epter
DROTTENS ydars Gudz Bode. Og nu sokum þess/ad DROTTIN ydar Gud he
fur giefed ydrum Brædrum huijld/sem hñ þeim lofade/Þa huerfed aptur til ydra Tialldbw-
da j ydar Erfda Lande/ s̄ Moses Guds þienare gaf ydr hinumeigen Jordāar.
Enn alleinasta halldid þat mz allre Giætne/ad þier giøred epter þeim Bodordum ꝛ Løg-
Deut. 10 gū/s̄ Moses DROTTINS þienare baud ydr/Ad þier elsked DROTTIN ydʳ Gud/ꝛ B
gāged i hñs Vegum/geymid hñs Bodord og halldid ydr ad honum af øllu Hiarta og af allre
Sælu. Suo blessade Josua þa og liet þa fara/Og þeir foru i burt til sinna Tialldbwda.
Moses hafde giefed hælfū Kynþætte Manasses ættar til eignar/ Basā/þm ødrū Hel-
Num. 32. minge gaf Josua þssu meigen Jordanar i Vestr a medal þra Brædra. Þa hñ liet þa fara
Josu. 13. til sinna Tialldbwda/og hafde blessad þa/ sagde hñ til þeirra/Þier komid nu heim aptur til
1. Reg. 30. ydra Tialldbwda mz myklum Audæfum mz mikit Fie/ Silfur/Gull/ Kopar/Jarn og Klæde/
So vtskiptid nu þessu hinu sama ydar Ouina Herfāge med ydrum Brædrum. Suo sneru
þr Rubenitae/Gadditae/ half Manasse ætt aptur/og skildu vid Israels Sonu i Silo/ huer
ad liggr i Canaā Lāde/og foru i Lād Gilead/til sijns Erfdalāds/huert þeir høfdu feingid at
Erfd/epter DROTTENS bifalningu fyrer Mosen.
Enn þa þeir komu til þeirra Steinhæda hia Jordā/sem liggia i Canaan lāde/ þa bygdu E
þeir enu somu Rubenitae/Gadditae/og half Manasse ætt/ þar hia Jordan eitt myked pryde-
ligt Alltare. Enn þa Israels syner þad heyrdu/søgdu þeir/Siaed/syner Ruben/ syner Gad
og half Manasse ætt hafa bygt eitt Alltare gagnuart Canaan Lāde/ hia þeim Steinhrwgū
vid Jordā/a þessa sijdu vid Israels Sonu. Sijdā søfnudust þeir saman i Silo/ mz øllum
Almuganum/ suo ad þeir fare vpp i mote þeim mz Her. Og sendu til þeirra i Gi
Phineas lead lād Phineas son Eleasar Kennemañs/og mz honum tiu af þeim ædstum Hødfingium af
þeirra Fødurs Hwse/eiñ af hueriu Israelis kyne. Og sm̄ þeir fundu þa i Gilead lāde/tølu-
du þeir til þra ꝛ søgdu/Allur DROTTINS Almnge lætur suo seigia ydr.
Num. 25. Huar fyrer hafe þier syndgast i mote Israels Gude? Ad þier snerud ydr i Dag fra yd- D
rum DROTTNI/mz þui ad þier bygdut ydr eitt Alltare/ꝛ fiellut so fra DROTTNI/
Eda eru Peor Misgiørder oss oflitlar/af huerium vier erum ecke eñ hreinsader a þessū deige/
ꝛ þar kō ein Plaga yfer Gudz Almuga/ Og þier snued ydr i Dag fra Veige DROTT-
Josu. 7 INS/og erut fallner a þessum Deige fra ydrum Gude/So ad hñ i Dag edr a Morgun/ er
reidr vppa allann Israels Søfnud. Ef ydr þiker at ydart eigid Lād sie ohreint/ þa komed
yfer i þetta Land DROTTINS/ þar sem Gudz Tialldbwd stendur/ og taked ydarñ
Erfdar part a medal vor/og falled huerke fra DROTTNI nie fra oss/ so þier bygged ydr
eitt Alltare/annad helldr eñ DROTTINS vors Gudz Alltare. Syndgadist ecke Achan
son Serha a þui Bannfærda/og þui kom Gudz Reide yfer allann Israelis Søfnud/suo hñ
gallt ecke alleina sijns Misgiørnings.
Þa suørudu Syner Ruben og Syner Gad og half Manasse Kynkuijsl/og søgdu til E
Hofdaña ꝛ høfdingia Israel/DROTTIN sa sterke Gud/DROTTIN sa sterke Gud
veit þ/Suo veit þ Israel/Ef føllum vier fra/eda misgiørum vier i mot DROTTNI/þa
hialpe hñ oss ecke a þessum Deigi/Ef vier bygdum þ Alltare þar fyrer/ad vier villdum snua
oss fra DROTTNI/ad offra Brenneoffre eda Matoffre þar yfer/eda ad færa Þacklætis
offur þar a fyrer DROTTNI/Þa vtkrefie hñ þess/Og høfum vier ecke Helldr þ giørt fy
rer vmhyggiu saker/seigiande/Ydar Syner meiga seigia til vorra Sona/i Dag edr a Mor-
gun/Huad hafe þier ad giøra/mz DROTTIN Israelis Gud? Þuiad DROTTIN
hefur sett Jordā til Lādamerkia a medal vor ꝛ ydar/ sona Ruben og Gad/ þier hafed eckert
Hlutskipte i DROTTNE/ Þar mz mættu ydar syner vijsa vorū sonū fra Otta DRottens.
Vitnisburdar Alltare Þui søgdum vier/Lætum oss byggia eitt Alltare/ecke til Offurs/ eige helldr til Breñefor- F
na/ helldr ad þ sie eiñ Vitnisburdur a millum ydar og vor og vorra Epterkomenda/ ad vier
meigum giøra Gudz Þionustu fyrer honum/med vorum Brennefornum/Þackaroffre/ ꝛ ødrū
Fornfæringum/So ydar syner þurfa ecke ad seigia til vorra sona/i Dag edr a Morgun/Þier
hafed eckert hlutskipte j DROTTNI. Nær þeir vilia suo seigia til vor/ eda til vorra
Epterkomenda/i Dag edr a Morgun/þa meiga þeir seigia/Siait lijking DROTTINS
Alltaris/sem vorer Forfedur giørdu/eige til Offurs nie til Brennefornar/helldr til eins Vit-
nisburdar a millum vor og ydar. Þad sie lāgt fra oss/ad vier skylldum falla fra DROT-
TNI/ad vier villdum snua oss i Dag fra honum/og vppbyggia oss eitt Alltare til breñefor-
nar/og

nar/og til Matoffurs/og til annara Forna/fyrer utan DROTTINS vors Gudz Alltare/huert at stendr fyrer hñs Tialldbwd.

G. Eñ þa Phineas Kieñemadr/ ⁊ þr ædstu Almugans Høfdingiar i Jsrael sm̃ voru mz hm̃ heyrdu þsse ord s̃ syner Ruben ⁊ Gad ⁊ Manasse søgdu/ þa lijkade þm þ vel. Og Phineas Son Eleasar Kiennemanns/sagde til sona Ruben/ Gad ⁊ Manasses/ J Dag merkium vier ad DROTTIN er a medal vor/ ad þier hafed ecke syndgad a mote Gude j þessum Misgiørninge/Nu hafe þier frelsad Jsraelis sonu af hende DROTTINS.

So ferdadist Phineas Son Eleasar Kieñemanns og þeir yppøstu/af Lande Gilead/ fra sonũ Ruben og Gad/ yfer um̃ aptur i Canaan Land/til Jsraels Sona/ ⁊ kuñgiørdu þm allt þetta. Enn Jsraels Sonum þocknadist þad vel/og lofudu Gud Jsrael/ ⁊ søgdust ecke meir vilia draga upp i mot þeim med Herlid til ad fordiarfa þad Land/sem Syner Ruben ⁊ Gad biuggu uti. Og Syner Ruben og Gad kolludu þad Alltare/ Þad sie Vitnisburdur a millum vor/og ad DROTTIN er Gud. Vitnisburdar Alltare.

## XXIII.

A Langum tijma epter þta/ þa DROTTIN hafde veitt Jsrael Næder fyrer øllum sijnum Ouinum allt j kriñg/og Josua var nu ordinn gamall/ ⁊ hniñgenn a efra alldur/ þa kallade hñ til samans allañ Jsrael/ ⁊ þeirra ellstu Olldunga/ Domendr og Embættis meñ/og sagde til þeirra/ Eg er nu gamall ⁊ miøg a efra alldr komiñ/ og þier hafed sied allt huad DROTTIN ydar Gud hefur giørt vid þetta Folk hier fyrer ydr/ Þuiat DROTTIN ydar Gud hefur sialfur strijdt fyrer ydr. Siaed/eg hefe skipt mz ydr þui Folke sem epter er/til erfdar/sierhuerre Kynkuijsl sinn Arf fra Jordan/og øllum Þiodum sem eg hefe utrymt/ og Vestur allt til þess stora Hafs. Og DROTTIN vor Gud skal utdrijfa þa fyrer ydr/og utryma þeim fra ydr/so þier skulud eignast þeirra Land/so sm̃ DROTTIN ydar Gud hefur lofad ydr. Josua amiñer Jsrael

B

So verid nu hughrauster/so ad þier hallded og giøred allt þad sem skrifad stendr i Moses Løgmaalsbok/ so þier uijked þar ei fra/ huerke til hægre nie til vinstre hãdar/ Uppa þ ad þier komit ecke a medal þessa Folks/sem nu enn er epter hia ydur/Og ad þier ecke hured eda suered vid þeirra Afguda nafn/eige helldr þioned þeim nie bidied til þeirra/Helldr hallded ydr vid DROTTEN ydar Gud/so sem þier hafed giørt til þessa Dags. Suo mun DROTTIN utdrijfa stort ⁊ megtugt Folk fyrer ydr/ ⁊ eingiñ hefur stadit i mot ydr jnn til þessa dags. Exod. 36. Deut. 28.

C Eiñ af ydr skal ellta Þusund/ Þui DROTTIN ydar Gud strijder fyrer ydr/so s̃ hñ hefur sagt. Þar fyrer geymed mz giætne ydar Saaler/ad þier elsked DROTTIN ydar Gud

Enn ef ad þier snued ydr/ ⁊ halldid ydr ad þui Folke/sem nu epter er/ ⁊ giered teingder vid þad/so ad þier samblandist vid þat/og þad vid ydur/ Þa vitid/ad DROTTIN ydar Gud mun ecke meir utryma allt þetta Folk/fyrer ydr / Helldr skal þad verda ydr ad Snøru/og at Nete/og at Suipu a ydar Sijdr/og ad Þyrnum i ydar Augu/ Þar til þ eydeleggr ydr/af þui goda Lande/sem DROTTIN ydar Gud hefur giefed ydr. Ognunar Hotaner Deut. 7. 11.

D Siaed/Eg geing gøtu allrar Veralldar/Og þier skulud vita af øllu Hiarta / og af øllu sinne/ad þar hefr ecke eitt Ord brugdist/ af øllu þui sm̃ DROTTIN ydar Gud hefur lofad ydr/ Þad er allt saman fram̃ komed/ og ecke neitt auantad. Og lijka sem þier hafed feinged allt þad goda/ sem DROTTIN ydar Gud hefur lofad ydr/So mun DROTTIN laata allt vont koma yfer ydr/ þar til hñ afmaer ydr af þessu goda Lande sem DROTTIN ydar gaf ydr/ef þier yferkrodid DROTTINS ydars Gudz Sattmala/ þañ hñ baud ydr/ Og taked fyrer ydr at þiona annarligum Gudum/ ⁊ bidia til þra/ þa skulu þier vita/at Gudz Reide verdr grim̃ yfer ydr/ ⁊ fyrekiemr ydr snarliga af þui goda Lãde/ s̃ hñ hefur giefed ydur. 3. Reg. 2.

## XXIIII.

Jo-

j Sichem  Osua heimte saman allar Israelis Kynkuisler til Sichim/og kallade þa hina A
ellstu af Israel/þa ædstu Høfudzmenn/Domendr og Embættis men̄. Og sm̄
þr voru fram̄geingner fyrer Gud/þa sagde hn̄ til Almwgās/ DROTTIN
Tharah Israels sona Gud seiger so/Ydrer Fedur biuggu fordum Daga hinumeigen
Skvrgoda Vatsins/Tarah Fader Abraham og Nahor/ og þionudu þar annarligum
dyrkare
Gen. 21. Gudum. Þa tok eg ydar Fødr Abraham burt þeim meigen Vatsins/ og liet
25.36.46. hn̄ ferdast vm allt Canaan Land/og jok hn̄s Sæde/Og eg gaf honum Isaac. Enn Isaac
gaf eg Jacob z Esau. Og eg gaf Esau fiallbygder Seir/En̄ Jacob z hn̄s Syner foru ofā
i Egiptaland.
Exod. 3. 7. Epter þad senda eg Mosen og Aaron/og plagade EgiptaLand/suo sem eg giørde vid þa. B
8. 9. 10. Sijdan leidda eg ydr og ydar Forfedr af Egiptalande/ Og þan̄ tijma sem þier komud til Naf
11. 12. sins/og þeir Egiptsku veittu epterfør ydar Forfedrum mz Vøgnum og Riddaralide / allt til
Exod. 14. þess rauda Nafs/Þa kølludu þeir til DROTTINS/hn̄ sette eitt Myrkur a millum ydar
og þeirra Egiptsku/og veitte Nafenu yfer þa/ so ad Sioren̄ hulde þa. Og ydar Augu ha-
fa sied þad sm̄ eg giørda i Egiptalande/Og þier biuggud i Eydemørku langa tijma. Og eg
færda ydr i Land þeirra Amoritis/sem biuggu hinumeigen Jordanar/ Og þa þeir strijddu j
mote ydr/gaf eg þa i ydar hendr/so þier eignudust þra Land/ en̄ eg eydelagde þa fyrer ydr.
Epter þ vpptok sig Balak son Zipor/ Kongr þeirra Moabitis/z hiellt Bardaga vid Is-
rael/Og hn̄ sende af stad/og liet kalla Balaam son Beor/ad hn̄ skyllde bølua ydr. Enn eg C
Num. 22. villda ecke heyra hn̄/og hn̄ blessade ydr/og eg frelsade ydr af hans Høndum. Og þa þier
Deut. 23. geingud yfer Jordan/og komnd til Jericho/þa børdust Borgarmenn Jericho i mote ydr/þeir
Amoriter/Pheresiter/Cananiter/Hetiter/Gergositer/Heuiter z Jebusiter/ Enn eg gaf þa
† Crabrones alla i ydar hendr. Og eg senda † Meinuætter fyrer ydr / þær vtræku fyrer ydr þa tuo Kon
Deut. 7. ga Amoritarum/Eige fyrer þitt Suerd eda fyrer þin̄ Boga/Og eg gaf ydr eitt Lād/i hueriu
Exod. 23. þier hafed ecke arfidad/ og þær Borger sm̄ þier hafed ecke vppbygt/ so þier skylldud bwa þar/
Josu. 11. og eta af þeim Vinuidargørdum/z Vidsmiørsgørdum sem þier høfdud ecke plantad.

Þar fyrer ottist nu DROTTIN/ og þionid honum truliga/ og aluarliga/og lætid fra D
ydr þa Afgude/huerium ad ydrer Fedr þionudu hinumeigen Vatsins og i Egiptalande/ z þio
nid DROTTNI. Enn þocknist ydr ecke ad þiona DROTTNI/Þa vtuelied nu a þe-
ssum Deige/ huorum þier vilied þiona/ þm Gudū sm̄ ydrer Fedur þionudu a hina sijdu Vat-
sins/eda Gudum þeirra Amoritarum/i huerra Lande þier nu buid/En̄ eg z mitt Hws/ vilium
þiona DROTTNI.
Josu. 23. Þa suarade Folked og sagde/Þad sie langt fra oss/ ad vier yfergiefū DROTTIN vorn
Gud/og þionum ødrum Gudum/ Þui DROTTIN vor Gud færde oss z vora Fedr af E-
giptalande/af þui þrældoms hwse/Og giørde so stor Tækn fyrer vorum Augum/z vardueit-
te oss a øllum þeim veige sem vier reistum/og so fyrer øllu þui Folke sem vier forum fram̄ hia. E
Huer z ad vtdrifid hefur fyrer oss allt Folk Amoritarum/sem bio i þui Lande/Þar fyrer vil-
ium vier z þiona DROTTNI/Þui hn̄ er vor Gud.
Josua suarade Folkenu/Eigi meigi þier þiona DROTTNI/ Þuiat hn̄ er ein̄ Heilagr
Gud/ein̄ Vandlætur Gud/sa ad eige hlijfer ydar Yfertrodslum z Syndum. Enn ef þier yf
ergiefid DROTTIN/z þionid ødrum Gudum/Þa mun hn̄ snua sier/z plaga ydr z fyrer
koma ydr/so sem hn̄ hefur giørt ydr hid goda/Folkid suarade Josua/Ecke suo/helldr viliū vier
þiona DROTTNI.
Þa sagde Josua til Folksins/Þier erut nu sialfer til vitnis yfer ydr/ad þier hafed vtualed
ydr DROTTIN/honum ad þiona. Þeir søgdu/Ja. Þa kastid nu burt fra ydr annar-
ligum Gudum sem a millum ydar eru/og hneiged ydar Hiørtu til DROTTINS Israels
Gudz. Folked sagde til Josua/Vier vilium þiona DROTTNI vorum Gude/ og hlyda F
Sattmal i hn̄s Roddu. Og a þessum sama Deige giørde Josua eitt Sattmal mz Folkenu/z sette þm
Sichem fyrer Løgmaal z Riettinde i Sichem.
Minningar Og Josua skrifade allt þetta i Gudz Løgmals Bok/og tok einn storan Stein/ z reiste hn̄
Steinn vpp- vpp i þeim sama stad/vnder ein̄e Eik/sem stod hia DROttens Helgedome/og sagde til Folk-
reistr af sins/Siaed/Þesse Steinn skal vera ein̄ Vitnisburdr a millum vor/Þui hn̄ heyrde øll DRot-
Josua tens Ord/sem hn̄ hefur talad vid oss/og hn̄ skal vera Vitnisburdr yfer ydr/ so þier skulud ecke
afneita ydrum Gude. So liet Josua Folked fra sier fara/huern til sinnar Arfleifdar

Og þ

Og þad skiede suo epter allt þetta/ ad Josua Son Nun/ þienare DROTTINS an- | Josua andast
dadist/ þa hann hafde ad Alldre tuttugu Aar og Hundrad. Og þeir Jordudu hann i | xxxi. Aarum
Landamerkium sijns Erfdalands i ThimnathSerah/ sem liggur a Fialle Ephraim/ Nord- | epter Mosen/
G an fra Fialle Gaas. Og Jsrael þionade DROTTNI suo leinge sem Josua lifde/ og | þa hn̄ hafde
þeir enu ellstu Meñ/ sem leinge lifdu epter Josua/ huerier ad vissu alla DRottens Giorning- | vnnid Landed
a/ semhn̄ hafde giort vid Jsrael. | og vtskipt þui
| mz Folkenu

Enn Josephs Bein sem Jsraels Syner baaru med sier af Egiptalande/ grofu þeir i Si-
chem/ a þeim Parte Akurs sem Jacob keypte af sonū Hemos/ Fodur Sichem/ fyrer Hundrat | Josephs Bein
Silfur Peninga/ z vard Erfd Sona Josephs.

Eleasar son Aaron andadist og einnen/ Og þr jordudu hn̄ i Gibea/ s̄ heyrde til | Eleazar andast
hn̄s Syne Phineas/ og honum var giefen a Fialle Ephraim.

## Ender Josua Bokar



# Liber Judicum
## Domaraña Bok
### I.



Pter Andlat Josua/leitudu Jsraels Syner Rads A
til DROTtens/og sogdu/Huer a medal vor skal vera vor Nershøfdin
ge a mote þeim Cananeis? DROTTJN suarade/Hañ skal Juda
vera. Siaed/eg hefe giefed Landid i hn̄s Hendr. Þa sagde Juda til
sijns Broduꝛs Simeon/ Far vpp mz mier i mitt Hlutskipte/og berienst
vid Cananeum/Sijdan vil eg reisa mz þier i þitt Hlutskipte/Og Sime-
on for mz honum.
Og sem Juda for vpp / þa gaf DROTTJN þa Cananiter og
Adoni Besek Pheresiter i þeirra Hendr/og þeir slogu i Besek tiu Þusund Manns. Og þeir fundu Ado-
ni Besek i þeim stad sem kalladist Besek/og børdust vid hn̄/og slogu þa Cananiter og Phere- B
siter. Enn Adonibesek flyde/ꝫ þeir soktu epter honum/Og þa þeir nædu honum/hiuggu þr
af honum hn̄s Þumalfingr og Þumaltær/af Hondum og Footum. Þa sagde Adoni Besek/
Siøtijge Kongar mz afhøggnum Þumaltæm a Hondum og Footum hafa samannlesed
Matleifar vnder mijnu Borde/ Lijka sem eg hefe giørt odrum/ suo hefur Gud læted endur-
gallda mier. Og þeir fluttu hn̄ til Jerusalem/þar andadist hn̄.
Jerusalem Enn Juda syner strijddu a Jerusalem/og vnnu hana/og slogu hennar Innbyggiara med
Suerdseggium/og settu Elld i Borgena. Og epter þad ferdudust Juda Syner ofan/og
børdust vid þa Cananiter/sem biuggu a Fiallbygdum/ og i Sudurætt/og eirnen i Dal Len-
dunum.
Hebron Og Juda dro i mot þeim Cananitis/sem biuggu i Hebron (enn Hebron kalladist i fyrre
tijd KiriathArba) og slo Sesai/og Ahinam og Talmai/Og hn̄ ferdadist þadan mot þeim C
Caleb Jn̄byggiurunum i Debir(Enn Debir kalladist fordum KiriatSepher). Og Caleb sagde/
Huer sa sem slær og vinnr Kiriat Sepher/þeim skal eg giefa mijna Dotter Achsa til Eigen-
kuinnu. Enn Atniel Sonr Kenas Caleb yngste broder yfervann Borgena/Og hn̄ gaf ho
Achsa num sijna Dotter Achsa til Eigenkuiñu. Og þ skiede so þa hun ferdadist heim/var heñe rad
Atniel lagt/ad hun skyllde bidia eins Akurlendis af sijnum Fødur/Og hun fiell af Asnanum. Ca-
leb heñar Fader sagde þa til heñar/Huad brestur þig? Hun suarade/Gief mier eina Ble-
ssan/Þuiad þu hefur giefed mier eitt þurrlende/gief mier ꝫ vøkuada Jørd. Þa gaf hn̄ he-
nne vøkuada Jørd bæde ofarliga og nedarliga.
Num. 10. Og þeir Keniter Syner sem var Magr Moses/ drou vpp fra Palmastødunum/mz son̄
Exod. 18 Juda til Juda Eydemerkur/sem liggr i sudr/mots vid staden Arad/ꝫ foru þangad/ꝫ biuggu D
hia þui Folke.
Num. 21 Enn Juda ferdadist mz sijnum Brodr Simeone/ og þeir slou þa Cananiter i Zephat/ ꝫ
foreyddu þeim/og kølludu Stadena Harma. Hier mz vann Juda Gassa/mz þui sem henne
fylgde/og Asklon mz þui sem henne til heyrer/og Ekron mz þui s heñe tilheyrde. Og DR-
Josu. 15. OTTJN var mz Juda/ so ad hn̄ eignadist allar Fiallbygder/ Þuiad þa gat hn̄ ecke yfer-
vnned sem i Dølunum biuggu/Þuiad þeir høfdu Jarnvagna. Caleb gafu þeir Ekron sem
Moses hafde sagt/ꝫ hn̄ vtrymde þadan þria sonu Enakim.
Eñ Syner BenJamin vtdrifu ecke þa Jebusiter/ sem ad biuggu i Jerusalem/ Helldr biu-
BethEl/ᴂdr ggu Jebusiter i Jerusalem hia BenJamin/allt til þssa Dags. E
fyrr nefnd So og foru Syner Joseph vpp til BethEl/ og DROTTJN var mz þeim. Og þr
Lus af Josephs Hwse niosnudu vm BethEl(huer ad kalladist i fyrre tijd Lus)og Vardhalldsmeñ
erner fundu einn mañ af Stadnum ganganda/ ꝫ søgdu til hn̄s/Vijsa þu oss huar vier meigū
komast i Borgena/þa vilium vier syna þier Myskun. Enn sem hn̄ hafde vijsad þeim þar
þeir mattu i Stadin̄ koma/þa slou þeir Stadarinns jnnbyggiara mz Suerdseggium/ vtan
þennañ mann mz sinne ætt lietu þeir frialsañ fara. Og sa hinn same Madr for i Land
þeirra Hetiters/og bygde þar eiñ Stad/og kallade hn̄ Lus/ suo kallast hann allt til þessa
Dags.
Og Manasse afmade ecke Betseam mz sijnum Dætrum/eige helldr Thaenack med sijnum F
Dæt-

til fornfæringar/Þui þier erut fleire/ꝛ kallet a ydars Gudz Nafn/ꝛ legged onguañ Elld þar
vnder. Og þeir toku þañ Vxa sem hn̄ fieck þeim/ꝛ biuggu hn̄ til/ꝛ kolludu a Baals nafn
fra Morne og jn̄ til Middags/og sogdu/Baal Bænheyr oss. Enn þar kom eingen Rodd ꝛ
eckert suar i mote/Og þeir holltrodu vm krijng Alltared/þad þeir hofdu giort. Eñ sem kom-
Sidꝛ Baals inn var Middagur/þa spottade Elias þa/ og sagde/Kallit hatt/þui hn̄ er eirn Gud/Hn̄ he-
Spamanna fur nockut at huxa/eda giora/eda ma vera hn̄ sie farinn nockur/eda hn̄ sofe/suo at hn̄ vakne.
Og þr kolludu hatt/ꝛ særdu sig mz Knijfum og handsoxū/sem sidꝛ þeirra var til/ so at Blod E
rann vm þa. Enn sem Middagurinn var nu lidenn/þa spadu þeir/þar til at Fornfæring-
ar tijme var kominn/enn Baal gaf ongua Raust/og eckert Suar/ og eige ansade hañ þra
Bænum.
Þa sagde Elias til alls Folksins/Kome allt Folket hingat til mijn. Og ē allt Folket kom
til hn̄s/þa bætte hn̄ vpp þat DROTTINS Alltare sem nidur var brotid/ꝛ tok tolf Stei-
Gen. 32. na/eptˀ ættartolu sona Jacobs(til huers at DROTTINS Ord skiede/ꝛ sagde/Þu skallt
kallast Jsrael). Og hn̄ bygde eitt Alltare i Nafne DROTTINS/ af þeim Steinum/
Og hn̄ giorde eina Vatnræs i krijngum Alltared/so vijda ē er tueggia Kornmæla rwm. Og
hn̄ hlod Vidnum i Bulung/ og sundrade Vxann i stycke/og lagde hn̄ ofan a Vidinn/ꝛ sag
de/Sæket fiogur Kier mz Vatn/og auset yfer Brēnefornena og yfer Videnn. Og hn̄ sag-
de/Giøret þat annann tijma. Og þeir giordu suo i annat sinn. Og hn̄ sagde/Giørit þat F
enn j þridia siñe. Og þeir giordu þat i þridia sinn/so at Vatned rann i krijngum Alltar-
id/og Grøfen vard Full af Vatne.
Og þegar sa tijme var komiñ/at offra skyllde Matoffre/þa gieck Elias Spamadꝛ fram/
ꝛ sagde/DROTTIN Abrahams Jsaacs og Jsraels Gud/Lat þat i Dag kunnigt verda
Bæn Elie at þu ert alleina Gud i Jsrael/og eg þinn Þienare/hafe allt þetta giort epter þijnu Orde.
Bænheyr mig DROTTEN/ Bænheyr mig/Suo at þetta Folk meige vita/at þu DRO-
TEN ert Gud/og at þu hier epter vmsnuer þeirra Hiortum. Þa fiell Elldur DROTT
ENS nidur/og vppbrende Brenneoffret/Vidinn/Steinana/ꝛ Jordena/ꝛ so Vatnet i Dij-
kenu. Enn sem allt Folket sa þetta/fiell þat fram a sijnar Asionur/ꝛ sagde/DROTT-
EN er Gud/DROTTEN er Gud.
Elias drep- Þa sagde Elias til þeirra/Handtaked Baals Spamenn/so at einginn af þeim komist vn
ur Baals dan. Og þeir hondludu þa. Og Elias færde þa ofan til Lækiarens Kison/ og drap þa G
Spamenn þar.
Og Elias sagde til Achab/Far þu vpp/et ꝛ dreck/þui nu þytꝛ fyre myklu Regne. Eñ sm̄
Achab for vpp/at eta og drecka/þa gieck Elias vppa Charmel þar sem þat var hæst/og lag
dist a grwfu til Jardar/og sette sitt Høfud a millū sinna Knia. Og hn̄ sagde til sijns Þie-
nara/Gack vpp og horf i Haf vt. Hn̄ gieck vpp og hugde at/og sagde/Þar er eckert at sia.
Fyrer Elie Og hn̄ sagde/Gack aptꝛ þangad sio siñū. Og j siøūda siñe sagde hn̄/ Sia/þar dregꝛ vpp lijt
Bæn giefur iñ Skyfloka vr Hafenu/lijka sem eins Mañs Hond. Hn̄ sagde/Far vpp/og seig þu Achab/
Himinenn at hn̄ spenne fyrer sinn Vagn/og fare ofan/so at Regnet grijpe hn̄ eige. Og þui næst ædur
Regn eñ Meñ varde/ vard Himineñ dim̄ur af þyckuum Skyiū og Vinde/og kom eitt akaft Regn.
Jacob. 5. Enn Achab for/ꝛ kom til Jesreel. Og Hond DROTTINS kom yfer Eliam/ꝛ hn̄ gyrd
Supra. 17 te Lendar sijnar/ꝛ for vndan Achab/ þar til at hn̄ kom i Jesreel.

## XIX.



OG Achab sagde Jesabel alla þa hlute sem Elias hafde giort/og huernen hn̄ A
hafde drepet alla Baals Spameñ mz Suerde. Þa sende Jesabel eitt bod til
Eliam/ꝛ liet seigia hn̄/Guderner giøre mier þ ꝛ þ/ ef eg giøre ei a Morgū
þennann tijma þinne Sæl/lijka sem þu giorder eins þeirra Sælu.
Enn sem hn̄ þetta fornam/tok hn̄ sig vpp/ og gieck burt/þangat sem hn̄s
Elias flyr fy Hugur vijsade honum/og kom til BerSeba i Juda/og liet sinn Þienara þar
rer Jesabel epter vera. Enn hn̄ gieck burt i Eydemørkena/eina Dagleid/ og kom/ og sette sig vnder eitt
Eineber trie/ꝛ beiddist þa at deyia/ꝛ sagde/Þat er nog. So tak nu mijna Sæl DROTT-
JN/Eige em eg betre enn mijner Forfedur. Og hn̄ lagde sig vnder Einebertried/ꝛ sofnade.
Exo. 24. Og sia/Eingill DROTTINS tok a honum/ꝛ sagde til hn̄s/Statt vpp ꝛ snæd. Og
Math. 4. sem hn̄ leit hia sier/þa var þar eirn Elldbakadꝛ Leifꝛ hia hn̄s Høfde/ꝛ ein Kanna mz Vatn.

Og sem hñ hafde eted og drucket/þa lagde hñ sig nidur aptur at sofa. Og Eingill DRO-
B TTENS kom i annat sinn/ tok a honum og sagde/Statt þu vpp z snæd/þuiat þu att lā-
gann Veg fyre Hondum at ganga. Og hñ stod vpp/at og drack/og gieck i styrkleik þeirrar
Fædu fiörutijger Daga og fiörutijger Nætta/ allt til Gudz Fialls Horeb.
Og hñ kom þar jñ i eirn Heller/z var þar vm Nottena. Og sia/Ord Drottens kom til hñs
og sagde til hñs/Huad giörer þu hier Elia? Hañ sagde/Eg hefe vandlæt vegna DROT-
TENS Gudz Zebaoth/Þuiat Israels syner hafa yfergiefet þinn Sattmala/og nidurbro-
ted þijn Alltare/ og sleiget þijna Spamenn i hel mz Suerde/ og eg er alleina epter ordinn/ Rom. 11.
og þeir sitia vm at taka mig af Lijfe. Hñ sagde/Far vt hiedan/ og gack fyrer DROTT-
JN vpp a Fiallet/og sia/at DROTTJN geingr fram hia/ og eitt mijket z sterkt Vedur/
huert ed Fialled klauf/ og Berged braut j sundur fyre DROTTNJ/ Enn DROT
TJN var ecke i Vedrenu. Epter Vedred kom eirn Jardskialfte. Enn DROTTEN
C var ecke i Jardskialftanum. Enn epter Jardskialftañ kom eirn Elldur/ Enn DROTT-
JN var ecke i Elldenum/ Og epter Elldinn kom þar eirn hægur og miukur Vindblær.
Enn sem Elias þat heyrde/þa dro hñ Klæde fyrer Andlit sier/og gieck fram i Dyrnar a
Hellernum/Og sia/þar kom ein Raust til hñs/og sagde/ Huad giörer þu hier Elia? Hañ
sagde/Eg hefe vandlæt vegna DROTTENS Gudz Zebaoth/Þui Israels syn' hafa for
læted þinn Sattmala/nidurbroted þijn Alltare/ og i hel sleiged þijna Spamenn mz Suerde/
z eg eirnsamann em epter ordeñ/ enn þeir sitia vm ad taka mig af Lijfe.
DROTTEN sagde til hñs/Far þu aptur sama veg/vm Eydemörku/til Damascum/z 4. Reg. 9.
gack þar jñ/ z smyr Hasael til Kongs yfer Syriam/Og Jehu son Nimsi til Kōgs yfer Isra- Eccle. 48.
el/ og Eliseum son Saphat af Abel Mehola til eins Spamanns i þinn stad. Og þad skal Hasael
skie/ad huer sem kiemst vndan Suerde Hasael/ hañ skal Jehu drepa/ og huer s̄ setur vndan Jehu
D Suerde Jehu/ hann skal Heliseus drepa. Og eg mun epter læta siö Þusund Manna i Eliseus
Israel/ sem ecke hafa beygt sijn Knie fyrer Baal/ og huerra allra Munnar ecke hafa
kyst hñ.
Og hñ gieck þadann/og fañ Heliseum son Saphat/hñ var at eria fyrer sier mz tolf Vxñ/
og hñ var sialfur a mille þeirra tolf Vxa. Og Elias gieck til hñs/og lagde sinn Möttul yf
er hñ. Enn hñ yfergaf Vxana/og rann epter Elia/z sagde/Leyf mier ad mīnast vid minn Eliseus kk
Fodur og Modur/sijdan vil eg epterfylgia þier. Hñ suarade honum/Far þu/og kom aptur/ Spamañs
eg hefe nockut ad giöra mz þig. Og hñ skilde vid hñ/og tok eitt par Vxa/og sæfde/ og saud smurdur
Kiöted mz Trianum sem voru a Vxnunum/og gaf Folkenu þat at eta. Sijdan stod hñ vpp/
fylgde Elia epter/og þionade honum.

## XX.

A OG Benhadad Kongr i Syria dro saman allt sitt Herlid/ og þar voru tueir z Benhadad
þriatijger Kongar mz honum/og Hestar og Vagnar/ og hañ flutte sinn Her sest vm Sa
vpp/og settist vm Samariam/ og bardest a Borgena. Og hñ sende bod til mariam
Achab Israels Kongs j Borgena/z liet suo seigia hm̄/So seiger Benhadad/
Þitt Silfur og þitt Gull er mitt/z þijnar Kuinnur og þijn bestu Börn heyra
mier til. Israels Kongur suarade/z sagde/Minn Herra Kongur/sie suo sm̄
þu hefur sagt/Eg er þiñ z allt þat eg hefe.
Og sendemenn komu aptur/ og sögdu/Suo seiger Benhadad/Sökum þess at eg sende þier
bod/og liet seigia þier/ Þu skallt giefa mier þitt Silfur og þitt Gull/þijnar Kuinnur og þijn
Börn/Þa vil eg senda mijna Sueina til þijn a Morgun vm þennañ sama tijma/at þeir sku
lu ransaka Hws þitt/og þinna Þienara/Og þeir skulu taka i sijnar Hendur/þat allt sem þu
hefur kiært/z bera þat burt.
Þa kallade Kongur alla Landsins Elldunga/og þa enu ellstu/og sagde/Hugleidet og sia-
B ed/huad vont hñ hefur i sijnu sinne. Hñ sende bod til mijn epter mijnum Kuinnum og Bör-
num/og epter mijnu Gulle og Silfre/og eg hefe ecke neitad honū þess. Þa suörudu aller þr
enu ellstu/z allt Folket honum/Þu skallt ecke jata edr samþyckiast þessu. Og hñ sagde til
sendeboda Benhadad/ Seiged mijnum Herra Kongenū/ Allt þat sem hñ baud sijnum Þien-
ara i fyrstu/þat vil eg giöra/Enn þetta kann eg ecke at giöra. Sendemenn foru og sögdu

honum þat aptur. Þa sende Benhadad til hans/ & liet so seigia honu/ Guderner giøre mier
þat & þ/ef Mollden af Samaria skal verda so myked/at sierhuer fae eirn Hreming fullan/af
þui øllu Folke s mier epter fylger. Þa suarade Israels Kongr/ & sagde/Seiged hm/ Sa sem
herklædist/hn skal ecke hrosa sier/suo sem hinn sem Herklæde hefur aflagt. En sem Benha-
Dryckiu skapur, dad þat heyrde/þar hn sat & drack mz Kongunum/j sijnum Landtiølldu/þa sagde hn til sina
Þienara/Bued ydur til/ og þeir biugguft i mote Borginne.

Og sia/þar kom eirn Spamadur til Achab Israels Kongs/og sagde/Suo seiger DRO-
TTIN/Þu hefur sied allan þennan ogrynne Her ? Sia þu/a þssum Deige vil eg giefa
hn i þijnar hendur/so þu viter/ad eg er DROTTIN. Achab sagde/Fyrer huern ? Spa C
madurinn suarade/ So seiger DROTTIN/ Fyrer Þionustumenn Hieradz høfdingiana.
Hn sagde/Huer skal Vijged vekia ? Spamadurin suarade/Þu. Þa kalde hn Skialldsuei-
na Høfdingianna/ Og þeir voru ad tølu tuø hundrud/ tueir og Þriatijger. Enn han kalde
epter þat alla Israels Sonu/allt Folket/siø Þusund Menn. Og þeir drogu vt vm midiann
Dag. Enn Benhadad drack/ og var druckenn i sijnu Tiallde mz tueimur og þriatijge
Kongu/huerier ed komner voru honu til Lidz Og Landshøfdingia Sueinarner foru fyrst vt.

Benhadad sende vt/og þeir vnderuijsudu honum og søgdu/Þar fara Menn vt af Sama-
ria. Hn sagde/Grijpet þa lifande/huert sm þeir eru komner Fridar at beidast/ edr ad beriast.
Enn sm Landzhøfdingia Sueinarner voru komner vt/þa for Herin epter þeim/ Og huer vm
sig drap þan sem honum mætte/suo ad þeir Syrlendsku flydu vndan/ Enn Israel rak Flott
Þeir Syrlendsku voru slegner af Achab ann epter þeim. Og Benhadad Kongur af Syria komst a Hest & flyde mz Riddoru. Og
Israels Kongur for vt/og slo bæde Hesta og Vagna/og Folket mz honum/& veitte eitt mijket
slag þeim Syris.

Þa gieck eirn Spamadur til Israels Kongs/og sagde til hns/Far þu/og afla þier styrks/ D
& sia til huad þu giører/ þui Kongurin af Syria mun draga Her sama i mote þier aptur/þe-
gar þtta ar er vte. Þui Kongsins Þienarar af Syria søgdu til hns/Þeirra Guder eru Fiall
anna Guder/og þui yfer vnnu þeir oss. Enn mættu vier beriast vid þa a Slietlende/þa mu-
num vier sigrast a þeim. Gier nu suo/Tak Kongana burt huern af sijnum Stad/ og gief
þeim heimleyfe/enn set þu Høfdingia i þeirra stad. Bu þa þier og Herlid/suo mijked sm þ
var er þu mister/fa þier og Hesta & Vagna/eins sem þeir adrer voru/ & lat oss beriast a jafn
lende vid þa/Huad skal gillda/ Vier vilium þa sigrast a þeim ? Kongurinn hlydde þeirra
Radum/og giørde suo.

Enn sem þat ar var nu lided/þa heimte Benhadad saman Her sin/ þa Syros/ & dro vpp
til Apheck/at beriast vid Israel. Israels syner biugguft og suo til Bardaga/toku vister med
sier/ & fluttu Her sinn i mote þeim/og settu sijnar Herbwder gagnuart þeim/þuilijkast sm tuær
litlar Geitfiar Hiarder være/ Enn Syri vppfylltu Landet.

Þa gieck eirn Gudz Madr fram/ og sagde til Israels Kongs/So seig' DROTTIN/ E
Søkum þess at þeir Syrlendsku hafa sagt/at DROTTIN sie Fialla Gud enn ecke Gud
Dalana/Þui hef eg giefed þennan mykla Mannfiølda i þijna Hønd/ So þier vited at eg er
DROTTIN. Og þeir huorutueggiu fylktu Lide sijnu i siø Daga/ A þeim siøunda deige
Kongurin af Syrlande misste tiölda Lidz 127000. tokst Bardagen. Og Israels syner slogu hudrad Þusud Fotgøngulidz/a einu Deige/af þm
Syris. Enn þeir sem epter lifdu/fludu til Apheck jnn i Stadinn. Og Mwren fiell a þa
sem vndan komust/ Og þr voru at tølu siø og tuttugu Þusund Mans. Benhadad flyde
og jn i Stadinn/fra einu Herberge og til annars.

Þa søgdu hns Þienarar til hns/Sia/ vier høfu heyrt/ ad Israels Huss Kongar eru my-
skunsamer Kongar. Þui skulum vier iklædast Seckiu/og latum bønd vm vor Høfud/ & gøn-
gum suo vt fyrer Israels Kong/Skie ma at hn late þijna Ønd lijfe hallda. Og þeir færdu
sig i Hærklæde/og lietu bønd vm Høfut sier/og foru til fundar vid Israels Kong/og søgdu/
Benhadad þin þienare latr seigia þier/Eg bid/Lat mijna Saal hallda Lijfe. Hn sagde/Lifer
hn en nu/þa er hn min Broder. En Menerner toku strax þta Ord af hns Mune/og vtløg F
du þ sier til goda/ & suørudu/Ja þin Broder Benhadad. Hn sagde/Fared & lated hn koma
a minn fund. Þa gieck Benhadad vt til hns/Og hn liet hn sitia hia sier i sijnum Vagne.
Og hn sagde til hns/Eg vil giefa þier nu aptur þær Borger/sm minn Fader tok fra þijnum
Fødur/og giør þier Stræte i Damasco/lijka sem minn Fader giørde i Samaria/ Eg vil og
giøra eirn Sattmala vid þig/ & lata þig lausan/Og hn giørde eitt Fridar Sattmaal vid hn/
og gaf hm fararleyfe

Þa sagde

Þa mællte eirn af Spámannanña sonū til sins Naunga/ fyrer DROTTINS Ord/
og sagde/ Kiære/sla þu mig. Enn hñ villde ecke slæ hañ. Þa sagde hañ til hañs/ Søkū
þess at þu villd' ecke hlyda Røddu DROTTINS/ Sia/ þa skal eitt Leon slæ þig/ nær þu
geingur fra mier. Og sem hñ gieck fra honum/ mætte honum Leon/ z drap hñ. Og hñ fañ
eirn añañ Mañ/ z sagde til hñs/ Kiære/sla þu mig. Og sa Madur slo hñ/ og veitte honum
Sær. Þa gieck Spæmadurinn i burtu/ og kom a veigenn fyrer Kong/ z torkiende sitt And
G lit mz Molldu. Enn sem Kongurinn dro þar fram hia/ þa kallade hñ til Kongsins/ og sagde/
Þinn Þienare for til Bardaga/ og sia/ eirn Madur veik sier burt/ z leidde eirn Mann til mijn
og sagde/ Geym þu þeña Mann/ enn komest hñ i burtu/ þa skal þitt Lijf vera i vede/ Elligar
skallt þu giallda eitt Centener Silfurs. Og þa þiñ þienare hafde nockud at giøra hier z
þar/ ha'var hiñ allr i burt. Israels Kongr sagde til hñs/ Þat er þiñ Domr/ þu hefur sialfur
sagt þat.

Þa strauk hñ Molldena af sijnu Andlite/ Og Israels Kongr þeckte hñ/ ad hñ var eiñ af
Spamennunum. Og hñ sagde til hñs/ So seiger DROTTIN/ Søkum þess at þu liest Infra 22.
þañ bøluada mañ burt sleppa/ þa skal þijn Sæl ꝟa j stadiñ hñs Sælar/ z þitt Folk j stadiñ
hñs Folks. Epter þat ferdadist Israels Kongur þadan/ med þungu Skape og Reide/ i sitt
Hws/ og kom til Samariam.

## XXI.

A NEssu næst vard sa atburdur/ at Naboth j Jesreel atte eiñ Vijngard i Jesreel Naboth
hia Achab Kongs høllu i Samaria. Og Achab talade vid Naboth/ z sag
de/ Gief mier þinn Vijngard/ Eg vil giøra mier eirn Kælgard þar af/ søkū
þess at hñ liggur suo i Nænd vid mitt Hws/ enn eg vil giefa þier añan betra
Vijngard fyrer hñ/ Eda ef þu villt þat helldur/ þa vil eg giefa þier Silfur Leuit. 25.
fyrer hñ/ suo miked sem hñ er verdur. Naboth suarade Achab/ DROTT Num. 36.
IN forde mier þui/ at eg giefe þier mijna Fødr Leyfd

Þa kom Achab heim/ mz reidum Hug og þungu Giede/ søkum þss Ordz sm̄ Neboth j Jes
reel talade til hñs/ seigiande/ Eige vil eg giefa þier minna Fedra Arf (Suo fieck honum þta
mijkels) at hñ lagdist i Reckiu/ snuande sijnu Andlite (til veggiar) og æt ecke Braud.

Jesabel hñs Kuinna fornam þetta/ þa gieck hun jnn til hñs/ z mællte vid hñ/ Huad er þta Jesabels slægd
B at suo hrygger Hug þinn/ at þu tekur ecke Fædslu til þijn? Hñ suarade heñe/ Eg talade vid
Naboth Jesreeliter/ og sagde/ Gief mier þinn Vijngard fyrer Peninga/ edr vilier þu þ helldr/
þa vil eg giefa þier annañ Vijngard fyrer hñ. Enn hñ suaradr/ Eige vil eg giefa þier miñ
Vijngard. Þa sagde Jesabel hñs Kuinna til hñs/ Huad være Israel fyrer Rijke/ ef þu giør
der þat? Rijs vpp/ tak Fædslu til þijn/ og vert mz godu giede/ Eg vil vtuega þier þeñañ Vijn
gard Naboth af Jesreel.

Og hñ liet skrifa eitt Brief vnder Achabs Nafne/ og jnciglade mz hñs Fijngurgulle/ og
sende þat til Ylldunga og Giædingia i hñs Borg sem biuggu hia Naboth. A þui Briefe
var þesse Bodskapur/ Biodet Føstu/ og setiet Naboth efst æ millum Folksins. Setiet sijd
an til tuo vonda Menn/ þa er bera Fals vitne i mote honum/ seigiande/ Þu hefur a blessad
C Gud og Konginn/ Og leidet hñ wt fyrer Borgena/ og gryted hñ i hel.

Og Ylldungarner og Giædingar hñs Borgar/ þeir sem biuggu hia honum/ giørdu s Je a (Blessad) þydist hier ad formæla/ og bøl ua.
sabel baud þeim/ eins sem hun hafde skrifad i Briefenu þui sem hun sende til þeirra. Og þr
lietu boda Føstu/ og settu Naboth efst a millum Folksins. Sijdan komu þar tueir arger skæl
kar/ og stodu riett frañe fyrer honum/ og vitnudu mot Naboth fyrer Folkenu/ og søgdu/ Nab
oth blessade Gud z Kongiñ. Þa leiddu þeir hñ vt af Borginne/ z lømdu hñ i hel mz Griote. Naboth var gryttur i hel

Og þeir giørdu Bod Jesabel/ og lietu seigia henne/ Naboth er gryttur til dauda. Eñ sm̄
Jesabel heyrde þ/ at Naboth var i hel gryttr/ þa sagde hun til Achab/ Rijs vpp/ z eignast nu
Vijngard Naboth i Jesreel/ þann sem hñ villde ei selia þier fyrer Peninga/ Þuiat ecke li
fer Naboth/ helldur er hñ daudur. Enn sem Achab heyrde at Naboth var daudr/ þa stod hñ
vpp/ z gieck ofan i Vijngard Naboth Jesreeliters/ ad eignast hñ.

D Þa skiede Ord DROTTINS til Eliam Thesbiter/ z sagde/ Statt vpp/ z far ofan til
fundar vid Achab Israels Kong/ sem er i Samaria/ Sia / hañ er nu i Vijngarde Naboth/
þangad er hñ ofan geinginn/ at eignast hñ. Og tala þu vid hñ/ og seig þu honū/ Suo seiger

DROTTIN/ Þu hefr i hel sleiged/ ⁊ þar mz þier til eignar teked. Og þu skallt tala vid
Elias spaar hn̄ ⁊ seigia/ So seiger DROTTIN/ J þeim Stad ō ad Hūdarner sleiktu Naboths Blod/
mote Achabs þar skulu ⁊ Hundar sleikia þitt Blod. Og Achab sagde til Eliam / Hefur þu nockurn tij= E
Lyse ma fundet mig at vera þinn Ouin? Hn̄ sagde/ Ja/ eg hefe fundet þat/ Sokum þſſ at þu he=
4. Reg. 9. fur sellt þig til þess/ at giora ecke nema jllt fyrer DROTTNI. Sia/ Eg vil og leida O=
lucku yfer þig/ og burt taka þijna Epterkomendur/ ⁊ eg vil drepa af Achab þat sem pissar a
Vegg/ og þat jn̄eluckta/ ⁊ sijdasta i Jsrael. Og eg vil giora þitt Hws suo sm̄ Hws Jero=
boam sonar Nebath/ ⁊ sem Hws Baesa sonar Ahie/ fyrer þad at þu stygder mig/ ⁊ komst Js=
rael til ad syndgast. F

Og DROTTIN talade ⁊ so vm̄ Jesabel/ ⁊ sagde/ Hūdar skulu eta Jesabel jn̄an Jesre=
Jesabel els Mwrueggia. Huer i Stadnū deyr af Achab/ þann skulu Hundar vppeta/ og huer ō deyr
vtan Stadar/ þann skulu Fuglar vnder Himnenum vpp eta. Og þar var eingin̄ Madr/ sm̄
so var oldungis selldr til ad giora jllt fyr̄ DROTTNI/ so sem Achab/ Þuiad hn̄s Kuin̄a
Jesabel eggiade han̄ a þ. Og hn̄ giorde sig miog Suiuirdeligan̄/ so ad hn̄ gieck i allan̄ maa=
Synder ta epter Skwrgodum/ eins og þeir Amoriter/ hueria DROTTIN vt rymde fyrer Jsraelis
Achab Sonum. G

a (Haarklæde eda Seckur) Er Nockur hrygdar buningur/ so sm̄ þa menn hafa Harm

En̄ sem Achab heyrde þesse Ord/ þa sundur reif hn̄ sijn Klæde/ ⁊ tok eitt [a] Haarklæde yfer
sig/ ⁊ fastade/ ⁊ suaf i Seck/ ⁊ gieck hrygdarliga fram̄. Og Gudz Ord kom til Eliam Thes=
biten/ og sagde/ Hefur þu eige sied huersu Achab audmyker sig fyrer mier? Nu sokum þſſ ad
hn̄ audmyker sig suo fyrer mier/ þa vil eg ecke leida þat vonda jnn vm hn̄s Daga/ En̄ a dogū
hn̄s Sonar vil eg þessa Olucku koma læta yfer hn̄s Hws.

## XXII.



Josaphat V lijda suo þriu Aar i samt/ ad eingenn Ofridur var i millum þra Syrlen A
sku ⁊ Jsraels. Enn a þui þridia Are for Josaphat Juda Kongur til fun
dar vid Jsraels Kong. Og Jsraels Kongur sagde til sinna Þienara/ Vi=
te þier ecke/ at Ramoth i Gilead er vor eign/ enn vier sitium vm kyrt/ ⁊ van=
rækium at taka hana af Kongsins Hond i Syrlande. Og hn̄ sagde til Jo
saphat/ Villt þu fara mz mier/ ad vinna aptur Ramoth i Gilead? Josa=
4. Reg. 3. phat sagde til Jsraels Kongs/ Eg vil vera lijka sem þu/ ⁊ mitt Folk er sem þitt Folk/ ⁊ mijner
Hestar lijka sem þijner Hestar.

Og Josaphat sagde til Jsraels Kongs/ Þo vil eg at þu leiter fyrst til Orda DROTT=
Fals Pro= INS. Þa samansafnade Jsraels Kongur Spamonnunum/ sem voru fiogur Hundrut ad
phetar tolu/ ⁊ sagde til þeirra/ Huert skal eg fara ad beriast a Ramoth (Borg) i Gilead/ edur skal eg
læta so bued standa? Þeir sogdu/ Far vpp/ DROTten̄ skal giefa hana i Kongsins Hendr.

Og Josaphat sagde/ Er hier eingenn af DROTTINS Spaamonnum/ suo vier B
mættum spyria hn̄ ad? Kongurinn sagde til Josaphat/ Hier er enn nu ein̄ Madur sm̄ hei=
Micheas Drottens Spa= ter Micheas son Jemla/ af huerium Menn meiga spyria huad DROTTIN vill/ En̄ eg
madur hata hn̄/ þt hn̄ spaaer mier einskis godz/ helldr ætijd jlls. Josaphat sagde/ Eige skyllde Kong=
urinn suo tala. Þa kallade Jsraelis Kongur eirn sinn Herbergis Suein/ ⁊ sagde/ Sæk þu ō
2. Para. 18. skiotast Micheas son Jemla.

Og Jsraels Kongur ⁊ Josaphat Juda Kongur sætu huer a sijnum Stole/ skrydder Kong=
ligum Skrwda/ og sætu fyrer Portdyrum Samarie Borgar a einum Flot. Og aller Spa
Zedekias og menn spaadu fyrer þeim. Og Zedekia Son Cnaena hafde giort sier Jarnhorn/ og sagde/
þeir Fals pro= Suo seiger DROTTIN/ Med þessū skallt þu sla þa Syros/ þar til ad þu afmaaer þa.
phetar Og aller Spamen̄erner spaadu mz sama hætte/ ⁊ sogdu/ Far þu vpp til Ramoth i Gilead/ og
mun þier at godu verda/ DROTTEN mū giefa hana i Kongsins Hendur

En̄ Sendemaduren̄ sem vt var geingen̄ ad kalla Micheam/ sagde til hn̄s/ Sia/ Spamen̄ C
seiga aller mz einū Mun̄e Konge fyrer Farsællega hlute/ So læt nu þijn Ord samhlioda ver=
da þeirra Ordum/ ⁊ tala þad sem gott er. Micheas suarade/ Suo sannarliga sem DRO=
TTIN lifer/ eg vil tala þat sem DROTTIN seiger mier.

Micheas Og sem hn̄ kom nu fyrer Konginn/ þa sagde Kongurinn til hn̄s/ Michea/ Skulu vier fa=
ra til Bardaga til Ramoth i Gilead/ eda skulu vier huerge fara? Hn̄ suarade og sagde/ Jaa

far vpp

far vpp þangat/ og mun þier vel luckast/ DROTTIN skal giefa hana i Kongsins hen dur. Kongurinn sagde enn eitt sinn til hn̄s/ Eg sære þig/ at þu eckert annad seiger mier enn þat sem satt er i DROTTINS Nafne. Hn̄ suarade/ Eg sa allan̄ Jsrael sundurtuistrast vm̄ Fiollen/ eins ꝛ Sauder þeir sem onguann Hirder hafa. Og DROTTIN sagde/ Ha fa þesser onguan̄ Hirder? Snue huer heim aptur i sitt Hws mz Fride. Þa sagde Jsraelis Kongur til Josaphat/ Hefe eg ecke sagt þier þat/ ad þesse spæer mier einskis godz/ helldur jaf nan jlls?

Þa suarade Micheas/ Heyr nu fyr' þui Ord DROTTINS/ Eg sa DROTTIN sitia i sijnu Hasæte/ ꝛ allur Himensins Her stod fyrer hm̄/ til hægre ꝛ Vinstre handar. Og DROTTIN sagde/ Huer vill Rædleggia þat Achab/ at hn̄ fare vpp/ ꝛ falle i Ramoth i Gilead? Og eirn sagde þetta/ enn annar þad. Þa kom þar eirn Ande vt/ ꝛ gieck fram̄ fy rer DROTTIN/ ꝛ sagde/ Eg vil koma honum til þess. DROTTIN sagde til hn̄s/ Lygie Ande
D Huar mz? Hn̄ sagde/ Eg vil fara vt/ ꝛ verda eirn Lygie Ande i Mun̄e allra hn̄s Spa- manna. Hn̄ sagde/ Þu skallt koma honum þar til/ ꝛ þu skallt framkuæma þat/ Gack vt/ ꝛ gior suo. Sia þu nu/ DROTTIN hefur giefed eirn lyge Anda i Munn allra þinna Spamanna/ ꝛ DROTTIN hefur talat jllt j giegn þier.

Þa gieck fram̄ Zedechia son Enaena/ ꝛ slo Micheam Þwstur/ ꝛ sagde/ Huad? Er An- de DROTTINS þa vikinn fra mier/ at hn̄ tale vid þig? Micheas suarade/ Sia/ Þu munt þad sia a þm̄ Deige/ þa þu geingur wr einu Herberge ꝛ til annars/ so þu meiger fela þig. Þa sagde Jsraels Kongur/ Taked micheam Höndum/ og læted hn̄ vera hia Am̄on Borgmeistara/ og hia Joas Kong syne/ ꝛ seiged/ Suo seiger Kongurinn/ Setied þennann jnn i Myrkuastofu/ ꝛ næred hn̄ mz Sorgarbraude ꝛ hrygdar Vatne/ þar til at eg kiem aptur mz Fride. Micheas suarade/ Ef þu kiemur aptur mz Fride/ þa hefur DROTTIN ecke ta- lat fyrer mig. Og hann sagde/ Heyre þat allur Lydur. Zedekia slær Micheam

Jsraels Kongur ꝛ Josaphat Juda Kongur foru nu vpp til Ramoth i Gilead. Og Jsra
E els Kongur sagde til Josaphat/ Breyt þu þijnum Klæda bwnade/ ꝛ gack suo i Bardaga med þijnum Klædum sem þu hefur a þig teked. Og Jsraels Kongur skipte Bwninge ꝛ torken de sig ꝛ for i Bardaga. Enn Kongurin af Syria baud sijnum Höfdingium s̄ styrdu hn̄s Vögnum/ huerier at tölu voru tueir ꝛ þriatijger/ Og hn̄ sagde/ Beriest ecke mote neinu̅ Ma- nne huerke smam nie storum/ vtan alleinasta a mote Jsraels Konge. Enn sem Höfdingiar- ner fyrer Vögnönum sau Josaphat/ þa ætludu þeir at hn̄ munde vera Jsraels Kongur/ ꝛ þr veittu honum harda adsokn j Bardaganum. Þa kallade Josaphat vpp. Enn sem þeir Höfdingiar fyrer Vögnunum formerktu/ at hn̄ var ecke Jsraels Kongur/ þa sneru þeir þeg ar fra hm̄.

Enn suo skiede/ at eirn Madr span̄ade sinn Boga/ þo ouitande a huern hn̄ stefnde/ ꝛ Dr- en nam stad a Konge Jsraels/ millum Pansarans ꝛ Suerdreimaren̄ar. Þa sagde hn̄ til Sueins þess sem Vagnenum styrde/ Snu þinne Hende/ og vijk mier vr Bardaganum/ þui eg er sar ordinn. Bardaginn hiellst allann þann Dag/ ꝛ Kongurinn stod vpp i Vagn- enum i mot þeim Syris/ ꝛ do a þui sama Kuellde. En̄ Blodet flaut af Sarenu mitt i Vag nen̄. Og ædr Sol gieck til Vidar/ ran̄ Kallare vm Herin̄/ ꝛ sagde/ Fare huer j sijna Borg/ ꝛ til sijns Landz. Suo liet nu Achab Kongur Lijf sitt/ ꝛ var fluttur til Samaria/ ꝛ þar var Achab fellur i Strijde Supra 21.
F hn̄ jardadur. Enn sem þeir þuodu Vagnenn hia eirne Tiörn i Samaria (nærre þui sem Naboth var gryttur) þa sleiktu Hundar hn̄s Blod. Skiækiur þuodu hn̄/ epter Ordu̅ DRO TTINS s̄ hn̄ hafde talat.

Huad sem meira er ad seigia vm Achab/ ꝛ allt þat hn̄ giörde/ ꝛ vm hn̄s Hws sem hn̄ byg- de af Filabeinum/ ꝛ vm þa alla Stade sm̄ han̄ liet vppbyggia/ Sia/ þat er skrifad i Jsraels Konga Chronicu. So sofnade Achab mz sijnum Fedrum/ en̄ hn̄s son Ahasia tok Kongdom epter hn̄. Ahasia

Og Josaphat son Asa vard Kongr yfer Juda/ a þui fiorda Are Achabs Jsraels Kongs. Hn̄ var half fertugur þa han̄ vard Kongur/ ꝛ Rijkte fim̄ ꝛ tuttugu Aar i Jerusalem. Hn̄s Moder hiet Asuba/ Dotter Silhi. Og hn̄ gieck allan̄ veg sijns Födurs Asa/ ꝛ veik ecke þar af/ ꝛ hn̄ giörde þad DROTTNE vel þocknadist. Þo tok hn̄ ecke burt þær Hæder/ ꝛ Folk- ed offrade enn þa/ ꝛ brende Reykelse a Hædunum. Josaphat hiellt Frid vid Jsraels Kōg. Josaphat 25 Aar Kongur i Juda

Huad meira er at seigia af Josaphat/ vm̄ hn̄s Magt/huad hn̄ hefr giört/ z vm hn̄s Her
2. Para. 15. nad/Sia/Þat er skrifad i Juda Konga Chronicu. Nn̄ vtrymde Horkalla af Landenu/ sm̄ ad
18. epter voru ordnar i tijd Asa hn̄s Fodurs. G
Þa var einginn Kongur i Edom. Og Josaphat liet giøra Skip til Sios/ sem skyllde fa
3. Reg. 9. ra til Ophir/at sækia Gull. Enn Þau foru ecke Þangat/ Þui Þau vrdu i sundur sleigen i E-
2. Par. 20. seonGeber. A Þeim tijma sagde Ahasia son Achab til Josaphat/ Lat mijna Þiena-
ra fara mz Þijnum Þienurum a Skipunum. Enn Josaphat villde ecke.
Joram Og Josaphat sofnade mz sijnum Fedrum/ z var jardadur mz sijn-
4. Reg. 8 um Fedrum i Borg Dauidz sijns Fodurs .Og Jo-
ram hn̄s son vard Kongur i hañs stad.

## Ender a Þeirre Þridiu Konga Bokiñe



## Til Lesarans

Lat Þig ecki villa Þad/ Þu godur Christeñ Lesare/ ad vier høfum sett suo Titeleñ III. Bok Kongaña et ct. Þar i Þyduersku Bibliuñe stendr/ Fyrsta Konga Bok. Þui i Þysku Bibliuñe kallast su i. Konga Bok/ epter Ebreskuñe/ sem wier reiknum iij. Konga Bok/ epter Latinsku Bibliu/ og so sem nu plaga almenneliga Lærder Menn ad hallda/ Sömuleidis köllum wier Þa Fiordu Konga Bok sem i Ebreskuñe og Þyskuñe kallast aunnur Bok Konganna et ct/ Þui vier köllum Bækur Samuelis/ Þær Fyrstu tuær Konga Bækur et ct.

# Su Fiorda Bok Konganna

## I.



A Hasia son Achab vard Kongur yþer Jsrael Ahasia 2. ar Kongur yþer Jsrael
i Samaria/ a þui seytianda Aare Josaphat Juda Kongs/ ⁊ hn̄
rijkte yfer Jsrael tuø ar. Hn̄ giørde þat sem DROTTNJ
jlla lijkade/ ⁊ for allann ferel Fødur sijns ⁊ Modur/ ⁊ gieck ep-
ter Veige Jeroboams sonar Nebat/ sem Jsrael kom til ad
syndgast. Og hn̄ þionade Baal/ ⁊ tilbad hn̄/ En̄ stygde ⁊ rei-
tte DROTTJN Jsraels Gud/ eins lijka s̄ hn̄s Fader giør-
de. Epter Andlaat Achab fiellu Moabite fra Jsrael.
En̄ þad skiede suo/ at Ahasia fiell ofan vm Loptsualer nock-
rar/ i sijnū Sal til Samaria/ ⁊ vard siukur. Og hn̄ sende vt
Menn/ ⁊ sagde til þeirra/ Fared/ ⁊ spyried BaalSebub ad/ sm̄
er Gud i Accaron/ huort eg mun lifna ⁊ verda heilbrigdur af þessū Siukdome? En̄ Eingill
B DROTTJNS talade vid Elia Thesbiter/ Rijs vpp/ ⁊ gack a Veiginn fyrer Kongs sen-
demen̄ af Samaria/ ⁊ seig til hn̄s Sendeman̄a/ Er þar nu eingin̄ Gud i Jsrael/ at þier far-
et ⁊ spyried BaalSebub Gud þra j Accaron? Þar fyrer seiger DROtten so/ Eige skalltu Baal Sebub
rijsa vr þeirre Reckiu sem þu liggur j/ helldur skallt þu visseliga deyia. Og Elias geck burt.
En̄ sem Sendemen̄ komu til hn̄s aptur/ þa sagde hn̄ til þra/ Þui kome þier aptur? Þeir
suørudu honum/ Þar kom eirn Madr i mote oss/ ⁊ sagde til vor/ Snued aptur til Kongsins/ s̄
ydr sende/ ⁊ seiget honum/ So seiger DROTTJN/ Er þar þa eingin̄ Gud i Jsrael/ at þu
sender til frietta til BaalSesub Gud Accaron. Þess vegna skallt þu ecke rijsa vr þssare Rec-
kiu þar þu liggr/ þt þu skallt Dauda deyia. Han̄ sagde til þra/ Huersu var sa Madr i hatt
sem ydr mætte/ ⁊ sagde ydr þetta? En̄ þeir suørudu honum/ Hn̄ var i lodnu skin̄e/ ⁊ hafde eitt Klædnadr Elia
Olar Bellte vm sijnar Lendar. Enn hn̄ suarade/ Þat er Elias Thesbiter.
C Og hn̄ sende til hn̄s eirn Høfudzman̄ yfer fimtijger/ ⁊ mz honum þa fimtijge (s̄ vnder hm̄
voru) En̄ sem þesse kom vpp til hn̄s/ Sia/ þa sat hn̄ efst a Fiallenu. Og hn̄ sagde til hn̄s/
Þu Gudz Madr/ Kongurinn seiger at þu skuler koma ofan. Elias suarade þm̄ sama Høf-
udz Manne yfer fimtijge/ ⁊ sagde/ Sie eg Gudz Madur/ þa falle Elldr af Himne ⁊ vppsuel- Elias baud Ellde þalla aþ Himnenum
ge þig og þijna fimtijge. Þa fiell þar Elldur af Himnenum/ ⁊ vppbrende hn̄/ ⁊ þa fimtijge
sm̄ voru mz hm̄. Luc. 9.
Og enn sende hn̄ aptur an̄an̄ Høfudzman̄ til hn̄s/ huer ⁊ settur var yfer fimtijger/ ⁊ fimtij
ger Menn mz honum. Og hn̄ talade til hn̄s/ Þu Gudz Madur/ suo seiger Kongurin̄/ Kom
sem skiotast ofan. Elias suarade/ ⁊ sagde/ Sie eg Gudz Madr/ þa falle Elldur af Himne/
⁊ vppsuelge þig ⁊ þina fimtijge. Þa fiell Elldr Gudz af Himne ⁊ vppsualg hn̄ ⁊ hn̄s fimtijge
Sijdan sende hn̄ aptur þann þridia Høfudzmann/ sem ⁊ var yfer fimtijge/ ⁊ mz hm̄ fimtij-
ger Men̄. Og er hn̄ kom vpp til hn̄s/ þa beygde hn̄ sijn Knie fyrer Elia/ bad hann ⁊ sagde til Þesse Høfudzmadur var Gudhræddur
D hn̄s/ Þu Gudz Madur/ Vægdu Saalu min̄e/ og Saalum þessara þin̄a fimtijger Þienara.
Sia/ þar fiell Elldur af Himne/ ⁊ vppbrende þa tuo fyrstu Høfdingia yfer fimtijger mz þeir
ra fimtijger mønnum/ Laat nu mijna Saal gillda nockut fyrer þier. Þa sagde Gudz Eingill
til Eliam/ Far ofan mz honum/ ⁊ ottast ecke.
Og hn̄ reis vpp/ ⁊ gieck ofan mz honum til Kongsins. Og hn̄ sagde til hn̄s/ Suo seiger
DROTTJN/ Fyrer søkum þess/ ad þu sender bod/ ⁊ liest atspyria BaalSebub Afgud þra
i Accaron/ so sm̄ þar være eingin̄ Gud i Jsrael/ huern þu meiger ad Orde spyria/ Þui skallt Ahasia ādast
þu nu ecke rijsa vr þeirre Reckiu/ sm̄ þu liggur i/ helldur skallt þu visseliga deyia. Og so do
hn̄ epter DROTTJNS Orde/ suo sem Elias hafde talad. Og Joram tok Kongdom ep
ter hn̄/ a ødru are Joram sonar Josaphat Juda Kongs/ Þui hn̄ atte onguann son. Huad Joram
meira er at seigia vm Ahasia/ Sia/ þat er skrifad i Jsraelz Konga Chronicu. Supra 11.

## II.


ñ þegar sa tijme kom/at DROTTIN villde vpptaka Eliam i Vindbylnū A
til himens/ þa geingu þr tueir samt/Elias ⁊ Eliseus fra Gilgal. Og Elias
sagde til Eliseum/ Sit hier epter/þt DROTTIN sende mig til BethEl.
Eliseus sagde/ So sannliga sm̄ DROTTIN lifer/⁊ þijn Sæl/þa skilst
eg ecke vid þig. Og sem þeir komu ofan til BethEl/þa geingu Spamañ
anna syner sm̄ voru i BethEl/vt a mote Eliseo/⁊ søgdu til hañs/ Veist þu
þat/ad DROTTIN vill a þssum Deige taka þinn Herra fra þijnu Høfde? Hñ sagde/
Eg veit þat ⁊ vel/ vered hlioder.

Og Elias sagde til hñs/Elisee/Eg bid/vert hier epter/þui DROTTIN hefur sent mig
til Jericho. Hñ sagde/Suo sañarliga sem DROTTIN lifer ⁊ þijn Sæl/þa skilst eg ec-
ke vid þig. Eñ sem þeir komu til Jericho/þa geingu Spamañanna syner til Eliseum sem
voru i Jericho/⁊ søgdu til hñs/Veist þu þat / at DROTTIN vill a þessum Deige taka
þiñ Herra fra þijnu Høfde? Hñ sagde/Eg veit þat fullgiørla/eñ hafed hliott. Og Elias
sagde til hñs/Eg bid/vert þu epter hier/Þui DROTTIN hefur sent mig til Jordan. Hñ B
sagde/So sannarliga sem DROTTIN lifer/⁊ þijn Sæl/eg fyrerlæt þig ecke. Og þeir
geingu tueir samt. Og fimtijger Meñ af Spamañanna Sonum fylgdu þeim epter/⁊ stodu
gagnuart langt/ fra þeim/Eñ þeir stodu bæder hia Jordan.

Þa tok Elias Møttul siñ/ ⁊ vafde hñ samañ/⁊ slo hm̄ a Vatned/eñ þat skiptist þegar i
tuo stade/suo þeir geingu bæder þurrum footum þar yfer vm. Eñ sem þeir komu yfer vm/þa
sagde Elias til Eliseum/ Bid huers þu villt/at eg veite þier/ ædr eg verd vppnumeñ fra þier.
Eliseus sagde/Eg bid/ad þiñ Ande meige tuefalldast i mier. Hñ sagde/Þess hefr þu bedet s̄
ei er auduelldligt at veita. Eñ allt at einu/ef þu sier mig þa eg verd numeñ fra þier/ þa skal
þier veitast Bon þesse/Eñ siaer þu mig ecke/þa skier þat ecke.

Gud tekur Eliam burt

Eñ sem þeir geingu/⁊ tøludust vid/Sia/þa kom þar eirn Elldligur Vagn mz elldligum
Hestum/⁊ skilde suo mz þeim/Og Elias for i Vindbylnū til Himens. Eliseus leit epter ho-
num/⁊ kallade/Miñ Fader/Miñ Fader/Jsraels Vagn ⁊ hñs Formadur. Og hñ sa hñ C
ecke meir. Og hñ tok sijn Klæde/ ⁊ hreif þau sundur i tuo Hlute.

Enoch var vppnumeñ a fyrsta Heims Alldre/Elias a midium Heims alldre/Christus a hinum sijdasta/til Vitnisbur/dar/ad þar er wissuliga eitt eilyft Lyf (epter þetta)

Og hñ tok Møttul Elie/sem fiell fra honū/huarf aptr ⁊ kom til Jordanar. Og tok þañ
sama Møttul Elie sem fiell fra honum/⁊ slo a Vatnet/⁊ sagde/Huar er nu DROTTIN
Elie Gud? Og hñ slo i Vatned/Þa skiptest Vatned i tuo hlute/⁊ Eliseus gieck yfer vm.
Nu sem Spamañanna syner þad sæu/sem voru i Jericho/giegnt honum/þa søgdu þeir/An-
de Elie huijler yfer Eliseo. Og þeir geingu i mot honum/ lutu honum/ ⁊ fiellu til Jardar.
Og þeir søgdu til hñs/Sia/hier eru fimtijge hraustra maña a medal þiña Þienara/læt þa
fara ad leita epter þijnū Herra/Skie ma ad DROTTINS Ande hafe teket hñ/⁊ sett hñ
nidr nockurstadar a eitthuṫ Fiall/ edr nockurs stadar j eirn Dal. Hñ sagde/Lated þa huerge
fara. Enn þeir neyddu hñ/ suo leinge ad hañ liet þat epter þeim/og sagde/ Fare þeir. Og
þeir sendu fimtijger Meñ af stad/⁊ þeir leitudu epter honum i þria Daga/ ⁊ fundu hñ huer-
ge. Og þeir komu aptur til hñs. Og hñ var i Jericho/⁊ sagde til þra/Sagde eg ei ydur/ad D
þier skylldut huerge fara?

Historian af Eliseo

Og Borgarmeñerner søgdu til Eliseum/Sia/þesse Stadur er godr i bwdar/suo sem minn
Herra sier/Enn hier er vont Vatn/⁊ Jørd miøg ofriosøm. Hñ sagde/Fæ red mier hingat ei-
na nyia Skal/⁊ læted Sallt i hana. Og þeir færdu honum Skalena. Sijdan gieck hñ vt
til Vppsprettunnar/⁊ varpade Salltenu i hana/⁊ sagde/Suo seiger DROTTIN/Þetta
Vatn giørda eg heilnæmt/þar skal eingeñ Daude/eda nockurs hattar ofrioleikur vera hied-
an i fra. Suo vard Vatned heilnæmt/allt til þessa Dags/epter þeim ordum sem Eliseus
hafde sagt.

Og hñ gieck vpp til BetEl. Og sem hñ var komeñ a Veigiñ/ þa geingu þar Smasuei-
nar vt af Stadnū/⁊ hæddu hñ/⁊ søgdu til hñs/Stijg vpp Skalle/Stijg vpp Skalle. Og s̄

42. Sma sueinar sundur rifner af Birnum

hñ leit vid/⁊ sa þa/þa bøluade hañ þeim i Nafne DROTTINS. Þa komu þar tuø
Biarn dyr vr Skogienum/ og slitu tuo ⁊ fiorutijge af þessum Smasueinū. Og hñ gieck
þadan vppa Fiallet Carmel/⁊ snere þadan til Samaria.

A Joram son Achab vard Kongur yfer Jsrael i Samaria/a þui atiāda are Jo- 9
saphat Kongs Juda/og rijkte tolf Aar. Og hn̄ giørde þat sem DROTT- Joram 12.
NI jlla lijkade/Þo eige so sem hn̄s Fader ꝛ hn̄s Moder. Þui hn̄ burt tok Ba Aar Kongur
als Skwrgod/ sem hn̄s Fader liet giøra. Enn þo gieck hn̄ fram̄ epter Syn- yfer Jsrael
dum Jeroboam sonar Nebat/sem Jsrael kom til at syndgast/ꝛ liet þar ecke af.
Og Mesa Moabita Kongur hafde fiølda Sauda/ Nū greidde Skatt Js-
raels Konge Hundrad Þusund Lambareyfe/ꝛ Reyfe af Hundrad Þusund Hrwtum. Eñ sem Mesa fiell
Achab var daudur/þa fiell Kongur Moabitarum fra Jsraels Konge. Sijdann for Joram fra Jsraels
Kongur vt af Samaria/a þeim sama tijma/ ꝛ safnade at sier øllum Jsrael. Og hañ sende Konge
burt til Josaphat Kongs i Juda/ꝛ liet seigia honum/ Kongur þeirra Moabitarum er falliñ 2. Par. 20.
fra mier/ Kom mz mier/at beriast vid þa Moabites. Nū suarade/Eg vil koma/Eg er s̄ þu/
ꝛ mitt Folk suo sem þitt Folk/ꝛ mijner Hestar suo sem þijner Hestar. Og hn̄ sagde/Vm hūn
B veg vilium vid fara vpp þangad? Nū sagde/a þañ Veg sm̄ liggur vm Edoms Eydemørk.
Suo ferduðust þeir Jsraels Kongur/ꝛ Kongur Juda/og Kongureñ af Edom. Og sm̄ þr
høfdu flutt Her sinn siø Daga i samt/þa hafde Herenn og þat Kuikfie sem var mz þeim eck- Josaphat
ert Vatn. Þa sagde Jsraels Kongur/O wei/DROTTJN hefur kallad þessa þria Kon- 3. Reg. 22.
ga saman/ at hn̄ giefe þa i hendr Moabitarū. Josaphat suarade/Er hier eingeñ Spamadr
DROTTJNS/ so vier meigum spyria DROTTJN at Rædum fyrer hn̄? Þa suar-
ade eirn af Jsraels Kongs Þienurum/ꝛ sagde/Hier er Eliseus son Saphat/sem gaf Vatn
a Elias hendur. Josaphat sagde/Hia honum er Ord DROTTJNS. Suo foru þeir
Jsraels Kongur og Josaphat/ꝛ Edoms Kongur ofan til hn̄s.
Þa sagde Eliseus til Jsraels Kongs/Hvad hefur þu mz mig? Far burt til Spamanna
Fodur þijns ꝛ Modur þinnar. Jsraels Kongur suarade honum/Nei/Þuiat DROTT-
JN hefur samansafnad þessum þremur Kongum/at hn̄ giefe þa i Hendur þeirra Moabita-
rum. Eliseus suarade/Suo sañarliga sem DROTTJN Zebaoth lifer/fyrer huers Aug-
C lite eg stend/ef eg sæia ecke Josaphatz Andlit Juda Kongs/skyllda eg þig huerke Augū sæ/
nie lijta. Enn kalled til mijn þañ Mañ sem vel leikur Psalterium. Nu sem sæ Madur Eliseus spaar
tok at leika/þa kom DROTTJNS Hønd yfer hañ. Og hañ sagde/Suo seiger DRO- fyrer
TTJN/Giøred Grafer hier ꝛ huar hia þessū Læk. Þui so seiger DROTTJN/Þier
skulud huerke sia Vind nie Regn/þo skal þesse Lækur verda fullur af Vatne/suo at þier/ yd-
rer Þienarar og ydart Kuikfie skal drecka þar af. Þar mz er þad lijtils vert fyrer DROT
TNI/ Nū skal og giefa Moabitas i ydar hendur/ suo at þier mūud slæ allar þeirra sterku-
stu Borger/og alla vtvalda Stade/þier skulud og vpphøggua øll Avaxtarsøm Trie/og þier
skulut byrgia alla Vatzbruña/ꝛ hylia Griote alla agiæta Akra.
Arla Morguns/vm Fornfæringar tijma/Sia/þa kom þar rennanda Vatn/a Veige sm̄
liggur fra Edom/og vppfyllte Landet mz Vatn.
Eñ sem aller Moabiter spyria þetta/at Kongar voru komner mz Her i mot þm̄/ þa køllu-
du þeir alla þa til samans sem Vopnum gætu valldet/ ꝛ fluttu Heriñ til siña Landamerkia.
D Snem̄a Morguns toku Moabite sig vpp/ og Solen gieck vpp og Skein a Vatned/ voru þa Teikn til
Vøtn þeim Moabitis suo raud at sia sem Blod være. Þa søgdu þeir/Þat er Blod/Kong Osigurs
arner hafa barest sijn a mille ꝛ drepist nidur/ Moab far nu ꝛ tak Herfang. Eñ sem þeir
komu til Jsraels Herbwda/þa stod Jsrael vpp/ꝛ slo þa Moabiter/ꝛ þeir flydu fyrer þeim.
Enn þeir komu ꝛ slou Moab/ꝛ niburbrutu Borgernar/ꝛ huer kastade sijnum Steine a alla Moabiterner
goda Akra/ꝛ fylltu þa af Griote/og þeir tilbyrgdu allar Vatz vppsprettur/ ꝛ hiuggu nidur slæst i hel
øll god Trie/suo leinge ad þar var ecke epter vtan Steinarner af Mwrnum. Og þeir ga
fu sig til hn̄s mz Valsløngum/ og slou hn̄.
Enn sem Moabiter Kongur sa/at i oefne var komed fyrer honum/þa tok hn̄ siø Hundrut
Manna til sijn/þa enu fræknustu/ꝛ villde briotast fram̄ i mot Kongenum af Edom. Enn Kōgr Moab
þeir gætu þat ecke. Sijdan tok hañ sinn Frumgietenn Son/huer at verda ætte Kongur i offrade sijnum
hn̄s Stad/ꝛ offrade honum vppa Mwrnum til Breñeoffurs. Þa vard Jsrael miøg reidur/ Syne
ꝛ þeir drogu fra honum/og sneru aptur i sitt Land.

IIII.

Eliseus hialpar þatækre Eckiu



G ein af Eigenkonū Spamaña sona kallade til Eliseum/ ꝛ sagde/ Þiñ Þie- A
nare minn Bonde er andadur. Suo veist þu/ at hañ þinn Þienare ottadist
DROTTIN/ Nu kom þar eirn Madur/ sem ætte skulld hia honum/ ꝛ vill
taka bæda mijna Sonu til Þrældoms. Eliseus suarade henne/ Huad skal eg
giora þier? Seig mier/ Huad hefur þu i þijnu Hwse? Hun suarade/ Þijn
Þienustu Kuiña hefur ecke i sijnu Hwse/ nema eina Vidsmiørs Krws. Hañ
sagde/ Far þu/ bid þær Konur ed næstar bwa/ at þær liene þier tom Kier/ eige allfæ. Og gack
jnn/ ꝛ loka þu Dyrunum at þier ꝛ þijnū sonum/ og skulud þier læta af þessu Vidsmiøre j øll
Kieren/ Og þa þau eru full/ þa set þau fra þier.

Gud er Ecknanna Fader og þeirra Födurlausu

Hun for/ ꝛ lokade Dyrunum ad sier/ og sijnum Sonum/ þeir færdu Kieren til hennar/ enn
hun hellte i þau. Eñ þa Kieren voru full/ þa sagde hun til sins sonar/ Fa mier eñ eitt Kier.
Hū suarade/ Hier eru ecke fleire til. Þa stod Vidsmiøred. Og hun gieck vt/ ꝛ kunngiørde
þetta Gudz Mañe. Hū suarade/ Far nu ꝛ sel þitt Vidsmiør/ ꝛ bitala þat sem þu ert skyll- B
dug/ Sijdan skallt þu ꝛ þijner syner hafa ydr til Atuiñu þat s̄ meira er.

Og þat skiede eitt sinn/ at Eliseus gieck til Sunem/ Þar bio ein rijk Kuinna/ hun hiellt ho
num Herberge/ ꝛ hañ tok sijna Fædu hia henne. Og sem hañ for nu optliga þañ Veg/ þa
tok hū gisting hia hñe/ ꝛ þaa heñar fædu. Og hū sagde til sins Bonda/ Sia/ eg merke at þsse

Su Sunamitis herbergiar Eliseum

Gudz Madur er Heilagur/ sem jafnan a Veg vm vor Hws/ Þui vil eg vid giørum ho-
num eitt lijted Herberge ꝛ þilium þ/ og buum honum þar Sæng ꝛ Sæte/ Bord ꝛ Kiertestiku/
suo ad nær hū kiemur til vor/ þa meige hū vera þar.

Og þat skiede suo eirn tijma/ at hū kom þar jñ/ ꝛ lagde sig i Herberged/ ꝛ tok þar Huijld/
Þa sagde hū til sijns Þienara Giezi/ Kalla þu a þessa Sunauersku Kuiñu. Og sm̄ hū kall
ade a hana/ þa kom hun fram̄ fyrer hū. Hū sagde til hūs/ Seig til hennar/ Sia/ þu hefur
veitt oss allañ þeñan goduilia/ Huad villt þu at eg giøre þier? Hefur þu nockurt Erinde/ þa
vil eg flytia þat fyrer Kongeñ/ eda fyrer Hershøfdingiañ. Hū suarade/ Eg by a millū mijns C
Folks. Hū sagde/ Huad vill hun þa af mier þiggia? Giezi sagde/ Herra/ hun hefur ong-
uann Son/ eñ heñar Madur er gamall. Hū sagde/ Kalla þu a hana. Og sem hū kalla-
de hana/ þa gieck hun framan i Dyrnar. Og hū sagde/ A þessum sama tijma at ærenu lid-
nu/ þa skallt þu taka eirn son i fang. Hun suarade/ O nei minn Herra/ Þu Gudz Madur/
bid eg þu kallser ecke þijna Ambætt. Og Kuinnan vard þungut/ og fædde eiñ Son/ a þeim
sama tijma/ at ærenu lidnu/ so sm̄ Eliseus hafde sagt heñe.

Enn nu sem þesse Sueirn var Vaxinn/ þa bar suo til/ at hañ gieck vt til sijns Fødurs/ til
Kornskurdarmanna. Og hū sagde til sijns Fødurs/ O/ mitt Høfud/ mitt Høfut. Hann
sagde til sijns Þienara/ Ber hū til siñar Modur. Og hū tok hū/ ꝛ færde hū til siñar Modr.
Og hū lagde hū i sitt Skaut/ allt til Middags/ þa andadist hū. Hun gieck vpp/ ꝛ lagdi hū
i Sæng Gudz Mañs/ Liet aptur Dyrnar/ og gieck vt. Og hun kallade a siñ Bonda/ og D
sagde/ Send mz mier eirn af Þienorunū/ mz eina Ølsnu/ Eg vil fara til Gudz Mañs/ ꝛ koma
aptur. Hū sagde/ Þui villt þu fara/ nu er huerke nyr Manudur nie Sabaths Dagur? Hū
sagde/ Þad er vel. Og hun liet sødla Ølsnu/ ꝛ sagde til Þienarans/ Keyr fast/ ꝛ tef mig ec-
ke a ferdiñe/ giør sem eg seige þier.

Þesse Kuiña war kiend wid þann Stad sem hun war fædd og þui köllut Sunamitis

Hun for af stad/ ꝛ kom til Gudz Mañs a Fialled Carmel. Og sem Gudzmadur sa ha-
na/ þa sagde hū til sijns Þienara Giezi/ Sia/ su Sunamitis er þar. Far þu i mot heñe/ ꝛ
spyr hana at/ huert allt geingur vel/ heñar Mañe ꝛ heñar Syne? Hun sagde/ Vel. Eñ
sem hun kom til Gudz Mañs a Fiallet/ þa hiellt hun vm hūs Fætur. Giezi gieck ad/ ꝛ villde
hrinda heñe þar fra. Eñ Gudz Madur sagde/ Læt hana kyrra/ Þui hun er Harmþrwng-
en/ Eñ DROTTIN leynde mig þui/ ꝛ lætur mig ecke vita þat. Hun sagde/ Hær bad eg
vm eirn son af mijnum Herra? Bad eg ecke/ ad þu skyllder ecke kallsa mig?

Hū sagde til Giezi/ Gyrd þijnar Lendar/ ꝛ tak miñ Staf i þijna Hønd/ far af stad (ef þier E
Luc. 10. mæter nockur/ þa heilsa honum ecke/ Eñ ef nockur heilsar þi'/ þa suara þu honum onguu) og
4. Reg. 9. legg minn staf yfer Asionu Sueinsins. Moder Þilltsins sagde/ So sañarliga sem DRO-
TTIN lifer og þijn Sæl/ eg fyrerlæt þig ecke. Hū stod vpp/ ꝛ gieck epter henne. Eñ Gie-
zi rañ vndā þm/ ꝛ lagde Stafeñ yfer Sueinsins Asionu/ eñ þar skipadist ecke par vid. Og hū
rañ i mote honum aptur/ vnderuijsade hm̄/ og sagde/ Eige reis Sueirnen vpp.

Eñ sem Heliseus kom i Hwset/ Sia/ þa læ Sueirneñ daudur a hūs Sæng. Og hū gieck
Math. 6. jñ þāgad/ ꝛ lokade Dyrnar at þm̄ bædū/ ꝛ bad til DROTTINS. Og hū stie vpp (i Sæn
gina) ꝛ

ena) & lagde sig yfer Sueinen/ & lagde siñ Muñ vid Barnsins Muñ/ & sijn Augu vid Barn-
sins Augu/ og sijnar hendr vid þss hendr/ & breidde sig yfer hañ/ so at Barnsins Lijkame vard
Varmur. Og hñ stod vpp aptur/ & gieck aptur & fram vm Hwsed/ og stie vpp i añad siñ/ Eliseus lif-
F & breidde sig yfer hñ. Þa hnerrade Sueirnenn siø sinnum/ Þui næst vpplauk hñ sijnum Au- gar þañ framliḋna
gū. Og hñ kallade a Giezi/ & sagde/ Kalla þa Sunamitis. Og sem hñ kallade hana/ Gieck
hun jnn til hñs. Hñ sagde/ Sia/ tak þar þiñ Son. Þa kom hun/ & fiell til Foota honum/ &
til bad/ fallande øll til Jardar. Og hun tok siñ Son & gieck vt.

Eliseus kom aptur til Gilgal. Þa vard Hallære i Landenu/ og Spamañaña syner biu- Dyr tijd a
ggu fyrer honum. Og hñ sagde til sijns Þienara/ Sæt vpp eirn storañ Kietel/ & bw til bwd- Døgum Eliset
aruørd handa sonum Spamaña. Þa gieck eirn vt a Akuriñ at safna saman Jurtum/ og
fañ ville Vijnkuistu/ & tijnde þar af siñ Kyrtil fullañ med Colocintidas/ Og sem hañ kom/ þa Colocintida
skar hñ þad i Kietilen til Bwdaruørds/ þui þr vissu ei huad þat var. Og sem þat var vpp vita Menn eige giørla huad ad
G læted fyrer Folked/ og þeir ætu þar af/ þa kølludu þr vpp/ & søgdu/ O Gudz Madr/ Daude er er/ enn sumer
i Katlenum/ Þui þeir gætu ecke eted þar af. Þa sagde hñ/ Færed mier Miøl. Og hañ kalla þad
kastade þui i Kieteleñ/ & sagde/ Giefed nu Folkenu/ so þ meigi eta. Þa var eckert Banuænt i Akur dæe
Katlenum.

Og þar kom eirn Madur af Baalsalisa/ færande Gudz Manne tuttugu Byggbraud af
sijnum fyrsta Auexte/ j sijnu Klæde/ og nytt Miøl. Enn hñ sagde/ Gef þetta Folkenu at
eta. Hñs Þienare suarade/ Huernen skal eg kuña at giefa þat hundrad Mønnum? Hann
sagde/ Gief þu Folkenu suo þat neyte. Þuiat suo seiger DROTTEN Meñ munu eta/ og
mun þo afganga. Hñ lagde þat fyrer þa/ og þeir ætu aller/ og þo gieck þar af/ epter Orde
DROTTINS.

# V.

A NAaman Hershøfdinge Kongsins i Syria/ hñ var mykill Madur & Mækt- Naeman
ugur/ & heidarligur Halldeñ fyrer sijnum Herra. Þui DROtten gaf Far Luc. 4.
sællo j Syria fyrer hñ/ Og hñ var mikell Hermadr/ eñ þo var hañ Lijkþrær
Og Vijkingar af Syria hefdu heriat/ og høfdu Herteked eina vnga
Mey af Jsraels Lande/ huer ad þionade Naamañs Kuinnu. Hun talar
so fyrer sinne Fru/ Gud giæfe at være miñ Herra hia þm Spamanne sm er
i Samaria/ þa munde hañ lækna hañ af siñe lijkþra. Þa gieck (Naaman) jnn fyrer sinn
Herra/ & sagde honum/ Ein Mær af Jsraels Lande/ hefur suo og so talad. Konguriñ suara
de/ Suo far þu þangat/ eg vil skrifa Brief til Jsraels Kongs

Og hñ ferdadist af stad/ & tok mz sier Tiu Centener Silfurs/ & sex Þusund Gyllene/ & tiu
B Hætijda dags Klæde. Og færde Briefed Jsraels Kōge. Þar stod þta a/ Þa þta Brief kiemr
til þijn/ Sia/ þa skallt þu vita/ at eg hefe sent minn Þienara Naaman til þijn/ so at þu giør
er hañ heilañ af sinne Lijkþra. Enn sem Jsraels Kongur hafde lesed Briefed/ þa reif hañ
sijn Klæde/ & sagde/ Er eg þa Gud/ suo eg meige deyda og lifga/ at hñ sender til mijn/ at eg sku
le giøra þann Mann heilañ af sinne Lijkþra? Hugleided & skodet huerra til efna hñ leitar
i mote mier.

Þegar Eliseus Gudz Madr heyrde þta/ ad Jsraels Kongr hafde i sūdr rifed sijn Klæde/
þa sende hñ til hñs/ & liet seigia hm/ Þui reifst þu i sundr þijn Klæde? Sæt hñ koma til mijn/
suo hñ meige vita/ ad hier er eirn Spamadur i Jsrael. Suo kom Naaman mz sijnum He-
C stum og Vøgnum/ og stod fyrer Elisei Hwsdyrum. Þa sende Eliseus til hñs/ & liet seigia ho-
num/ Far þu og þuo þig siø sinnum i Aañe Jordan/ suo skal þitt Holld verda heillt/ & muntu
hreinsast. Naaman vard vid þetta Reidur/ snere i burt/ & sagde/ Eg hūgde ad hann munde
ganga vt til mijn/ og fara & akalla Nafn DROTTENS sijns Gudz/ og hafa hendur a
mijnum Lijkama/ og lækna so Lijkþrana. Eru ecke þau Vøtn Abana/ og Pharphar i Da Naeman
masco betre/ enn øll Vøtn i Jsrael/ so eg hefde mætt þuo mig i þeim/ & verda hreiñ? Og hañ hreinsast af
snerest til burtferdar mz reide. sinne Lijkþra

Þa geingu ad honum hñs Sueinar/ toludu vid hñ/ & søgdu/ Kiære Fad[r]/ Þo at Spamad
urinn hafe boded þier eitthuad torfuellt/ þa hæfde þier at giøra þat/ Huad myklu framar nu
þt hñ sagde til þijn/ Þuo þier/ & mūt þu verda hreirn? So for hñ ofan/ & þuode sig siø siñum
D i Jordan/ suo sem Gudz Madur hafde sagt/ og hñs Lijkame vard skiær/ lijka sem eitt Barns
Holld/

Rægdu ecke Þrælenn vid sinn Lanardrottenn/ ad hann bølue þier ecke/ Og hlioter þu ad bera Søkena.

Þar er þad Kyn sem bøluar sijnum Fødur/ ꝛ ecke blessar sinne Modur.

Eitt Kyn sem þijkest hreint vera/ Og er þo ecke þueiged af sijnum Saure.

Eitt Kyn sem hætt ber sijn Augu/ Og hætt vpplypter sijnum Augnabrænm.

Eitt Kyn sem hefur Suerd fyrer Tenn/ Þad sem etur med sijnum Jøxlum og vpp etur þa Lijtelmegnu i Landenu/ Og hina fatæku a medal Lydsins.

E Blodsugan hefur tuær Dætur/ sem suo seigia/ Fa mier/ Fa mier.

Þrijr hluter eru osedianliger/ ꝛ hinn fiorde seiger ei/ Þad nægier/ Helujte/ Konunnar Kuidur/ Jørden sedst ecke af Vatnenu/ Og Elldurenn seiger alldrei ad nog sie.

Þad Auga sem spottar sinn Fødur og forsmaer sijna Modur henne ad hlyda/ Þad hliota † Hrafnar vt ad kroppa/ og Arnar vngar vpp ad eta.

† Þad kallast ad koma i Galga

Þrijr hluter þijkta mier vndarliger/ og hinn fiorda veit eg ecke/ Arnarinnar vegur i Loptenu/ Høggormsins skridur a biargenu/ Skipsins faruegur i midiu Hafenu/ Og vegur Mannsins til vngrar b Þijku

b Þad er/ Aften er oransakalig og oseigianlig.

Lijka suo er Horkonunnar Vegur/ Hun suelger og þurkar sinn Munn/ ꝛ seiger/ Eg hefe ecke neitt jllt giørt.

Eitt Land þad ruglast af þremur hlutum og hinn fiorda þoler þad ecke/ Nær ed nockur Þræll verdur til Kongs teken/ Þegar Fauijs Madur er offaddur/ Þegar jll Kona verdur teken til Hiuskapar/ Og nær ein Ambætt verdur Erfinge sinnar Frwr.

D Fiorer hluter eru vesaler a Jørdunne/ og þeir eru hyggnum vitrare/ Maurenn er sa veyke Lydur/ þo vtuega þeir sijna Fædslu vm Sumar tijma. Kunisen sa veykur Lydur/ þo sem mdur þa setia þeir sitt Hws i Steinunum. Grashoppurnar hafa onguann Kong/ þo ganga þær vt mz sijnum hoop/ Gøngurofurnar vinna mz sijnum høndum ꝛ eru i Konganna Høllum.

Þrijr hluter hafa fijnann gang/ og þad fiorda geingur vel/ Leon þad sterkasta mzal Dyranna/ og snyr fyrer ongum aptur/ Veidehundur med þyckuum Lendum/ Og eirn Hrwtur/ Og einn Kongur i mote huerium eingenn þorer ad rijsa.

Hafer þu c Heimskast og ofhætt fared og nockut vont i framme haft/ suo legg þu Hønd a Munn þier.

Þegar Menn skekia Miolkena/ þa giørest þar af Smiør/ Og huer hann snyter fast Hasernar hann þuingar þar Blod vt/ Og huer hann egner til Reide/ hann kiemr Sundurþycke af stad.

a Heimskastur) Hyggner Menn vidur kienna ad þeirra Vijsdomur er einskes werdur/ Enn Heimsker lætast allt wita/ og ecke kunna willt ad bara.

c Heimskast) Skammast þu ei/ nær þu i nockru willt bared hefur/ og borsuara þad ecke/ Þuiad willt ad bara er Mannligt/ enn sijna Villu at borsuara er Diøfulligt.

## XXXI.



Esse eru ord Lamuel Kongs Su Kienning er Moder hans kiende hm. A

A Þessu hefur einhuer Konganna og suo Auk ed wid Ordzkuidu Salomonis

Heyr minn hinn vkualde/ þu Sonur mijns Kuidar Heyr minn elskuligur Sonur.

Fa þu ecke Konunum þitt Megn/ ꝛ gack þu ecke þann veg sem Kongarner fordiarfast a/ Ecke Kongenum/ Lamuel/ gief ecke Kongenum Vijn ad drecka/ nie sterckann Dryck Høfdingiunum/ So ad þr drecke ꝛ gleyme Riettindunum/ og snue Søk Aumra Manna.

Gief þeim sterkann dryck ed fyrerfarast skulu/ og Vijn syrgiundum Sælum/ suo þr drecke og gleyme Eymd sinne/ og huxe ecke til sinnar Ohamingiu.

Lwk vpp þinn Munn fyrer Mællausa/ og fyrer allra þeirra skulld sem fyrerlætner eru.

Vpplwk þijnum Munne og dæm Riett/ Og hefn Aumra ꝛ Fatækra. B

Huer hann fær eina dygduga Konu/ Hun er mijked betre dyrligum Gimsteinum. Hiarta hennar Manns ma henne treysta/ og Vidvære mun hann ecke vanta/ Hun giører honum gott enn ecke vont alla sijna Lijfdaga.

B A Jørdu er eckert ærsudligra enn skiær Kiona bandz elska

Hun handtierar Vll og Lijn/ og erfidar giarna mz sijnum Høndum.

Hun er lijka s þ Kaupfar er flytur sijn þarfinde fra Fiarlægum Løndum.

Hun stendur vpp vm Nætur ꝛ giefur sijnum Hiuum Fædslu/ Og sijnum Ambættum ad eta.

Hun huxar vm nockurn Akr/ ꝛ kauper hann/ ꝛ plätar eirn Vijngard af sijnum Handa Auexte.

Hun a gyrder sijnar Lendar/ Og styrker sijna Armlegge.

a Gyrder) Þad er/ hun er þrifnadarsøm i sijnu hwse/ og wara tekur þyrer skada og huxar huad gagnligt er

Hun vaktar huernen ad gagn giøre hennar sysla

b Nottinne) Þad er i Meydinne hefur hun nogliga sijna Þerf

ar Sysla/ Hennar Skridlios slocknar ecke [b] a Nottinne.

Hun riettir sijna Hond til spunans/ Og Fingur hennnar fara med Snælduna.

Hun vtriettir sijna hond Fatækum/ Og lykur vpp sijna Hond Þurftugum.

Hun er ohrædd vm sitt Hws fyrer Kuldanum/ Þui øll hennar Hiu hafa tuenn Klæde.

D Hun giører sialfre sier Abreidslu/ Hujtt Silke og Purpure er hennar Klædnadur.

Nafnfrægur er hennar Madur i Borgarhlidonum/ þa hann situr hia Ølldungum Landsins.

Hun giører eirn Kyrtel z selur hann/ Kramaranum gefur hun Gyrdel.

Hennar pryde er þat at hun er hreinferdug og astundunarsøm/ þar epter mun hun fagna.

Hun lykur vpp sinn [c] Munn mz Vijsdome/ Og a hennar Tungu er heilnæmur Lærdomur.

c Hun venur Börn syn og Hiu til Gudz Ordz

Hun skodar huernen ad framfer i sijnu Hwse/ og etur ecke sitt Braud mz Idiuleyse.

Syner hennar vaxa vpp og seigia hana Sæla vera/ z hennar Madur lofar hana.

Margar Dætur samansafna Audæfum/ Enn þu ert þeim øllum framar.

Frijdleike og Fegurd er eckert vert/ Eina Gudhrædda Konu skulu Menn lofa.

Hun mun verda vijdfræg af Auexte sinna Handa/ Og Verk hennar mun lofa hana i Borgarhlidunum.

## Hier endar Ordzkuidu Salomonis





# I.



Esse eru Predikarans Ord Sonar Da- A
uidz/ Kongsiñs i Jerusalem. Þad er allt saman
ecke annad enn Hiegome/ sagde Predikarenn/ þat er
allt saman fanytur Hiegome. Huad hefur Madurenn
meira af allre sinne Armœdu/ sem hñ hefur vnder Sol-
unne? Ein ætt forgeingur/ enn ønnur vpp aptur kiem-
ur/ Jørden blijfur æfenliga. Solen geingur vpp og
nidur aptur/ og rennur til sijns stadar þar hun kiemur
vpp aptur. Vindurenn geingur af Sudre/ og hleypur
vm til Nordurs/ og aptur i krijng til þess stadar sem hñ B
vppbyriadest. Øll Vøtn falla i Siovenn/ ꝛ þo fyllest
hñ ecke/ og til þess stadar sem þau vppspretta falla þau
aptur.

Aller † giørningar eru fuller af Armœde/ so eingeñ
kann ad fullseigia þad. Augad sier sig alldrei sadt/ og
Eyrad heyrer sig alldrei modt. Allt huad sm̃ skied er/ er
þad sama sem skie skal hier epter. Huad er þad sem Madurenn hefur giørt? Þad er lijka
sem þad ed sama huad hñ skal giøra hier epter/ Og þar skier ecke neitt nytt vnder Solunne. C
Skier þad nockud/ suo Madurenn ma seigia/ sia þu/ nytt er þad? Þa er þad þo ædur skied i
fyrrum tijdum/ a medal þeirra sem voru fyrer oss. Meñ miñast ecke huersu ædur hefur til
geinged/ suo kañ Mañ og ecke ad huxa vm þad huad hier epter skiedur a medal þeirra sem ep
ter koma.

Giørning-
r/ Þad er/ Ey
nd og Hiegome
Jørdu er meir/
eñ Meñ kun-
a ad seigia þra
þo wil eg i þess-
are Bok þar
om tala

Eg Predikare/ var Kongur yfer Jsrael i Jerusalem. Eg lagda mitt Hiarta til ad vita/
og ransaka mꝫ skynseme/ allt þad sem Menn giøra vnder Himnenum. Soddan Vesala
Armœde hefur Gud giefed Mañaña Sonū/ ad þau skulu plægast þar mꝫ. Eg hugde og
suo ad allra þeirra giørningum sem giørast vnder Solunne / Og sia/ þad var allt saman D
Eymd og Hiegome. Bogied kann ecke ad verda riett/ ꝛ huad brestur kann ecke ad teliast.

Eg sagda i mijnu Hiarta/ Sia/ eg em miøg dyrdligur/ Eg hefe meira Vijsdom enn aller
þeir Kongar sem vered hafa fyrer mier i Jerusalem/ og mitt Hiarta hefur miked lært/ og
margt reynt. Og eg lagda mitt sinne epter ad eg mætte verda hyggenn/ suo eg mætte læra
Vijsdom/ Fauisku/ og Speke. Og eg fornam ad suoddan var Armœde. Þui þar sem mij
kell Vijsdomur er/ þar er mijkel Sorg/ Og sa sem mijked vill læra/ hñ hlytur margt ad lijda.

# II.



Eg sagda i mijnu Hiarta/ Nu vel/ eg vil lifa med Lyst/ og hafa gooda daga/ A
Eñ sia þu/ þad var og eirnen Hiegome. Eg sagda til Hlætursiñs/ Þu ert
Galiñ/ Og til glediñar/ Huad giør' þu?

Þa huxade eg i mijnu Hiarta/ ad draga minn Lijkama fra Vijne/ eñ ve-
nia mitt sinne til Vijsdoms/ suo eg kyñe ad vita huad Heimskan være / Þar
til ad eg giætte lært huad Mañenum være nytsamt ad giøra/ medan hñ lifde i
þessum Heime.

Eg giørde mykla hlute/ eg bygda vpp Hws/ ꝛ plãtade Vijngarda/ Eg giørda mier Allden
garda ꝛ Grasgarda/ ꝛ plantade þar allra handa friosãlig Trie. Eg giørda mier Fiske
Vøtn/ til ad døggua mꝫ þau grænu Alldintrie i mijnū Skoge. Eg hafde Þræla/ Ambatter B
ꝛ nog annad Vnderfolk. Eg var vell audigur at Nautum og Saudum/ meir enn aller þeir
sem vered høfdu fyrer mier i Jerusalem. Eg safnade mier Silfre og Gulle og myklum
liggiande Fiarsiodum/ af Kongum og Løndum. Eg skickade mier Saungmeñ og Saung
kuinnur/ og Mannaña bylijse mꝫ allshættudum Hliodfæra leik. Og eg var enn megtugaste
yfer þa alla sem vered høfdu ædur enn eg i Jerusalem/ og Vijsdomurenn var mꝫ mier.

Og allt

Og allt huad mijn Augu girntust/ þad liet eg þau fa/ Og eg varnade mijnu Hiarta ongrar glede/ suo þad hafde skiemtun af ollu mijnu Arfide. Og þad hiellt eg fyrer mitt hlutskipte/ af ollu mijnu Erfide. Enn sem eg sa til allra miña Verka/ sem mijn Hond giort hafde/ og eg hugleidda þa Mædu sem eg hafde haft/ Sia þu/ þa var þad allt saman Hiegome/ z Hormung/ z eckert añad vnder Solune.

Þa snera eg mier at skoda Vijsdom og Speke/ og Heimsku/ Þui huer veit huad sa skal blijfa fyrer eirn Mañ epter Kongeñ/ sem þeir alla reidu giort hafa? Þa sa eg Vijsdomurenn gieck yfer Fauiskuna/ sem Liosed yfer Myrkred. Og ad Hyggeñs Mañs Augu standa stodug j hũs Hofde/ enn Heimskur geingur i Myrkre/ Og eg merkta þo ad so geingur einum sem odrum.

C Þa hugsade eg i mijnu Hiarta/ fyrst ad þeim Heimska geingur lijka sem mier/ þui mun eg þa hafa sokt epter Viskuñe? Þa sagde eg i mijnu Hiarta/ at suoddan var ei annars eñ Hiegome. Þuiad Menn minnast ecke at alldodle þess hyggna/ enn þo sijdur þess eñs Heimska z þr epterkomande Dagar gleyma ollũ hlutũ/ Og lijka sem sa hiñ Hyggne deyr/ suo deyr og hinn Heimske. Þar fyrer leiddest mier ad lifa/ Þui þad hagade mier jlla sem skiede vnder Solunne/ at þad er ollungis ecke vtan Armæde z Hiegome.

Og mig angrade allt mitt Eruide/ sem eg hafda vnder Solunne/ Ad eg skyllde epter læta þad einum Mañe sem koma skyllde epter mig. Þui huer veit huert hñ skal verda Hyggenn eda Heimskr? Og hñ skal þo ræda yfer allt mitt Aruide/ s eg hafde vijsliga giort vnder Soluñe/ Þad er z Hiegome.

D Þar fyre snera eg mier/ at mitt Hiarta skyllde læta af ollu Eruide/ s eg hafda giort vnder Solunne. Þuiad sa Madur sem eruidad hefur med Visku/ skynseme og Snilld/ hann hlytur ad læta añañ þad epter sig erfua/ sem ecke neitt þar til Eruidade/ Þad er og eirn Hiegome/ og stor Olucka. Þui huad hefur Madurenn af ollu þui Erfuide/ og sijnu Hiartans Hugar angre/ sem hñ hafde vnder Solunne? Vtan Harm Sorg z Trega alla sijna Daga? Suo hũs Hiarta hefur ongua Næturhuijld/ Þad er og Hiegome.

Er þ nu ecke Mañenũ betra ad eta og drecka/ og læta sijna Sæl glediast i sijnu Eruide? Þetta sa eg ad þuilijkt kiemur af Gudz Hende. Þui huer hefur gladligar eted og nært sig eñ eg? Þui hñ giefur þeim Mañe Vijsdom/ Forstand og Gladuærd sem honum þocknast/ Eñ þeim synduga giefur hañ Olucku/ ad hañ safne og samandrage/ z þo mun þad giefast þeim sem Gude þocknast/ Þui er þad ecke vtan Eymd og Hiegome.

# III.

A Aller Hluter hafa sinn til settann tijma/ Og allt Aform vnder Himnenum þad hefur sinn tijma. Tijme er ad fædast / Og tijme er ad deyia. Tijme er at planta/ Og tijme er vpp at ræta þad sem plantad er Tijme er ad deyda/ Og tijme er ad græda. Tijme er ad briota nidur/ Og tijme er vpp ad byggia. Tijme er ad græta/ Og tijme er ad hlæia. Tijme er ad syrgia/ Og tijme er ad Dansa. Tijme er Steinum sundur ad dreifa/ Og tijme er Steinum saman ad safna. Tijme er ad fadmast/ Og tijme er ad vera fyrer vtan Fadmlog. Tijme er ad viña/ Og tijme er ad tapa. Tijme er ad hallda/ Og tijme er i burt ad kasta. Tijme er ad rijfa i sundur/ Og tijme er saman ad sauma.

B Tijme er ad þeigia/ Og tijme er at tala. Tijme er ad elska/ Og tijme er at hata. Tijme er at beriast/ Og tijme er Frid at hafa.

Madurenn ma aruida mz hueriũ hætte sem hñ vill/ þo fær hañ ei meira til vegar komed. Soddan Mædu sa eg s Gud Moñũ giefid hafde/ ad þr skylldu kueliast þar mz. Eñ hñ giorer alla hlute vel i sinn tijma/ og lætur þeirra Hiortu kueliast/ huernen þad mun ganga til i Verolldiñe. Þui Madureñ veit ecke huad Gud vill giora/ z kañ huerke ad sia vpphafed nie endañ. Þar fyrer merkta eg/ ad ecke neitt er betra hier vti/ enn ad vera gladur / og at giora gott af sier a medan hñ lifer. Þuiad huer sa Madur sem etur og dreckur/ og er gladur i ollu sijnu Erfide/ Þad er ein Gudz gæfa.

C Eg merkte/ ad oll Gudz Verk blijfa ætijd stodug/ og þau verda huerke auken nie vonud/ Og Gud verkar þuilijkt/ suo Meñ skule ottast hañ. Huad Gud giorer/ þad stendur suo/ og

huad hn̄ vill giøra/ þad hlytur ad skie/Og huad sm̄ burt fer þad kallar hn̄ aptur.

Eg sa enn framar meir vnder Soluñe/Sæte Domaraña/og þad var ogudligt athæfe/ꝛ Sæted Riettlætesiñs/ þar var Ranglæte. Þa sagda eg i mÿnu Hiarta/Gud mū dæma bæde hinn Riettlæta og suo hinn Ranglæta/Þui allt vppsætur og aller Giørningar hafa sinn Tÿma.

Eg sagda i mÿnu Hiarta vm Athafner Mañanna/ i huerium Gud giefur oss ad vita og merkia/ad Mañeskian er med sier sialfre lÿka sem Fienadur. Þui Mañenum geingur lÿka sem Fienadenum/og suo sem Fienadurenn deyr suo deyr Madureñ/ꝛ huert tueggia hefur eins D lÿka lifande Anda. Og Madurenn hefur ecke þar meira enn sem Fienadurenn hefur/Þuiad þat er allt Hiegome. Þad fer allt til eins stadar. Þad er allt saman giørt af Jørduñe og verdur suo aptur ad Jørdu? Huer veit huert Mañsiñs Ande fer vppi Lopted/og Fiarens Ande nidur vnder Jørdena? Þar fyrer seige eg/ Eckert er betra eñ ad Madureñ sie gladur i sÿnu Arfuide/Þui þad er hn̄s hlutdeilld. Þuiad huer kañ ad færa hn̄ þangad/ suo hn̄ kuñe ad sia huad epter hn̄ skal koma?

# IIII.



EG snera mier/ og sa til allra þeirra sem Oriett lÿda vnder Solunne/Og sia/þeir grietu sem Ranginde lidu/ og høfdu þañ onguañ sm̄ þa huggade/ og þeir sem þm rangt giørdu voru megtuger/suo eingenn gat hina huggad. A

Þa prÿsade eg þa hina Daudu sm̄ framlidner voru/ myklu framar enn þa lifondu sm̄ epter lifdu. Og hn̄ sa sm̄ [a] ecke er/er betre þssū huorutueg giñ/ ꝛ ecke hafde fornumed þad hid vonda sem skiede vnder Solunne.

[a] (ecke er) Þad er/Sa sm̄ eñ ecke hefr reynt slÿka Ogiæfu

Eg hugleidda og sa Arfide og Astūdan Mañaña i øllu þeirra Athæfe/ Og eg sa ad huer øfundade annañ/og var ecke añars vtan Hiegome og Mæde. Þuiad Heimsker børdust mz Høndum/og ætu suo sitt Holld. Betre er fullur Hnefe mz Speckt/eñ bádar Hendur fullar mz Sorg og Armæde. B

Eg snera mier/og sa annan Hiegoma vnder Solunne. Þar er eirn einsamall Madr/og hefur huerke Barn nie Brodur/og var þo eingenn ende a hn̄s Arfide/og hn̄s Augu vrdu ecke mett af Rÿkdome/ Og hañ sagde/Fyrer huern mun eg Arfida/ og þreyta so mijna Sæl? C Þad er og eirn Hiegome/og vond Mæde. Suo er myklu betra tueir eñ eirn/Þui þeir munu vel niota sÿns Arfides. Þuiad falle annar/suo reiser og hialpar hinn añar honum vpp aptur. Vei sie þeim sem eirn er/Þui nær hn̄ Dettur/þa er eingeñ til ad reisa hañ vpp aptur. Og nær tueir til samans liggia/þa vermer huer annañ/ Huersu ma einsomlum heitt verda? D Eirn ma yferuinnast / enn tueir kunna i mote ad standa/Þuiad eitt þrefallt Snære slÿst ecke audvelldliga i sundur.

Eitt fatækt Barn hygged er betra enn Gamall Kong sa ꝛ er Heimskur/sm̄ ecke kañad sia fram j veg fyrer sier. Eirn kiemr af Fangelse/ og er tekeñ til Kongs/og añar er fæddur med Kongs tign/og verdur so fatækur. Og eg sa allt þad sem [a] lifde vnder Solunne/gieck mz ødru Barne sm̄ koma skyllde i hiñs stad. Og þar var eingeñ Ende a þui Folke sem gieck fyrer/og epter/Og feingu þo ongua glede af honum/Og þad er ecke annad vtan Eymd ꝛ Hiegome.

[a] (Lifde) Lifande kallar Salomon/þa sem lifa i Bilÿfe a Jørduñe. So sm̄ i Hofgørdum skiedur. Suo sem wære Verollden þra Eign

# V.



VArta þinn Foot nær þu geingur til Gudz Hwss/og kom so þu kuñer ad heyra. Þad er betra eñ fauÿssi Mañs Offur/Þuiad þeir vita ecke huad vont þeir giøra. A

Vert ecke fliotur med þÿnum Munne/og lát þitt Hiarta ecke hasta sig ad tala nockud fyrer Gude. Þuiad Gud hn̄ er a Himnum vppe/eñ þu hier a Jørdu nidre/Þar fyrer láttu þÿn ord va fá. Þui huar mÿkel Sorg er/ þar eru marger Draumar/Og sa sem hefur mørg Ord/ma merkiast fyrer fauÿssañ ꝛ Heimskann Þuss.

Hier kienner hañ ad ottast Gud og honum ad treysta/og lifa Gudræteliga i þessu auma Veralldar lÿfe

Nær þu heiter a Gud/og lofar honum nockru/þa tef þu ecke ad efna þad/Þui a Fauiskum hefur hn̄ ongua þocknan. Hueriu sem þu lofar/þa halltu þad. Betra er ad lofa onguo B eñ ad

Ver fyrst Gudhræddur Deut. 23.

enn ad hallda ecke þad Madur Lofar.
Leyf ecke þijnum Mun̄e ad læta syndga þitt eiged Holld/ ꝛ seig ecke fyrer [a] Einglenum/
Eg er saklaus. An̄ars ma Gud styggiast yfer þinne Raust/og fyrerdæma allan̄ giørning
þinna Handa. Huar ed marger Draumar eru/ þar eru mørg Hiegoma Ord/ Enn ottast
þu Gud.

[a] Eingell kallast hier Kien̄emadur og Lærare

Ef þu sier ad hin̄ fatæke lijdr Oriett/en̄ Rieturen̄ ꝛ Riettlæted raskast i burtu vr Lādenu/
þa vndrast þu ecke þat vppsætur/ Þui þar er eirn hærr geymare yfer hæfum/ ꝛ þo eru en̄ hær
re yfer þeim bædum. Þar yfer er Kongur i øllum Løndum/ til ad arfida Akuren̄.
C Huer ed elskar Audæfe/sa verdur alldrei saddur/og sa sem elskar Rijkedæmed/ hn̄ fær eck-
ert gagn þar vt af/Og þad er eirnen Hiegome/ Þui huar miked Gotz er/þar eru marger eyd
slumenn/Og huad gagnast þad þeim sem þad hefur/vtan hn̄ sier þar vppa med Augunum?
Sa sem arfidar/hm̄ er Suefnen sætur/huert helldur han̄ etur myked eda lijted/Enn fylle hn̄s
Rijka lætur hn̄ ecke sofa.
Þad var ein vond Plaaga sem eg sa vnder Solun̄e/ad huer han̄ helldur sijnum Rijkdome
sier sialfum til skada. Þui sa hinn Rijke mun fyrerfarast mz storre Eymd/ ꝛ þo hn̄ hafe ætt
eirn Son/þa kiemur ecke þar i hn̄s hendur. Lijka sem hn̄ kom Nakenn fra sinne Modr/suo Job. 1.
skal hn̄ og i burt aptr fara hiedan s̄ hn̄ hingad kom/ ꝛ hn̄ tekur ecke þar i sijna hønd mz sier af 1. Tim. 6.
D sijnu Arfide/nær hn̄ i burt fer. Og þad er ein vond plaaga/ad hn̄ verdur i burt ad fara lijka
sem hn̄ kom. Huad hialpar honum þad þo ad hn̄ hafe Arvidad suo sem i Vind? Alla sij-
na Lijfs Daga hefur hn̄ eted i Myrkre/ Og i storum ahuga/ Sorg og Siukdome.
Suo virdest mier nu þad gott vera/og suo prydeligt/nær Man̄ etur og dreckur og er gladr Sup. 2. 3.
i øllu sijnu Arfide sem hn̄ giører vnder Solunne/i øllum sijnum Lijfdøgum / af þui sem Gud Infra 9.
giefur honum/Þui þad er hn̄s Hlutskipte. Þui huerium þeim Man̄e sem Gud giefur Rijk
dom ꝛ Audæfe/þar med megn til ad eta og drecka þar af/ epter sijnu Hlutskipte/ ꝛ er ætijd mz
Gladuæru Giede i øllu sijnu Erfide/þad er ein Gudz Gæfa. Þui hn̄ þeinker ecke mijked
a Eymd þssa Lijfs/ þuiad Gud gledr hn̄s Hiarta.

# VI.

A Þad er ein Olucka s̄ eg sa vnder Solun̄e/ ꝛ er almen̄elig a medal Man̄ana.
Sa madr huerium̄ Gud giefr Rijkdom/Godz ꝛ Heidr/ ꝛ vantar ecke þar a allt
huad hn̄s Hiarta lyster/ ꝛ Gud giefur hm̄ þo ecke Krapt til ad neyta þss ens
sama/ helldur er an̄ar þui eydande/ Þad er Hiegome/og ein Vond Plaaga.
B Og þo ein̄ giæte hūdrad Barna/ ꝛ hefde lāga Lijfdaga/so hn̄ lifde mørg ar
ꝛ han̄s Saala yrde alldrei sødd af Aude/ ꝛ blife æn grafar/ Vm þan̄ sama
seige eg/ad otijmabær Burdr er betre en̄ hn̄. Þui i Hiegoman̄ū kom hn̄/ ꝛ fer j myrkre i burt
og hn̄s Nafn mun afmæst i myrkrunum. Af Solun̄e hefur hn̄ ongua glede/og ongua roo
veit hn̄ sier huerke i einum stad nie ødrum. Og þo ad hn̄ lifde i tuø Þusund Aar/þa hefur
C han̄ þo alldrei gott. Kiemur þad nu ecke allt i eirn stad?
Huerium Man̄e er Erfide a lagt epter sijnum Mætte/Enn Hiartad er þar ecke vid/Þui
huad afrekar hyggen̄ Madur meir enn Heimskur?/Huad vnder stendur hinn Fatæke/ vtan
ad vera medal lifande Man̄a? Betra er ad neyta þess nalæga/enn huxa ept' þui sm̄ burt
D er/Þad er Eymd og Hiegome.
Huad er þad/ad eirn hn̄ er miøg prijsadur og lofadur/enn Men̄ vita þo ad hn̄ er Madur
og kann ecke ad hallda þrætu vid sier øflugra. Þui margt er hiegoma vert/ Og huad hefur
Maduren̄ meira þar vt af?

# VII.

A HVer veit huad Man̄enum er nytsamligt i Lijfenu/ suo leinge sem han̄ lifer i
sijnum Hiegoma/huad þo i burtu huerfur sem eirn skugge? Eda huer kann
ad seigia nockrum Man̄e/huad epter hn̄s daga mun koma vnder Solun̄e?
Eitt gott ryckte er betra enn god Smyrsl. Og Daudans Dagur er betre
Fædingar Deige. Þad er betra ad ganga i sorgarhws/helldur enn i dryck-
iu hws/i hinu er allra Man̄a endatekt/og hiner lifondu setia þad sier i Hiar-

 ta. Bet-

i Hiarta. Betre er Hrygd enn Hlꝍtur/ Þuiad Hiartad forbetrast vid Hrygdena. Vitra Manna Hiørtu eru i Sorgarhwse/ enn fauisra Hiørtu i Glede hwse. Betra er ad heyra Auijtan hins Hyggna/ helldꝛ eñ Lofsøng ens Heimska. Þuiad Fauijss Mañs hlꝍtur er lijka sem þa þyrner brestur i Ellde vnder Katle/ Og þad er og suo Hiegome.

Eirn þuerbroteñ giører hyggeñ Mañ ouiliugañ/ ꝛ fordiarfar giafmilldt Hiarta. Ender a einum hlut er betre enn vpphafed. Þolinmꝍde er betre eñ Metnadar Ande. Ver ecke fliotur i þijnu sinne ad verda Reidur/ Þuiad Reiden huijlest i Hiarta Fauijssra. Seig þu ecke/ Huad velldꝛ at þr lidnu Dagar eru betre eñ þsser? þui soddã er ei vitmañlig spurn. Viskã er god med erfda godzenu/ og hialpar til ad eirn kañ gledia sig af Soluñe. Þuiad suo sem Viskan verndar/ suo vernda Audꝍfen/ Eñ Viskan giefur lijfed þeim hana hefur. Hugleid þu Gudz Giørninga/ Þui huer kañ ad giøra þ riett s̃ hñ giører boged? Giør þig gladan a øllũ þijnum Glede døgum/ og tak þa hina vondu Daga og til þacka. Þuiad Gud skickar þa bꝍda huern mz ødrum/ suo Madureñ skal ecke vita af þui huad epter hñ mun skie. B

Alls hattad hefe eg sied i minne Hiegoma tijd. Þar var eiñ Riettlatur/ ꝛ fyrerforst i sijnu Riettlꝍte/ ꝛ þar var eirn Ogudligur/ huer leinge lifde i sinne Illsku. Vertu eige ofriettlatur/ ꝛ eige ofuijs/ suo þu Fordiarfer þig ecke. Vert ecke ofmiøg Ogudligur eda suo miøg Heimskur/ so ad þu deyer i otijma. Gott er þier ad høndla þetta/ eñ lat hitt añad þo eige sleppa þier vr hende/ Þui huer ed ottast Gud sa vm flyr þetta allt. C

Vijsdomuriñ styrcker þañ hygna/ meir eñ Tiu vollduger i stadnum. Eingeñ madur a Jardrike er so Riettlatur ad hñ syndgist ecke. Legg ecke a Hiartad allt þ sagt er/ so ad þiñ þion bølue þier ecke. Þui þitt Hiarta veit/ ad þu hefur opt ødrum bøluad.

Allt suoddan hef eg mz Visku reynt/ Eg sagda/ Eg vil verda hyggeñ/ enn hun firtest mig. Hun er langt i burt/ huad skal þad verda? og er miøg diupt nidur/ Huer vill hana fiña? D

Eg snera mijnu Hiarta til ad ransaka og ad spyria og ad leita epter Vijsdome og Listũ/ og at reyna Heimsku Ogudhrꝍddra/ og Villur þeirra Fauijsu. Og eg fañ/ ad suoddan ein Kuinna var beiskare enn Daudenn/ huerrar Hiarta bꝍde var Net og Snara/ og heñar Hendur sem eitt Band. Huer Gude þocknast sa kiemur fra henne/ Eñ sa hiñ synduge skal fang enn verda af heñe

Sia þu/ Þuilijkt hefe eg fundet/ seiger Predikarenn/ eitt epter annad/ suo eg mꝍtta nema Kuñꝍttu. Og mijn Sꝍla leitar enn/ og hefur ecke funded. A medal Þusunda fañ eg eirn Mañ/ eñ a medal þra allra fañ eg ongua Kuiñu. Eñ sia þu ad eina/ Þad hefe eg fundet/ ad Gud skapte Mañeñ riettañ/ Eñ þeir leita mijkellar Kuñꝍttu. Huer er suo hyggenn? Og huer kann ad vtleggia þad?.

## VIII.



Mañsins vijsdomꝛ vpplyser hñs Andlit/ Eñ sa sm̃ einardur er hñ er ovinsꝍll. A
Eg varduelte Kõgsins Ord/ ꝛ Gudz Eid. Flyttu þier ecki ad gãga fra hñs Andlite/ ꝛ vef þig ecke i vondum Søkum/ Þui hñ giører huad hann lyster. J Kongsins Ordum er magt/ og huer ma seigia til hañs/ huad giører þu? Sa sem helldur Bodorden hñ skal eckert vont henda/ Enn eitt vitugt Hiarta veit tijd ꝛ mata. Þuiad allt vppsatur hefur sijna Tijd og Tijma/ Þui ad margfalldlig er Mannsins Olucka hia hønum/ Þuiad hañ veit ei huad vered hefur/ Og huer kann ad seigia huad verda kann? Eingenn Madur hefur magt yfer Andañ/ Andañ ad forhindra/ Eingeñ hefur og magt yfer Daudans tijma/ ꝛ hñ skal ecke laus lꝍtast i Strijdenu/ Ogudligar athafner hialpa ecke þeim Ogudligu. B

Þetta hefe eg allt saman sied/ og eg lagda mitt Hiarta til allrar þeirrar jdiu sem skier vnder Solunne. Eirn Mann rꝍdur stundum yfer annañ/ sier sialfum til Olucku. Og þa sꝍ eg þa enu Ogudrꝍknu sm̃ Jardader vor[illegible] huerier geinged og spacierad høfdu i þeim heilaga Stad/ ꝛ þeim var gleymt i Borginne/ þar þeir høfdu eruidad/ Þad var og eirn Hiegome.

Fyrst þar kemꝛ ecke eirn skiotur Domur yfer vondra Maña giørder/ þar af blijfur Mañsiñs sinne fwst til ad giøra jllt. Þo hinn Synduge giøre hundrad siñum jllt/ og lifer þo leinge/ Þa veit eg þo lijka vel/ ad þeim skal þo ganga vel sem ottast Gud / og hrꝍdast hañs Auglit. Þuiad þeim enu Ogudligu mun eige vel ganga/ og sem eirn skugge skulu þeirra lijfdagar vera sem ecke ottast Gud. C

Þad

Þad er eirn Hiegome sem a Jørdunne skiedr/ Ad þeim Riettlætū vegnar sem þeir hefdu jlla giort/ eñ þeim Ogudligu sem þeir hefdu vel giort/ Og eg sagda/ad suoddan er Hiegome.
Þui prijsade eg Gledena/ at ecke neitt er betra Mañenum vnder Soluñe/ eñ at eta og drecka/og giora sig gladann/ Og ad hñ meige so sijns Arfides niota alla sijna Lijfdaga/ s Gud
D giefur hm̃ vnder Solunne.
Eg gaf mijnu Hiarta ad vita Speke/ z at sia þa Armædu sem skier a Jørduñe/ Ad eirn var suo ad hñ sa onguañ Suefn huerke Nott nie Dag mz sijnum Augum. Og eg sa alla Gudz Giørninga/ Þuiad eingenn Madur kann þad verk ad fiña sm̃ ad skier vnder Soluñe/ og þess meira sem Madurenn leitar þar epter/ þess minna finnur hñ. Þo hñ segde so/ Eg em hyggeñ/ z veit þad/ þa fær hñ þo ei funded þat.

# IX.

A NV hefe eg allt suoddan sett mier i Hiarta/ og ransakad þat/ Ad þeir hiner Riettlætu og hyggnu med sijnum Þienurum eru i Gudz Hende/ Þo veit eingenn Madur huerke Hatur nie Kiærleika/ sem hñ hefur fyrer sier.
Þad geingur suo einum sem ødrum/ Riettlætum sem ranglætum/ godum sem jllum/ Þeim sem offrar lijka sem þm̃ s ecke offrar. So sem godum̃ geingur/ suo geingur syndugum/ Suo sem meineidurum geingur/ suo geingur og þm̃ sem fordast Eidana. Þad er eirn herfeligur hlutr a medal allra s eru vnder Soluñe/ad einum vegnar suo sem ødrum. Þar af verda Hiørtu Mañaña full af Vonsku/og Fauiska er i þeirra Hiarta/ suo leinge þeir lifa/ og þar epter hliota þeir ad deyia.
Þuiat a medal allra lifande Maña er þad sem huer Mann æsker/ sem er/ Vonen (Þuiad eirn lifande Hundur er betre enn eitt dautt Leon). Þui þeir [a] Lifsøndu vita ad þeir skulu deyia/ eñ hiner Daudu vita ecke par/ þeir forþiena z ecke meira/ Þui þra miñing er gleymd.
B Þeir verda og eige framar elskader/ eige hatader nie øfundader/ og ongua hlutdeilld hafa þeir meir af øllu þui sem skier i Verølldiñe/ vnder Solunne.
Suo far nu burt/ z et þitt Braud med glede/ z dreck þitt Vijn mz gladuæru Hiarta/ Þui þijn Verk þocknast Gude. Lat þu þijn Klæde ætijd vera huijt/ og lat þitt Høfud alldrei vanta Vidsmior.
At þu alldur þinn med þiñe Kuiñu sem þu kiæra hefur/ suo leinge sem þitt forgeingeliga Lijf varer/ sem Gud hefur giefed þier vnder Solunne/ og so leinge sem þu hiegoma Lijkama hefur. Þuiad þat er þinn partur i Lifenu z j þijnu Aruide/ þat þu fremur vnder Soluñe/ Allt þat þu veist þier ber at giora/ þa giør þ snarliga/ þui i Grøfiñe/ i hueria þu fer/ þa er þar huerke verknadur/ Nagleike/ hygginde nie Vijsdomur.
C Eg snera mier/ og sa huernen þat gieck til vnder Soluñe/ Til at hlaupa Hialpar ecke ad vera fliotur/ til Bardaga hialpar ecke styrkleike/ til Næringar stodar ecke Sidsemd/ til Rijkdoms hialpar ecke Klokskapur/ at vera gied þeckr hialpar ecke til at kuña eirn hlut vel/ Helldr er þat allt saman komed vnder Tijmanum og Luckuñe. Madurenn veit og ecke siñ Tijma/ helldur lijka sem Fiskurenn veidest a skadsømum Aungle/ z Fugleñ næst i Snøruñe/ so verdr og Mannenum burt kipt a vondum tijma/ nær hñ fellur fliotliga yfer hñ.
Suoddan Vijsdom sa eg vnder Solunne/ at mier þotte mijkell vera/ Ad þar var eirn lijtell Stadur/ og fatt Folk jnne/ So kom þar eirn mijkels hattar megtugur Kongur/ og settest vm Stadenn/ z bygde stort Heruirke vm hñ. Enn i Stadnū fanst eirn hyggeñ fatækur Madur/ huer ed frelsade Stadenn med sijnum Vijsdome/ og eingenn miñtest a þañ fatæka mañ.
D Þa sagda eg / at Viskan er betre enn Sterkleikenn / Þo vrdu Hygginde hins fatæka forsmæd/ suo eingenn skeytte hañs Rædum. Þui skier suo/ ad Hyggens Manns Ord orka meir hia saktmodigum/ helldur enn Herranna hroop hia Heimskum. Þui er Vijsdomurenn betre enn nockur Herklæde/ Eñ einasta eiñ [b] Skalkur spiller myklu godu.
Suo sem skadsamer Fuglar fordiarfa opt good Smyrsl. Þar fyrer stundum Heimskan betre eñ mijkell Vijsdomur og æra. Þui hyggens mañs Hiarta er j hñs hægre Hende. Eñ Hiarta hiñs Heimska i hñs Vinstre Hende. Og þo hiñ Heimske sie fauis i sijnū giørninge/ þa helldur hann þo huern Mann fyrer Þuss. Þar fyrer þegar framgeingur Ofstope hins Volldugа i mote þijnum Vilia/ þa fall ecke i Mistraust/ Þui Þolinmæde

a
Þad er/ þeir lifsøndu bæta sig aþ otta Daudans. Eñ þeir Daudu kienna ecke til neins

b
Eirn skalkur fordiarfar stundum heillt Lād mz sijnum vondum rædum

c
Ad heyra/ og lata sem hañ vite ecke/ þa hlute sem stillast aþ sialþū sier/ þ er mikel speke

linmæde c stiller stora Olucku.

## X.

Prouerb. 26 Þad var ein Olucka sem eg sa vnder Solunne/sem er/su Fauiska sem ad er A
Syra 26 a medal Volldugra/Ad eirn Apglape situr i storre Virdingu/ enn hiñ Rÿ-
ke situr lagt. Eg sa Þræla a Hestum rÿda/enn Hofdingiana ganga sem
Þrælana. Huer ed Grøfena grefur hñ fellur i hana sialfur/Og huer noc-
kurn Gard nidurbrytz/þañ munu Høggormar stÿnga. Huer Steine vr
stad vellter giører sier sialfum Omak / Huer ed Tried i sundurklyfur fær B
skada þar af. Nær ed Jarned þycknar og sliofgast i Eggena/so hlytur Madur ad bryna þ
aptur mz Erfide/Suo fylger og Vÿsdomur epter jdkanena.
Eirn Mælskaps madur er ecke betre eñ Høggormur/sa ed stÿngr/og ecke er mz Særingū
Esa. 3. særdur. Ord Hyggens Mañs er vnadsemd/eñ fauÿsra var' suelgia þau. Hñs Orda opp
haf er fiflsligt/Og endeñ er skødsøm Heimska. Eirn Apglape hefur mørg Ord/þui Madr C
veit ecke huad vered hefur/og huer kañ seigia hm̃ huad skie skal epter hañ? Arfide Heimskra
kuelur þa/þui þr kuña ecke ad ganga i Borginne.
Vei þui Lande huers Kongur ad er eitt Barn/og huers Hofdingiar ad snemma Matast.
Heppned er þad Land/huar Kongureñ er Gøfugur / og Hofdingiarner neyta sijns Matar i
hæfeligañ tÿma/til styrkingar/enn ecke til Bilÿfes. Fyrer lete saker falla nidur Bialkar-
ner/z fyrer forsomaan Handaña drypur Hwsed. Og þui skier soddan/at þr giøra Brauded D
til Hlæturs/Og Vÿned a ad gledia þa Lifondu/enn Peningureñ kiemur øllu af stad.
Formælltu ecke Kongenum i þÿnu Hiarta/og bølua ecke Rÿkum i þÿnu Suefnhwse/Þui
Fuglar Himensiñs bera Raustena/og þeir sem hafa Væengena seigia þad epter

## XI.

a þad er/ Giefþ þu Rÿflega huad þu þorf mætt/Þuiad sa tyme ma koma ad þu giæþer giarna og mun tu þa ecke gieta

LAttu þitt Braud a fara yfer Vatned/ suo muntu fiña þad løngu seirna A
Skipt þui vt a medal siø og a medal ætta/Þui þu veist ei huer Ohamingia
koma kañ a Jørdena. Nær Skyen eru full þa giefa þau Regn yfer Jør-
dena/Og nær ed Eiken fellur i Sudur eda Nordur/og i hueria ætt hun fell-
ur/þar liggur hun. Huer hñ giæter ad Vedrenu hñ sæer ecke / Og huer ed
aktar Skyen hñ vppskier ecke. Lÿka sem þu veist ei Veg Vindariñs /og
huernen Beinen samteingiast i Modurlÿfenu / Suo kañtu ecke helldur vita Gudz Giørnin- B
ga/hueria hñ verkar i øllum hlutum. Sædu þÿnu Sæde ærla/z hætte þÿn Hønd ecke ad
Kuelldenu/Þui þu veist ecke/huert luckast mun þad eda añad/ Og ef huertueggia luckast/er
þad þess betra. Liosed er Sætt/og þad er Augunum vnadarsamt at sia Solena.
Nær eirn Madur lifer leinge/og er gladur i øllum hlutum/Þa þeinker hañ alleina a þa
hrellingar Daga/ad þeir suo marger eru/Þui allt þad hñ hender þad er Hiegome.

## XII.

a Med þessū kienningar Ordum/ vtmalar hñ elle Mañsiñs/þegar Hendr skialfa/Beinen bogna/Augū sliofgast Syn/Teñurnar wilia ecke mala/Hæred huitnar/Axlernar signa/Eyrun hanga og verda dauþ

SVo gled þig Vngmenne i þinne æsku/og lat þitt Hiarta vera glatt a A
þÿnum Vngdoms Døgum /Giør huad þitt Hiarta lyster/og huad þÿnum
Augū þocknast/ Og vit þ ad Gud skal færa þig til Domsiñs fyr' allt þta.
Lattu Sorgena vera langt fra þÿnu Hiarta/og tak þad hid vonda fra þÿ-
nu Lÿfe/ Þui Bernskan og Vngdomurenn eru Hiegome. Minst þu
a þiñ Skapara i þÿnum Vngdome/ ædur enn þeir vondu Dagarner ko-
ma/og Aaren nælgast/ad þu seiger/þad þocknast mier ecke. Aadur eñ Solen/Tungled og B
Stiørnurnar verda myrkuar/og Skyen koma aptur epter Regned. A a þeirre tÿd þa Vak
tararner j Hwsenu skielfast/og þeir sterkū verda beygder/ og Mylnurnar standa tomar/þui
þær eru ordnar suo fæar/og Synen er myrk i giegnum Gluggana. Og Dyrnar a Strætunū
blÿfa til lucktar/og Raust Kuernmalara Kuinnuñar er lÿtel/ og hun vppuaknar nær Fugl-
eñ syngur/og allar Dætur Sønguaranna beygia sig. Og þeir hæfu ottast og hrædast æ
Veigenum

Deigenum / Nær Mandiel kried blomgast / og Grashoppurnar þyngiast/og øll Lystingen forgeingur(Þuiad Madurenn fer þangad sem hañ skal vera æfenliga/ Og þeir ed Narmagrætana þylia ganga vm krijng a Strætunum). Adur eñ Silfursnwran i burt brestur/ z su Gullkielldan fram̃hleypur/ og þær Vats skiolurnar lestast hia Bruñunum/og Niolen i Gen. 2. 3.
E sundurbrotna yfer Brunnunum. Þuiad Dupted hlytur ad verda aptur ad Molldu sem þad adur var/Eñ Lijfed og Andeñ kiemur aptur til Gudz þess sem hũ gaf.

Þad er allt saman miøg Niegomligt/seiger Predikareñ/allt er þad Niegome. Þesse same Predikare var ecke alleinasta Nyggeñ/helldur kiende hann Folkenu godar Kieñingar/og hũ athugade/og ransakade og samsette mørg Spakmæle. Hũ leitade vid ad hũ giæte funded þacknæmelig Ord/ og mætte suo skrifa orden Sañleiksins rietteliga.

D Þesse Spakmæle eru suo sem Broddar og Naglar/skrifud af Meistara Safnadarins/og vtgiefen af einum Nirder. Vara þig minn Son fyrer hinum ødrum/Þui þar er eingenn skortur a þeim sem Bækur giøra/enn mijkel Predikun giører Lijkamañ þreyttañ.

Enn lætum oss heyra Iñehalld alls Lærdomsiñs/Ottast Gud/og halld hañs Bodord/ Þui þad er skylldugt øllum Mønnum. Þuidd Gud mun alla Giørninga framleida fyrer Domeñ/þa ſ eru folgner/huert sem þeir eru helldur Vonder eda Gooder.

Mergur og Innehalld alls Lærdomsiñs

## Ender a Predikan Salomonis





# I.

HAñ kysse mig med Kosse sijns Muñs/ Þuiad þijn A
Brioſt eru lyſteligre enn Vijn. Suo ad Meñ luckte þiñ goda Smyr-
ſla Jlm/ Þitt Nafn er ſem vtfliotanda Vidſmiør/ Þar fyrer elſka þig
Ynges meyarnar.
Drag mig epter þier/ þa hlaupum vid. Kongureñ færde mig i ſitt
Herberge. Vier kiætiunſt og gledium oſſ yfer þier/ Vier þeinkiũ meir
til þiña Brioſta/ helldur eñ til nockurs Vijns/ Þeir Riettuñſu elſka þig
Eg er dock /Eñ þo miøg prydelig/ Þier Dætur Jeruſalem/ ſo ſem Tialldbwdernar Ke- B
dar/ og ſo ſem Vefnadartiølld Salomonis/ Skoded mig ecke/ ad eg er ſo døck/ Þuiad So-
len hefur brent mig. Syner miñar Modr eru mier reider/ Meñ hafa ſett mig ad eg ſkyllde
vera geymſlu kona Vijngardſiñs/ Eñ eg geymda ecke miñ Vijngard þañ eg hafde.
Lætu mig vita/ huern þijn Sæla elſkar/ Huar þu fædeſt/ huar þu huijler vm Mi ddageñ
So eg gange ecke hingad ⁊ þangad/ hia ſamfielage þiña Hiardar geymſlumaña.
Þecker þu þig ecke/ þu hin fegurſta a medal Kueñaña/ ſo gacktu a Saudaña Fotſpor/ og C
fæd þijna Kiarn hafra hia Hwſum Hirdaraña.
Eg jafna þier mijn Kiæraſta vid mitt Riddara lid i Pharaonis Vøgnum. Þijn Kinn-
beinſtanda lyſteliga/ j mille Spænganña/ og þiñ Hæls j mille Kedianna. Vier vilium gio-
ra þier gylltar Spænger/ med Silfur nøglum.
Þa Kongurenn ſnere ſier hingad/ gaf miñ Nardus ſinn Jlm. Minn Vin er ſm̃ Mir-
ru Byndine/ hangãde a millum minna Brioſta. Miñ Vin er mier ſem ein Copher þrwga D
i Vijn gardenum til Engeddi:
Sia mijn Kiæraſta/ þu ert føgur/ ja føgur ertu/ Þijn Augu eru ſm̃ Dwfu Augu. Sia
minn Vin/ þu ert fagur og prydeligur/ Vor Sæng er græn/ Vorer Hwsbitar eru af Cedrus
trie/ og vorar Sperrur af Sypreſſus Vide.

# II.

EG er eitt Blomſtur i Saron/ og ein Roſa i Dalnum. Suo ſm̃ ein Lil-
ia a medal Þyrnanna/ ſuo er mijn Kiæraſta a medal Dætranna. Lij- A
ka ſem eitt Eplis Trie a mille Ville triaña/ ſo er minn Vin a medal Son-
anna. Eg ſit vnder hñs ſkugga ſem mig girner/ og hñs Auøxtur er ſæt-
ur mijnum Barka.
Hñ leidde mig i ſiñ Vijnkiallara/ og Kiærleikurenn er hañs Merke yfer
mier. Hñ lifgade mig med Blomſtrum/ og nærde mig mz Eplum/ Þui eg er ſiuk af Aſteñe.
Hñs vinſtre Hønd er vnder mijnu Høfde/ og hñs Hægre hønd vmfadmar mig.
Eg ſære ydur þier Dætur Jeruſalem/ vid Geitur ⁊ Hindr a Mørkiñe/ ad þier huerke vpp B
veked nie onaded mijna Kiæruſtu/ fyrr enn hun ſialf vill.
Þad er Rødd mijns Kiæraſta/ Sia þu/ Hñ kiemur ſtøckuande a Fiøllunum/ og ſtediande
a hædunum. Minn Kiæraſte er lijka ſem Hrein Dyr eda vngur Hiørtur. Sia þu/
Hñ ſtendur a bak vid vorn Vegg/ og ſier i giegnum Gluggana/ og giægeſt vt vm Grindur-
nar.
Minn Vinur ſuarar/ og ſeiger til mijn/ Statt vpp mijn Kiæraſta/ mijn en prydeliga / og C
kom hingat til mijn. Þui ſia þu/ Veturenn er lideñ/ Regned er af og i burthorfed. Blom
ſtred er vppuaxed i Landenu/ Vøred er komed/ og Turtil dwfan kuakar i voru Lande. Fijk
iu Tried hefur feinged Auøxt/ Vijntrien ſtanda med Bloma/ og giefa ſiñ Jlm/ Stattu vpp
mijn Kiæraſta og kom/ mijn en prydeliga kom hingad. Mijn Dwfa i Steinholunum og
Biargſkorunum/ Syn mier þitt Andlit/ Læt mig heyra þijna Rauſt/ Þui þijn Rødd er ſæt/ ⁊
þitt Auglit er prydeligt.
Taked fyrer oſſ Refana / Þa Smarefana / þeir ſem fordiarfa Vijngardana/ Þui vorer D
Vijngardar Blomgaſt. Minn Vinur er minn/ og eg em hanns/ hann huer ed til ha-
ga helldur

ga helldur a medal Liliu Rosaña. Þar til Dagureñ kolnar/ꝛ skuggeñ burt lijdur. Kom þu aptur/ꝛ vert sem Hind/ minn Vin/ eda sem vngur Hiørtur a skilnadar Fiøllum.

# III.

A EG leitade vm Nottena i miñe Sæng/epter honum sem mijn Sæla elska-
de/ Eg leitade og fañ hñ ecke. Eg vil nu standa vpp ꝛ gāga vm krijng i
Stadnum/a Gøtunum ꝛ a Strætunum/og leita epter hm sem mijn Sæl
elskar. Eg leitade/eñ eg fañ hñ ecke. Vardhalldsmeñerner sem gein-
gu i krijngum Stadeñ fundu mig. Hafe þier ecke sied þañ sem mijn Sæ-
la elskar? Þa eg var skamt geingenn fra þeim/þa fañ eg þañ sem mijn
B Sæl elskar. Eg hiellt honum og villde ecke sleppa honum/þar til ad eg leidda hñ i miñar
Modur Hws/og i miñar Modur Herberge.

Eg sære ydur þier Dætur Jerusalem/ vid Geitur og Hindur a Mørkinne/ad þier huerke
vppucked nie omaked mijna Kiærustu/þar til hana sialfa lyster.

Huer er þañ sem vppgeingur af Eydemørkunne/ sem eirn Reykstolpe/ suo sem Ilmur
C af Mirru/Reykelse/og allra handa Puluere Jurtra makarañs. Sia/J krijngum Salo-
monis Sæng standa sextijge sterker/af þeim sterkum i Jsrael. Þeir hafa aller Suerd / og
eru kiæner til Bardaga/ Huer hefur sitt Suerd a siñe sijdu/ søkum Nætur ottans.

Salomon Kongur liet giøra eirn Sal af Libanus Vide. Og Stolparner voru af Silf-
D re/eñ Rimfred af Gulle/ Sæted af Purpura/Golfid i midiuñe var lagt mz dyrligū Steinū/
fyrer saker Dætra Jerusalem.

Þier Dætur Zion ganged vt/og siaed Salomon Kong/med þeirre Koronu sem hñs Mod-
er koronade hañ/ a hñs Brwllaups dag/ og a gladuærdar deige hañs Hiarta.

# IIII.

A SJa þu mijn Kiærasta/þu ert føgur/Sia/føgur ertu. Þijn Augu eru sē
Dwfu Augu a millum þinna Hærlocka. Þitt Hær er lijka s̄ Geita hiørd/
su sem klypt er a Fialle Gilead. Þijnar Teñur eru sem ny klypt Hiørd/
komande fra Laugieñe/verāde allar saman tuilembdar/ꝛ þa er eingen ofrio
a medal þeirra. Þijnar Varer eru sem dreyr raudur Dreigell / og þitt
Mæl er lysteligt. Þijnar Kinnur eru sem rispur a Granata Eple/i mill-
um þinna Hærlocka. Þinn Hæls er sem Dauidz Turn/bwenn mz Vijgskordum/a huer-
B ium ed hanga þusund skyllder/og alls kyns sterk Vopn. Þijn tuø Briost eru þuilijkast sē
tuø vng Hindar Kid/sem fædast vnder Rosu/allt þar til ad Dagurenn kolnar/og Skuggenn
burt lijdur. Eg vil fara til Mirru Fiallsiñs/og til Reykelsins Hædaña.

Mijn Vñusta/þu ert føgur i allañ mæta/suo þar er eingeñ Fleckur a þier. Kom mijn
Brwdur af Libanon/kom af Libanon. Gack hier jnn/stijg hingad af Amana Hædum/af
C Hædunum Senir/og Hermon/fra Leona Bælenū/ꝛ fra Leparda Fiøllunum. Þu hefur sært
mitt Hiarta mijn Syster/elskulig brwdꝛ/mz ødru þijnu Auga/og mz eirne þiñe Hæls Kediu.

Huersu føgur eru þijn Briost/mijn Syster/ Kiærasta Brwdur? Þijn Briost eru fegre
enn Vijn/og þinn Smyrsla Ilmur yfergeingur allar Jurter. Þijnar Varer mijn Brwd
ur eru sem driupande Hunangs seimur/ Hunang og Miolk er vnder þinne Tungu/ꝛ Ilm-
ur af Klædum þijnum/er suo sem Ilmur Libanon.
D O mijn Syster/Kiæra Brwdur/þu ert eirn læstur Alldingardur/ein til luckt Vppspretta
eirn jnnciglādur Brunnur. Þinn Auøxtur er lijka sem lystugur Alldingardur fullur af
Granata Eplum/mz gofugum Auøxtum/Cypери og Nardi. Nardus ꝛ Saffran/ Kalmus
og Cynamomum/ꝛ allra handa Reykelsis Trie/Mirra og Aloe mz øllum bestum Jurtrum.
Sem eirn Alldingardz Brunnur / sem eirn Brunnur Lifanda Vatns/sa er flytur af Lyba-
non.

Rijs vpp Nordan Vindur/og kom Sunnan Vindur/og blæstu i giegnū miñ Alldingard suo ad af hñs Jurtum meige drtupa.

# V.



Inn Vin kome hñ i sinn Alldingard/og neyte af hñs Dyrligum Auextum. A
Eg kom/mijn Syster/kiærasta Brwdur/i miñ Alldingard/Eg hef af muled mijna Mirru med odrum Kryddum/Eg hefe eted minn Hunangseim mz mijnu Hunange/eg hefe drucked mitt Vijn mz miñe Miolk. Eted mijner elskendur/ og drecked mijner Kiærer Viner/ og vered glader.

Eg sef/eñ mitt Hiarta vaker/Þad er mijns Vinar Raust/sem þar ber. Lat vpp mijn allra kiærasta/mijn Syster/mijn Dwfa/mijn Jñeliga / Þuiad mitt Hofud er fullt af Døgg/ z mijner Lockar eru fuller af Nætdropum.

Eg hefe fært mig af mijnum Kyrtle/ huernen skal eg nu færa mig i hñ aptur? Eg hefe þueiged mijnar Fætur? huersu ma eg giora þa oklæra aptur? B

Eñ minn Vin stack sinne Hende i giegnum eitt Hol/z minn Lijkame skalf þar vid. Þa stod eg vpp/og lauk vpp fyre mijnum Kiærasta/Mirrañ draup af mijnum Hondum/z Mirran flaut vm mijnar fingur/a Hurdar lokuñe. Og þa eg hafde vpplæted fyrer mijnum Vin var hñ i burtu/og af stad geingenn.

Þa gieck mijn Sæla vt/eptet hñs Ordum/Eg leitade ad honum/enn eg fann hañ ecke/ C
Eg kallade/enn hñ suarade mier onguu. Vokumennerner sem geingu vm stadenn þeir fūdu mig/slou mig og særdu/Vaktararner a Mwrunum toku mijna Yferhøfn fra mier. Eg sære ydur þier Dætur Jerusalem/ef þier fiñed minn Vin/þa seiged honum ad eg ligg siuk af Astarelsku.

Huad er þinn Vinur framar eñ adrer Viner/O þu eñ fegursta a medal Kueñaña? Hūnen er þinn Vinur framar ødrum/ad þu hefur suo sært oss? Minn Elskhuge er Huijtur z D
Raudur/vtualenn a medal margra Þusunda. Hñs Hofud er besta Gull. Hañs Lockar hrøckua/og eru suarter sem Hrafn.

Hñs Augu eru sem Dwfu Augu hia Vppsprettu Lækium/þueigen mz Miolk/og standa j fyllingu. Hñs Kinnbein eru sem vaxande Jurtramakarans Alldingardur. Hñs Varer eru sem Ros/af huerre ad drypur rennande Mirra. Hñs Hendur eru lijka s̃ Gullhringar hladner med Hyacintis. Hñs Lijkame er sem Filabein prydd mz Saphir/ Hañs Bein eru s̃ Marmara stolpar grūdualladir mz Gullfotū/Hñs Mynd er s̃ Libanon/ vtualen sem Cedrus Trie/ Hañs Barke er sætur og allur Lysteligur. Slijkur er minn Vinur /og hñ er minn Vinur/þier Dætur Jerusalem.

# VI.



Vert er þinn Vinur geingenn/þu en fegursta a medal Kueñaña?/ Huert hefur þiñ Vinur viked sier?/ so viliū vier leita mz þier ad honū. Miñ Vinur er ofangeingenn i sinn Alldeñgard/til sinna Jurtra/ad hñ fæde sig i Gardenum/a medal Rosanna. Miñ Vinur er minn/z eg em hñs/ hñ sem sig fæder a medal Rosaña. A

Þu ert føgur mijn Vñusta/sem Thirza/lystelig sem Jerusalem/ogurlig sem Brioft Fylkingar. Snu þu þijnum Augum fra mier/Þui þau giora mig breñanda/ B
Þitt Haar er lijka sem Geitsaudahiord/sem klypt er a Gileas Fialle. Þijnar Tennur eru lijka sem Sauda hiord/huer ed sig hefur laugad/ hafande øll saman Tuibura/og þar er eingen ofriofsoni a medal þeirra. Þijn Kinnbein eru lijka sem Rispur a Granata Eple/ a medal þiña Locka.

Sextijge eru Drottningarnar/og attatijge Frillurnar/enn a vngum Meyum er eingen tala. C
Eñ ein er mijn Dwfa/ mijn jñeliga/ein er sinnar Modur en kiærasta/og siñar Modur enn vtualda. Og þa Dæturnar Sæu hana/sogdu þær hana Sæla/og Drottningarnar med Frillunum lofudu hana. Huer er su sem framkiemur sem Morgunrode? Føgur sem Tungl? vtualen s̃ Sol? ognarlig sem Hermaña fylking?

Eg em ofan geingeñ i Valnyta Gardeñ/ ad skoda Greinernar hia Lækiunum/z at skoda D

huert ad Vijntrien blomgast/og ef Granata Eplen eru vaxen. Mijn Sæla visse ecke/ad hũ hafde sett mig til Vagna Aminadab.

Kom aptur/kom aptur/o Sulamith/kom þu aptr/kom aptr/ so ad vier meigũ skoda þig. Huad siae þier a Sulamith/nema Dans i Mahanaim.

## VII.

A HVersu fagur er þiñ gangr i þijnum skoklædũ/þu Høfdingians Dotter? Þijnar Lendar standa bædar/lijka sem tuær Speingr/þær eins Meistara mañs Hønd hefur giørt. Þinn Nafle er sem krijnglottur Bikar/ huern ad alldrei vantar Dryck. Þinn Kuidur er sem Hueite hrwga/i krijng sett mz Liljum. Þijn bæde Briost eru s̄ vng tuiburakid eirnrar Hindar. Þiñ Hæls er sem eirn Turn af Fila beine. Þijn Augu eru sem Fiske Vøtn i Hesbon/

B hia Bathrabbim Porte. Þijnar Naser eru sem Libanon Turn/huer ed veit til Damaschum. Þitt Høfud stendur a þier suo sem Carmelus. Hæred a þijnu Høfde er sem Kongsiñs Purpure/bundeñ i Ferder.

C Huersu føgr ꝛ prydelig ertu/mijn Kiærasta i Sællijfenu? Þijn Leingd er sem Palma trie/þijn Briost eru ꝛ sem Vijnþrwga. Eg sagda/ Eg hlyt ad vppstijga a Palma tried/ og taka þess Kuistu/Lat þijn Briost vera sem Vijnþrwgur a Vinuidartriam/ad þijnar Naser luckte sem Eple/og þiñ Barke lijka sem gott Vijn/ huert ed gladliga nidurreñur mijnum Vin/og talar af fiarlægu. Miñ Vin er miñ/ꝛ hũ helldur sier ad mier.

D Kom minn Elskulige/vid vilium ganga vt a Markena/og lætum oss vera i Þorpunum. So ad vid meigum ærla vppstijga til Vijngardaña/so vier mættũ vita huert Vijntrien blomgast/huert Blom er vtkomed/hũt Granata Eplatrien friofgast/ Þar vil eg giefa þier mijn Briost. Liliurnar giefa þar Ilm/ꝛ þar er allra handa gøfugr Auoxtur fyrer ockar Dyrũ Miñ Vin/eg hefe geymt handa þier bæde þad nyia ꝛ gamla.

## VIII.

A ON/ad eg mætta fiña þig þar vte/miñ Broder/sm̃ ad sygr miñar Modurbriost/ꝛ eg mætte kyssa þig/so eingeñ hædde þig. Eg vil taka þig/ꝛ leida þig i miñar Modr Hws/þar skalltu læra mig/ Þar vil eg giefa þier ad drecka/af kryddudu Vijne/ꝛ af Sætleika miña Granata Epla. Hũs Vinstre Hønd liggur vnder mijnu Høfde/ꝛ hũs hægre Hønd fadmar mig.

Eg sære ydr þier Dætur Jerusalem/ad þier huerke vppueked nie onæded mijna Vñustu/þar til hana sialfa lyster. Huer er su/s̄ vppfer af Eydemørku/ ꝛ stydst vid

B siñ Vin? Vnder Eplatrienu vppuakta eg þig/þar þijn Moder hafde fædt/þar sem hun la ꝛ þu/ hun sm̃ hafde vppaled þig.

Settu mig a þitt Hiarta sm̃ eitt Jñcigle/ꝛ vppa þiñ Arm s̄ añad jñcigle/ Þui Kiærleikureñ er suo sterkur sm̃ Daude/og Vandlæted suo fast sem Heluijte/þess Glædur eru breñande s̄ DROTTINS a Elldr. So ad mørg Vøtn kuña ecke ad sløckua Kiærleikañ/ nie Straumarner ad kefia hñ. Þo ad Madr villde giefa øll Audæfe sijns Hwss fyrer Kiær-

C leikañ/þo være þad allt ecke þar vert.

Vor Syster er lijtel/ꝛ hefur eingen briost/Huad skulu vier giøra vorre Systur/ nær meñ vilia tala til heñar? Er hun eiñ Mwr/þa vilium vier byggia Vijgskørd af Silfre þar vppa/Er hun einar dyr/þa vilium vier giøra hana fast mz Cedrus Trie. Eg em eirn Mwr/ꝛ mijn briost eru s̄ Turn/Þar er eg orden fyrer hũs Augũ lijka s̄ sa ed Frideñ fiñur.

a (Elldur) Af þessum Ordum ma merkia/ad Salomon talar i þessu Loþkuæde wm andliga Ast og Elsku/huerja Gud giefr og syner oss i øllũ sinũ Velgiørningum

Salomon hefr eirn Vijngard i Baalhamon/Hñ gaf vardhallds møñum Vijngardeñ/ad

D huer af þm skylldu færa hm̃ fyrer hũs Auoxtu Þusund Silfurpeninga.

Miñ Vijngardr er fyrer mier. Þier Salomon heyrer til Þusũd/eñ Vardhalldzmøñunũ tuo hundrut med hũs Auexte.

Þu s̄ byr i Alldengardenũ/lat mig heyra þina Raust/Vinerner hlyda þar vppa.

Fly þu miñ Vin/og vert s̄ ein Hind/eda sm̃ eirn Vngur Hiørtur a Jurtrahædunum.

Ender a Loþkuæde Salomonis

